# Stuttur
# Sida-Lærdómur
fyrir
## gódra Manna Børn,
af
## J. H. Campe.
Utlagdur á Islendsku af
**Gudlaugi Sveinssyni,**
Prófasti í Nordur-parti Isafjardar-sýslu, og Sóknar-presti til Vatnsfjardar.

Asamt
## Vidbætir
um
## Barna-Agu
af
## Mag. Hasse.
Utlagdum af
**Sigurdi Snorrasyni,**
Examinato Juris.

Selst almennt innbundinn 28 skild.

Leirárgordum vid Leirá, 1799.
Prentadur á kostnad Islands almennu Uppfrædingar Stiptunar,
af Factóri og Bókþryckjara G. Schagfjord.



# Til Lesarans

Þegar eg með þessum fáu línum er að fullnægja ósk vors ydjusama Lærdóms-elskara, Prófastsins Hra. Gudlaugs Sveinssonar, að eg með litlum Formála mæli fram, með þessum af honum útlagda bæklíngi, þarf eg ecki að vera margordur, heldur að eins láta nafn hans ódaudlega Høfunds, þess í Nordur-álfunni svo nafnfræga Barna-frædara, hvørs verk og kénnslu-adferd og lærdóms-bækur í margsháttar vísindum, hafa fyrir laungu verid valdar til

*) munst-

mynnsturs og eptirbreytnis í skólum þeirra þjóda, sem mest láta sér vera annt um gott uppeldi barna, stutt: láta **Campes** nafn vera hans bestu lofrædu. Og þegar eg rita til eldri Lesara þessa bæklings, má eg vita ad Sidgjædis-hatarinn les hvørki hann né minn formála, heldur sá besti og fjølmennasti hópur minna kjæru Landsmanna, fyrir hvørjum ecki er framar þørf ad brýna, hvørsu mikilsverd og naudsynleg og lofleg sé hvør og ein videleitni, ad menta sem best og laga únga góda borgara fyrir land og lýd og góda kristna til eilífdarinnar; því sjálfir hafa þessir Lesarar komist ad raun um, hvørsu tignarleg, ágjæt og heilla-vænleg ad dygdin er, sú dygd, sem þegar á únga aldri er rótfest, fer sídan dagvaxandi, og verd-

verdur ad lokunum vid vana og æfíngu náttúru-far; sú sidprýdi og ætt-systir dygdarinnar, sem daglega sæmir sinn elskara heidri og ástsæld og heillum, þegar vidbjódur, óheill og vanvirda eltir sérhvörja órádvendni, hvörja frekju, hvörn einn ruftadóm.

Njóti þá einkum, mínir úngu Landsmenn! hvörjum bæklíngur þessi, eptir Titilsins ávísun, ætladur er, allrar þeirrar ánægju og uppbyggíngar af hans brúkun og lestri, sem Utgéfendurnir og Utleggjarinn svo innilega óska; allir saman þess heidurs og þeirra lángvinnu og ómetanlegu heilla, sem dygdarinnar lærdómur og æfíng og á dygd grundvöllud Sidprýdi, til hvörs alls bæklíngur þessi vísar hér greinilega

veg,

veg, heita þeirra hngri og eldri stadføstu elskurum í þessu og ókomnu lífi!

Vidbætirinn um Barna-Aga af Mag. Hasse, útlagdur af Hra. Sigurdi Snorrasyni, lýtur allur ad sama augnamidi og ádurnefnd Campes bók, og vonast því ad verda velkominn íslendskum Lesurum og Foreldrum.

Leirá, þann 10da Augústí 1799.

M. Stephensen.

Inn-



# Inngángurinn.

Fyrir stuttum tíma, kjæru børn! lifdi madur nockurr, harla vitur, sem hét Gottlib Ærukjær.

Allir þeir, sem hann þeckti, sá enn þá ecki um hann talad, án þess tárin standi þeim í augum; því hann var sérlega gódur og valinkunnur madur, sem fann mestu ánægju í því, ad gjora ødrum monnum gott. Frá barndómi hafdi hann tekid sér þá stoduga reglu fyrir, ad láta engann dag hjálída, án þess ad gjora eitthvad gott, sem hann ad hvors dags qvøldi skrifadi í dagbók sína; þeim, er var í bágindum, og ecki vissi hvad hann skyldi til bragds taka, kom hann til adstodar med heilrædum, því hann var bædi vitur madur og velreyndur. Fátæklíngnum hjálpadi hann af egin efnum, og útvegadi honum hent-

 ug-

ugleika til, ad géta med framtídinni, á- unnid sèr uppheldi; findi hann einhvørn vesælann, hvort heldur hann var kristinn, gydíngur eda heidíngi, aumkadist hann af hjarta yfir hann, leitadist vid ad hugga hann og hjálpa honum; hann er mad- ur, sagdi hann, eg er og madur, þad er nóg; væri í hans áheyrn talad illa um nockurn mann á bak, þá forsvar- adi hann þann sama, sem bródur. Hann gat ecki vitad, ad nockurr yrdi fyrir ó- rètti; en findist þarámót svo ógud- legt fólk, sem gjørdi honum sjálfum ó- rètt, leitadist hann aldrei vid ad gjalda illt med illu, ecki heldur hatadi hann þá, sem gjort høfdu á hluta hans, heldur mótlættist ad eins yfir óvitsku þeirra.

Ein af hans kjærustu sýslunum var sú, ad safna saman sínum egin og ná- búa sinna børnum kríngum sig, og kenna þeim, hvørninn þau verda mættu góð- ar og farsælar manneskjur; menn hafa og sídarmeir sjed, ad øllum þeim børn- um hefir vel vegnad, sem þágu hans und- irvísun og fylgdu hans fødurlegu rádum.

Einusinni þegar hann nærstum var sjøtýgi ára gamall, sat hann eitt sag-

urt

nrt sumardags-qvøld, undir skuggafullu lindi-trè, og hugsadi úti sitt undanfarid lífernì; hans augu, hvør hann optlega hóf upp til himins, leyptrudu af gledi, þegar hann yfirvegadi þann dýrmæta þánka, ad hann hefdi þó ecki lifad forgéfins í heiminum; og vid sérhvørja endurminningu eins edur annars góðverks, sem hann gjort hafdi á sinum umlidnu døgum, flódu yndælust fagnadar-tár ofan eptir hans gladværu kinnum: því, min kjæru børn! trúid þeim, sem betur eru æfdir dygdanna vinir, uns þid loksins sjálf af egin reynslu lærid: ad þad er hin ædsta farsæld, ad vera sér sjálfum medvitandi ágjætra athafna.

Medan hann nú þannig sat, og naut þessarar sælu, kom hans frómlundadi nábúi Andrés Gottvill, og setti sig nidur hjá hønum, til ad halda lærdóms-ríka rædu vid hann: „svo lengi sem „eg nú hefi þeckt ydur, kjæri nábúi! ságdi hann, og lagdi um leid hønd sína á hønd hins gamla, „hefi eg aldrei „séd ydur alvarlega misfornægdann, „segid mér þó, hvørra bragda þér neytid til þess, ad vera sífeldt svo róleg-

 „ur

„ur? ætíð svo ánægður?" Þar til gèta verið ráð, svaraði Ærukjær, ef þèr vitið það ekki, og leit með sama hýrslega í augu honum, en sæhið fyrst, vor ástkjæru ydar og mín born, sem gánga þarna í kál-garðinum, og eru að leika sèr; það er mèr ætíð svo yndislegt, þegar þau eru kríngum mig, og eg óska þau mættu líka heyra, hvaða veg skuli gánga, til þess að þau verða mætta farsæl.

Gottvill sókti þessa smælíngja; varla hofðu þeir heyrt, að faðir Ærukjær vildi tala við þá, fyrr enn þeir snorudu frá sèr leikfángi þeirra, hlupu sem hraðast, og upp um háls og faðm hins gamla. Þá talaði hann til þeirra, eptirfylgjandi ræður.

## Fyrsta Qvøldræda.

### Um skyldu mannsins við sjálfann sig.

Mín kjæru born! Gottvill nábúi minn óskar af mèr að vita, hvorninn eg hafi svo hagað mèr, að eg alla mína æfi til þessarar stundar, nærstum ætíð hafi verið ánægður; lángar yckur líka til að

heyra

heyra þad? ójá! Fadir minn góður! ójá! hrópudu þau øll í einu hljódi, og kloppudu høndunum saman af gledi, og sá gamli gódi Wrukjær, héldt fram rædunni:

Eg mun nú, mín gódu børn! ecki mikid eptir ega ólifad, og jafnvel þó eg lifdi lengi hér eptir, mundi eg þó ei æ-tíd hjá yckur vera; því skéd gétur ad þid, innan fárra ára, verdid komin sitt í hvorja áttina; þá verdid þid sjálf ad ráda fyrir yckur, og séud þid þá ecki skynsøm og gód, þá gjørid þid yckur sannarlega sjálf ógjæfusøm, annadhvørt sjúk edur fátæk, edur hotud af ødrum mønnum, edur óánægd; og hvad gagna yckur þá allir hlutir í heiminum?

Þid vitid hvad mjøg eg elska yck-ur, og ef eg nú dæi, og sæi fyrifram, ad þid nockru sinni mundud verda yck-ur til ólucku, þá yrdi eg, mín kjæru børn! óhuggandi á minni sóttar-sæng; (vid þessi ord gátu børnin ei tára bund-ist) veit eg þó, ad þid med ásetningi viljid ei þannig hryggja yckar gamla fødur; en ad þid ecki heldur skulud gjøra þad af vanvitsku, þá vil eg ad þessu

sinni segja yckur allt þad, er eg trúi, kunni ad gjora yckur ad svo skynsömum og gódum, og þessvegna svo lucku-legum manneskjum, sem nockurntíma er mögulegt.

Er þad ecki satt, mín kjæru born! ad þid hafid optsinnis verid sjúk? lángar yckur til ad vera þad? vildud þid ecki heldur vera heilbrygd? þegar þid vórud sjúk, hofdud þid enga lyst á hvorki ad eta né drecka; þid máttud allann daginn liggja í rúminu, þegar yckar litlu leiks-brædur hlupu um kríng og skémtu sér undir lindi-trjánum, gengu um gólf í kálgardinum, fóru til laugar ad bada sig, edur med odrum hætti skémtu sér, þá var yckur allt þetta bannad, þid fundud til verkjanna hér og þar í ollum kroppnum; þid gátud ecki sofid á næturnar, og allt þad, sem var í kríngum yckur, var yckur einúngis til ángurs; vildud þid enn þá einusinni leggjast veik? „ónei! hrópudu bornin, þad er „lángtum betra ad vera ætíd heilbrygdur.“ Rétt segid þid, sagdi fadirinn, en ad sinni vitid þid varla ad hálfu leiti hvorsu mikid yckur ridur á þvi ad vera heil-

heil og hraust. Eg átti í úngdæmi mínu gódan vin, sem lá veikur í 6 ár, þessi vesælíngur átti konu og 5 börn, sem vóru enn þá yngri enn þid; hans ástand, ádur hann sýktist, var einka blómlegt, því hann var nafnkénndur Kaupmadur, sem hafdi mikla kauphöndlun. Á medan hann sjálfur sá um kaupskap sinn, fékk hann lán hvar hann vildi, og luckan styrkti öll hans fyritæki, en undireins og hann veiktist, gékk allt af honum. Hann héllt Bókhaldara nockurn, hvörjum hann vard ad trúa fyrir öllu; þetta greimenni forsómadi ecki einúngis hans höndlun, heldur og stal frá honum, og sveik þaradauki adra undir nafni húsbónda síns; hrakmenni þessu hefir líka aldrei sídan nema illa vegnad, því enginn skeytti um þjónustu hans, sem vissi, ad hann bædi hafdi svikid og stolid frá vin mínum. Þessi vinur minn vard nú á þeim fyrstu 4 árum síns sjúkdóms, svo fátækur, ad hann neyddist til ad selja allt sitt, og gèfa frá sér kaupmanns-skapinn; hefdi hann í tíma adgjætt Bókhaldarans svik, edur hefdi konan, á medan hans sjúkdómur yfirstód, haft vak-

andi auga á öllu í húsi þeirra, þá hefdi ecki svo ógæfusamlega tiltekist fyrir honum, en óluckan var, ad hann trúdi þessum Þorpara allt ofvel, án þess fyrirfram ad hafa reynt hann, og konan var líka allt of hyrdulaus; loksins vard allt lakara og lakara fyrir honum; Læknirinn, sem var medaumkunarsamur madur, gjördi ad sönnu sitt besta, án borgunar, ad hjálpa honum til heilsu, en þad var forgéfins; eptir ad þessi vesælíngur hafdi þjádst enn nú eitt ár, deydi hann loksins. En heyrid nú, gódu börn! orsökina til þessa hans sjúkdóms: hann hafdi einusinni dansad í brúdkaupi eins vinar síns, uns hann var allur í einu lödri, og til þess ad fyrri ryki af honum hitinn og svitinn, var hann svo óforsjáll ad hneppa frá sér, allt ad skirtunni, géck svo út ad glugganum, og þambadi fullt glas af sár-köldu vatni; af þessu feck hann uppdráttar-sýki, sem Læknarar kalla ólæknandi.

En af því hann annars var gódur og ágjætur madur, mundi hann hafa borid sjúkdóm sinn og mótgáng med þolgædi, og daudinn sjálfur mundi ecki hafa

hafa ordid honum óttalegur; en þar hann var sér medvitandi, ad hans egin vangætsla hafdi orsakad hvort-tveggja, svo vard hann þar yfir óhuggandi; hann mátti aldrei til þess hugsa, án þess hann félli í nockurskonar rádleysu, ad hann, sokum egin athugaleysis hlyti ad eptir-skilja 4 saklaus born, sem hann hjart-anlega elskadi, og hefdi annars gétad gjort sarsæl, í svo mikilli fátækt, ad þau varla gátu hulid líkami sína, eg segi 4 saklaus born, því þad 5ta hafdi hann misst medan hans sjúkdómur varadi; eg man nú ecki sjálfur med hvorjum hætti þad skédi; nábúi! munid þér þad ecki?

Já! já! man eg þad, svaradi Gott-vill; þad var átvaglinn Frizi, sem misti lífid, fyrir sína ákofu grædgi; hann hafdi gleipt steikta ávexti og Bollur*) bædi svo heitar og svo mikid í einu ad hann þaraf hlaut bana.

Rett,

*) Bollur eru Kjeckir á stærd vid Hænu-egg, eru þeir Hmist tillúnir af nidur-skornu kjoti, eda fiski, líka smáttmuldu hveiti-braudi, og bornir fram í Súpum hjá Fyri-fólki. Utlegg.

Rétt, rétt! sagdi sá gamli Akur-kjær, nú man eg þad: þad var hörm-úng ad sjá, hvörsu þessi vesælíngur, teygd-ist sundur og saman, fyrr enn hann qvaddi heiminn; þad var ecki all-lítill sorgar-auki fyrir hans þjáda fodur, ad horfa á þetta á sinni sóttar-sæng.

Ogjæfa konu hans, sem var módir þessa barns ábladi honum enn þá meira ángurs; eg hefi allareidu ádur sagt yckur, ad hún var ecki nógu umhyggju-som um heimilis ástandid, og þad kom af því, mín kjæru born! ad þá hún í sjúkdómi manns síns, gat á stundum ecki notid sinnar vanalegu hvíldar á nótt-unni, og ecki heldur alltjafnt um dag-inn sins reglulegs matar-ædis, fann hún uppá þad óyndis úrrædi, ad bæta hvoru-tveggi þennann skort med áfengum dryck-jum; þad var ad sonnu satt, ad hún drack litid í fyrstunni, en slaungun henn-ar óx daglega, eins og vant er; í stuttu máli: hún vandi sig dag frá degi þann-ig til ad drecka, ad hún varla gat lif-ad án þess hún væri svinkud; þetta var ecki minnsta orsökin til eydileggíngar alls þessa heimkynnis. Um vesælings born-

in

in hyrdti enginn; Bókhaldara-mindin mátti nú gjora hvad hann vildi, þar enginn leit eptir neinu, og þann lángþjáda, aumkunarverda fodur hreyf daudinn til sín. Loksins hlaut konan sjálf ad lída fyrir sína yfirsjón, hún feck af þessu lúngna-brand, sem dró hana aumkunarlega til dauda. Eg var vidstaddur þá hún deydi, en ecki gét eg sagt yckur, born mín gód! med hvílíku skapi eg var þar vid; eg vil ecki heldur í þetta sinn hugsa þar um, því ef eg gjordi þad, og á ný færi ad íhuga orvæntingarord þessarar deyandi konu, eymd hennar ecktamanns, og qvein þeirra aumu og vesælu barna, svo mundi eg ei vera fær til ad tala meira; Gud vardveiti sérhvorja manneskju frá þvílíkri endalykt! hér þagnadi vor gódi gamli madur um hríd, þurkadi tárin af augum sér, og héllt sídan fram rædunni.

Þid sjáid af þessu dæmi, bornin gód! hvorsu mikil eymd kann ad rísa af því, þegar menn ecki, svo mikid sem mogulegt er, hafa gát á heilbrygdi sinni; vaktid yckur þess vegna fyrir ollu því, sem kann ad gjora yckur veik; ad eta

og

og drecka opt, án þess madur sé svángur eda þyrstur; ad eta um of og drecka um of einkum af áfengum dryckjum; ad voga sér í hættusulla leiki; ad vera óadgætinn á vodalegum stødum; þetta alltsaman gétur gjort yckur sjúk og vesæl.

Leti og ómennska gétur líka svo ablad yckur sjúkdóms; er þad ecki satt, ad þegar þid hafid sofid of lengi, þá gángid þid miklu slensyllri og naudugri ad verki yckar, enn annars, og þegar þid hafid ecki hrært yckur, þá smackast yckur ecki nærri svo vel mátur og dryckur, sem þá þid hafid af kappi hlaupid umkring? Þetta er strax byrjun til sjúkdóms; haldid þid nú áfram med ad sofa of lengi, og þannig sífellt ad verda latari og þúnglimalegri, þá vestnar þessi sjúkdómur dag frá degi, og ad sídustu verdid þid duglaus og ónýt til allra verka, og jafnvel til ad leika yckur.*)

Tvennslags ersidi er annars til, mín kjæru børn! sem hvørt-tveggja er jafn-nytsam-

*) Sjá framar um þetta efni Dr. Martinets, Edlis Utmálun Mannesk-junnar, pag. 104. Utlegg.

samlegt: hid eina kallast Handverk, edur Handa-Erfidi, þar menn sérílagi brúka höndurnar þar til; hitt er kallad Höfud-Erfidi, vegna þess menn framqvæma þad med hofdinu, edur, réttara sagt, med sálar-kroptunum, til dæmis: hinn ydjusami Skósmidur, sem saumar skó yckar og stígvél, hann fremur Handverk, edur Handa-erfidi; Kénnandinn þará móti, sem ástundar hvorninn hann fái gjort yckur ad dygdugum og luckusælum manneskjum, erfidar med hofdinu; hvorutveggja erfidid er oss monnunum nytsamlegt, ef vér viljum vera heilbrygdir á sálu og líkama. Vér megum vinna nockud med höndunum, edur fremja þvílíkt erfidi, sem géfi hræríngu líkømum vorum, annars meltist mjög svo illa fæda sú, er vér til vor tokum, þar af orsakast marghátttud veikindi og skjædir sjúkdómar; en, vér egum líka ad erfida med sálunni, þad er: kappkosta ad læra nockud nytsamlegt, annars verdum vér heimskíngjar, til einkis hæfir í heimi þessum, og komumst ad sídustu í armód og vanvirdu.

Eg hefi þeckt mann nockurn, hvorjum þannig afreiddi: hann var fæddur

 af

af ríkum foreldrum, hvørja á stundum hendti sú óvitska, ad brýna fyrir syni sinum: ad Þau hefdu safnad til handa honum mikilli peninga-summu, hvørja hann fyrst skyldi sá, Þá hann væri ord-inn vaxinn Þessi sávísi únglingur hugs-adi med sér: ad nú Þirsti hann ecki, sem adrir menn, ad vinna edur læra nockud, Þared hann í framtídinni gæti keypt alla hluti fyrir peninga sína; hann vandi sig Þess vegna á ad sofa til mid-degis, sídan bordadi hann, en Þó opt-astnær án Þess hann hefdi sanna matar-lyst; Þegar hann hafdi matast, settist hann vid spila-bordid, og spiladi til midnættis; nú geck hann til reckju og dormadi til nærsta middegis; hefdi hann eitthvad ad gjora utan-húss, lét hann ætíd aka sér í vagni; 4 eda 5 Þénarar hofdu fullt í fángi ad klæda hann í fotin, og Þessu likt var í fleiru; en — hvad skedi? Þegar hann hafdi hér um sjöra um tví-tugt, qviknadi eldur um nótt í húsi hans, sem glæddist svo fljótt og ákaflega, ad hann naumast fèck tíma til ad kasta sér út ígégnum gluggann í tómum náttrockn-um; á skémmri tíma enn einni klucku-

stundu

stundu vóru nú öll hans miklu audæfi ordin ad ösku-hrúgu. Nú stód hann uppi félaus og hjálparlaus, og vissi ecki hvad hann skyldi til bragds taka; af því hann hafdi eckert þad lært, hvar med hann gat unnid sér braud, en skammadist sín ad betla í þeim stad, hvar hann ádur hafdi lifad svo ríkmannlega, géck hann út á land og faladi þjónustu hjá bónda nockrum, til ad uppihalda lífi sínu, en þá hann hafdi stadid ad verki sínu hér um hálfa kluckustund, edur ætti ad gánga til næsta bæjar, datt hann um koll af þreytu; bóndinn sá skjótt, ad hann gat ecki nýtt hann til nockurs hlutar, vegna hans þol-leysis; hann hafdi ad sonnu hendur og fætur, en hvörutveggi komu honum ad litlu haldi. Hans sídurstu úrrædi urdu þess vegna, ad setja sig á gatna-mótin og betla sér ölmusu af vegfarendum. Æ! takid yckur vara fyrir, börn mín góð! ad þad ecki gángi eins til fyrir yckur!

Hugsid ecki ad erfidid sé þúngbært; því þegar menn fyrst hafa vanid sig á þad, þá finnst svo mikil gledi og ánægja í því, ad torveldt mundi ad lifa

án þeſs; ydjuleyſid þarámóti ſpillir veſſ-
um, líkama vors, og gjorir ſligſa þá
faſtari parta hans, eykur lángſemi og
gjorir manneſkjuna órólega og gedſtirda,
Þánkarnir hvarſla híngad og þángad, og
lyſtíngin heimtir hitt og þetta; vér bord-
um án þeſs ad vera ſvángir, og dreck-
um án þeſs oſs þyrſti, og gjorum oſs
med þeſſum hætti einúngis óluckulega,
ſjúka, veſæla og fátæka, og þá er líka
vorra medbrædra medlídan horfin; því
þeir mættu med réttu ſegja: letimaginn
gjæti verid allteins ríkur og eg, ef hann
hefdi nennt ad vinna; þeſs vegna er hann
óverdugur vorrar hjálpar. O! mín gódu
born! erfidid má vera ſvo þúngt, ſem
þad vera vill, þetta er þó miklu óþol-
anlegra.

Þar fyrir utan er þeſs ei heldur
krafiſt, ad vér ſkulum ſífellt erfida, því
líkamir vorir gætu ecki endſt til þeſs; nei,
bornin gód! vér megum líka þeſs á mill-
um gjora oſs nockud til gamans, þetta
þénar líka heilſu vorri til vidurhalds;
leikid yckur því og verid gladvær, þeg-
ar þid hafid aflokid yckar erfidi, en ford-
iſt aldúngis þá ſkémtun, er kann ad
ſkada

skadá yckar heilsu eda líf. Opt hefi eg um æfi mína sied, ad born, fyrir gá-lausa leiki, hafa mist lífid; þad var, t. d.: hann frændi ydar, nábúi! hann Frantz litli, snotur og frískur drengur; en hvornin fór fyrir honum? Þegar hann var einusinni í Kálgardinum med bródur sín-um, kom þeim þad saman ad reyna hvorjum betur gengi ad rída um kríng á tréverkinu er gj..rt var um brunn-inn; þá nú Frantz hafdi klifrad uppá tréverkid og vard litid ofan í brunninn, kom á hann hofudsundli, rauk ofan og pompadi í vatnid. Fólkid heyrdi hljód bródur hans, og kom med ondina í háls-inum ad vita hvad um væri, en þad var allt um seinna, því Frantz var þá sockinn til botns; ad sonnu vard hon-um nád upp med krókstjaka, en hann var þá skilinn vid.

Ecki var hann lengi ad farga líf-inu, mælti Gottvill; en engu minna hlaut hinn gjálífi Ferdinand, sonur Dieks Kaupmanns, ad bæta fyrir gapaskapinn. Kaupmadur nockurr kom reisandi til fod-ur hans, og batt hest sinn vid hringinn í portsá-hurdinni. Naumlega var Kaup-

madur genginn inn í stofuna, ádur Ferdinand kom, sem kólsi væri skotid, nidur í portid, til ad sæta tækifæri ad koma á bak hestinum; vegna þess, ad hesturinn stód vid háa stétt, er hladin var utanfyrir ports-dyrunum, komst hann audveldlega á bak. Hesturinn, sem ecki kunni vid taumhald þessa ókunnuga riddara, tók til ad reisa sig upp á apturfótunum og ausa; drengur vard nú laus í sødlinum og hrøck aptur af, en klárinn veitti honum í sama vetfángi voldugt høgg med aptur-fótar-hófnum fyrir brjóstid, svo drengur hraut hér um 2ja fadma lángt burtu frá hestinum, þar lá hann, sem daudur, en blódid streymdi af nøsum hans og munni, og meintu hann allir ordendann. Ad litlum tíma lidnum raknadi hann þó vid, en þá høsst líka qvøl sú og pína, er hann hlaut af fallinu, fyrir alvøru. Skadinn, sem hann fengid hafdi fyrir brjóstid, var ólæknandi; hann lifdi med megnum innvortis verkjum og sífeldri blóds-spýtíngu í 4 vikur, og deydi sídan. Þess vegna rís mér ávallt hugur vid, þá eg sje úng-línga sýsla med hesta,

Þér

Þér hafið rétt í því, svaraði Ærukjær, það plagar og sjaldan að gánga skadlaust af; hestar eru einúngis handa vaxnu fólki, sem kann að ríða og stýra þeim. Gèfið gjætur að þessu, börn mín góð! forðist eldúngis alla þá leiki, sem kunna að leiða eitthvað íllt af sèr; nógir meinlausir og leyfilegir leikir eru annars til, sem við Nábúi minn skulum smámsaman kénna yckur. Vegna hvers viljið þið hitta uppá leiki þá, er annaðhvert skaða yckur sjálf eða yckar leiksbræður?

Enn þá vil eg segja yckur ágætt meðal, sem ecki minnst styrkir til að halda við heilsu yckar; og það heitir: Þrifnaður eða Ræktusemi; ef þið forsómið að þvo yckur ydduglega, setjast óhreinindin í svita-holurnar og tilbyrgir þær, svo að svitinn náir ei að þreyngja sèr ígégnum, sem orsakar mörg hættuleg sóttar-ferli; laugið yckur því opt á sumrum, og þvoið yckur ydduglega á vetrum; hafið opt, helst á sumrum, skyrtuskipti, og látið daglega hreint lopt koma að utan í svefn- og setu-hús yckar, sem haldið sè hreinu frá öllum ílla luktandi

 óþverra,

öhverra, hvørr ætid er ólisjan í líkama yckar; etid heldur ecki né dreckid þad, sem yckur er sagt óheilnæmt.

Nú vitid þid, børn góð! nockurn-veginn, hvørnig þid skulud hegda yckur, svo þid gjørid-ei líkami yckar lakari enn þid hafid ødlast þá af náttúrunni; en þetta gétur þó ecki einúngis gjørt yckur farsæl; því opt ber þad vid, ad einn hefir yfrid góda heilsu, en lifir þó engu ad sídur í eymd og vesældóm. Athugid þess vegna, mínir elskuverdu únglingar! ad í þessum yckar sýnilegu líkømum býr ódaudleg og ósýnileg sála, sem eginlega er þad, er þeńkir og hefir tilfinningu, glédst edur hriggist, er farsæl edur ófar-sæl; jafnvel þó nú yckar líkami væri nógu hraustur og heilbrygdur, en sála yck-ar þaráńóti veik og óhraust, þá mund-ud þid þó, engu ad sídur, vera hinar ó-farsælustu manneskjur; eg hlýt því enn þá ad kénna yckur, hvørnig þid gétid vidhaldid sálum yckar hraustum og heil-brygdum; takid nú vel eptir, svo þid skiljid mig rétt!

Sálarinnar heilbrygdi er þarí fólg-in: ad hún hafi þeckingu á mørgum nyt-

nytsømum hlutum og sé hrein af øllum løstum. En þetta er enn þá allt ofhátt fyrir yckur, eg vil reyna til, hvort eg get ecki gjort yckur þad audskildara.

Eg segi: þegar sálunni á ad lída vel, svo hlýtur hún strax í fyrstu ad vera sér út um allskonar nytsamlega þeckíngu, þad er: hún hlýtur ad læra allt þad, sem í framtídinni gæti veitt henni ánægju; heimsk sála hefir sár-litla gledi í heiminum; vitra og vel uppfrædda sálu þarámóti, brestur aldrei gladværdarefni. Þetta gét eg sannad med meir enn einu eptirdæmi; þegar eg var í skóla, átti eg tvo lagsmenn, sem vóru skilgétnir brædur, en aldrei hefi eg þeckt nockra tvo brædur ólíkari; sá yngri hafdi sjaldséngna námfýsi, hlýddi med hinni mestu athygli Skólameistarans undirvísun, og vildi ávallt vita roksemd fyrir hverju því, er hann sá edur heyrdi, og morgumsinnum gleymdi hann ad eta og drecka, þegar hann fécf tækifæri ad tala vid skynsama menn, sem gátu frædt hann á einhverju nytsomu. Hinn eldri þarámóti var sífellt latur ad læra, sífellt fullur af leidindum. A medan Skólameistar-

ar-

arinn var ad undirvísa ockur, gapti hann og góndi innan um allann Skólann, eda lék sér undir bordinu, en tók ecki eptir einu einasta ordi, sem med var farid; þegar skóla-tímarnir vóru á enda, nennti hann engu ödru, enn eta, drecka og flat-skrocka í rúminu. Nú, hvad haldid þid ad hafi ordid úr bádum? Karl (svo hét sá yngri) vard dag frá degi skynsamari, meir elskadur og luckulegri; Jørgin bródir hans þarámót, vard sífellt heimskari, sífellt verr þockadur og sífellt ólánsamari. Þegar ockur var løfad ad gánga út til skémtunar, svo fann hinn námgjarni Karl allavega ótal hluti, sem hann skémti sér vid, því hann ransakadi allt hvad hann sá med skynsemdarfullri nákvæmni; nú virdti hann fyrir sér blómstrin, nú trén, og minntist um leid á þad, hvad Skólameistarinn hafdi sagt honum um trjánna og grasanna vöxt; nú yfirvegadi hann himininn, og gladdi sig vid ad vita hvad loptid og skýin væru, hvaraf dögg, regn og vindar hefdu sinn uppruna, og hvada nytsemi hvørt um sig gjørdi; nú setti hann sig í forsæluna undir eitthvørt tréd, og

las

las ockur skémtilegar frá ögur úr einhvorri bók, sem hann hafdi med sér tekid. Jørgin þarámóti géck ætíd út med noldri, suntaraskap og fylu, leit eptir engum hlut, sem var í kringum hann, edur nálægt honum, því hann hafdi ecki lært neitt um nockurn hlut; en þar hann gat þó ecki med ollu verid ydjulaus, svo hitti hann æsinlega uppá eitthvört þrætu-efni, uns vid ad lyktum, med leyfi ockar Skólameistara, rákum hann úr vorum Félagskap, og vildum ecki framar vita af honum ad segja, og þannig hefir æfi beggja þessara bræðra verid sídan. Jørgin vard aldrei hæfur til nockurs hlutar, er gagn var ad, hafdi heldur ecki vit á ad taka sér neitt gagnlegt fyrir hendur, var ollum óþeckur, sjálfur óánægdur og sér og ødrum til þyngsla. Karl þarámóti var ágætur og duglegur madur, sem kom sér vel vid alla, því hann var ætíd gladur og ánægdur og gat frædt og gladt adra. Jørgin dó í hugar-ýli fyrr enn hann nádi þrítugs aldri, en Karl lifir þann dag í dag er, og er fullkomlega svo hress, sem eg, enn þótt hann sé fullum tveimur árum eldri.

Ha!

Ha! ha! nú skil eg þad ad nockru leiti, Nábúi! mælti Gottvill, af hvorju þad kémur, ad eg sje ydur sífellt gladann og ánægdann, eg merki nú ad þér erud lærdur, og gétid því gladt og skémt ydur vid fleiri hluti enn vid bændurnir.

Fyrst þér haldid ad svo sé, svaradi Ærukjær, þá má eg med sanni segja, ad ecki mundi eg hafa haft helmíngs ánægju um daga mína, hefdi eg lært minna í úngdæminu; en þó er þad, sem madur lærir, ecki einhlýtt til þess. Egi sála vor ad vera heilbrygd og farsæl, þá verdum vid ad kappkosta ad vardveita hana óflækada frá öllum löstum.

Lesti, mín gódu börn! köllum vér allt þad, med hvörju vér gjörum sjálfum oss, edur ödrum skada, t. d.: óhlýdni er löstur, þar vér mest skodum sjálfa oss med henni, því þegar vér ecki erum hlýdnir vorum yfirbodurum, verdum vér ecki einúngis straffadir, heldur hætta menn einnig ad elska oss, og þegar barnid hefir misst ást og elsku sinna foreldra edur kénnenda, þá er fyrir því illa ástadt. Deilur, skammar-yrdi og áflog eru einnig lestir, þared vér med

þeim

Þeim orsøkum bædi siálfum oss og ødrum sánægju; ødrum, sokum þess, ad enginn girnist ad ega í deilum, skommum og áflogum; en siálfum oss, vegna þess, ad vér fyrir klæki þessa verdum straffadir, og ofan í kaupid bøkum oss þad, ad allir fordast ad hafa umgengni med oss. Skiljid þid nú, hvad lestir eru? „ójá! Fadir minn gódur! hrópudu „børnin! nú skiljum vid þad; lestir eru „þad, hvar med vér gjørum oss og ødrum „um mønnum skada."

Rétt, mín gódu børn! sagdi Aeru-Kjær, þid hafid tekid dável eptir; en vitid þid nú hvad þad kallast, sem løstunum er gagnstædt? eg meina þad framferdi, med hvørju vér gjørum oss og adra farsæla? þad kallast dygd.

Nú megid þid, børnin gód! trúa mér til þess, sem øldrudum manni, er margt hefir reynt, ad hvør ein lastafull athøfn, gjørir sálu vora siúka og vesæla, þarámóti gjørir sérhvør dygdug breytni hana heilbrygda, hrausta og gladværa. Ad nockru leiti gétid þid nú vitad þetta af egin reynslu; er þad ecki satt, ad þegar þid hafid adhafst nockud þad, sem

yckur var bannad, þá hafid þid ecki verid med svo glødu bragdi, eins og þegar þid hafid gjørt nockud gott? þetta er strax teikn til þess, ad yckar sála hafi þá ecki verid fullkomlega hraust; ef þid haldid nú áfram ad gjora þad illt er, svo verdur þessi sjúkdómur sálarinnar ætíd lakari, þid verdid dag frá degi óánægdari med yckur sjálf, og óteljandi hlutir, sem á nálægum tíma abla yckur ánægju og unadsemdar, mundu hætta ad vera yckur til gedþecknis.

Þessum sálarinnar sjúkdómi er allteins háttad og líkamlegum sjúkdómum; þeir koma hvorugir allt í einu, heldur vaxa þeir og formerkjast smámsaman. Þegar vid, t. d.: høfum bordad eitthvad óhollt, þá finnum vér ecki strax til sárinda þar af, en ad nockrum tíma lidnum, og máské fyrst daginn eptir, gjorir ydra-qveisa og høfud-verkur vart vid sig; ef vid þá ecki strax leitum oss lækninga, edur neytum aptur á ný þessarar óhollu fædu, svo verdum vér ætíd lakarí, uns sjúkdómurinn verdur ad sídustu ólæknandi; allt eins gengur þad til fyrir þeim manni, sem adhesst eitthvad illt: í fyrst-

í fyrstunni finnur hann máské til lítillar eður engrar óánægju yfir því í sálunni; en ydrist hann ecki strax sinna illu at-hafna, og það af öllu hjarta, ellegar sé hann svo óskynsamur að fremja þær að nýju, svo verður honum það þó ein-hverntíma, til mikillar innvortis óróseml.

Ef, t. d.: eitthvört yckar, börn! fengi ösund eða hatur til annars, (sem Guð virdist náðarsamlega að afstýra) fyrir þá skuld að einhvörju yckar vildi til happ nockurt, sem hin hefðu ei hlut-deild í, svo gæti það af yckur, á því augna-bliki, sem það væri reidt eða of-unnsjúkt, ecki sundið til nockurrar inn-vortis ánægju eða rósemi; en ef það kann-aðist þá jafnsnart við, hvörsu stórann órétt það gjört hefði, beiddi fyrirgéfn-ingar og ástundaði að vakta sig fyrir slíkri géðs-hræringu framvegis, þá væri lækníng sálarinnar á góðum vegi; en héldi það þaráméti áfram í þessum skap-lest við hvört eitt géfið tækifæri, þá segi eg yckur það satt og víst, að það yrði hin ófarsælasta manneskja alla æfi.

Nýlega hefi eg sagt yckur, börnin góð! söguna af Kain og hvörnig hon-

um reiddi af: nockrumsinnum hafdi hann reidst sinum góda og meinlausa brédur Abel, fyrir þá skuld, ad vor algódi Gud og Abels foreldrar elskudu hann serdeilislega mikid fyrir hans dygda skuld. Uppfrá þeim tíma sá Kain varla nockurn gladann dag. Ætid stód hans brédurs lucka honum fyrir sjónum, ætid gramdist hann yfir henni, og ætid leitadi hann ad deilu-efni, jafnvel þó Abel gjordi honum aldrei neitt á móti; þid vitid born! hvorsu hátt hans vondska sté ad lyktum; þá gremjan og ofundin hafdi løkfins gjort hann afsinna, sló hann þenna sinn saklausa brédir í hel, og hlaut sidan, sem vidbjódslegt afhrak ad flacka um verøldina. Hefdi einhvorr sagt honum fyrirfram, þá hann ofundadi brédur sinn í fyrsta sinni, ad svona mundi fara fyrir honum, þá hefdi hann víst ecki trúad því, En svo gengur þad æ-tíd, min gódu born! þegar madur ecki strax í byrjuninni mótstendur, løstunum. Vei oss! þegar þeir einusinni hafa fest rætur í vorum hjortum, þá er á enda øll lagfæring, øll farsæld. Allteins og snjóhnottur sá, er veltur ofan eptir brottu fjalli,

fialli, verdur ætíd stærri og stærri, og veltur því hradara, sem hann kémur lengra nidur eptir, svo verda og vorar lastafullu girndir, því optar, sem vér fullnægjum þeim, og því eldri vér gjörumst, verda þær æ sterkari, og ördugra ad veita þeim mótstödu. Eg segi yckur þar fyrir enn á ný, mín gódu börn! vaktid yckur fyrir sérhvörri byrjun til hins vonda, edur hafi yckur eitthvört sinn hendt nockur yfirsjón, þá vaktid yckur fyrir ad gjöra hana optar, annars er útgjört med yckar dygd, med yckar farsæld, o! ad eg gæti skrifad þetta med gylltum bókstöfum á yckar hjörtu.

Þegar þid nú erud ástundunarsöm ad læra allt þad, sem yckur er kennt, og takid yckur vara fyrir öllum löstum og ódygdum, þá eblid þid yckar sálna heill og heilbrygdi. En — börn! þid hafid einnig líkama, sem þarf vid uppheldis og umsorgunar; eg þarf varla ad segja yckur: ad þad sé óhamingja ad vera þyrstur, svángur, nakinn, húsis- og heimilis-laus; eg veit þid vitid þetta fyrir laungu. Hvar ætlid þid ad fá allt þetta? um þessar mundir, og á medan

Þid erud ómagar, sorga foreldrar yckar þar fyrir; en þá þau burtkallast og enginn hefir umsorgun fyrir yckur framar, hvar ætlid þid þá ad taka allt þad, sem þid þurfid til yckar uppheldis og ánægju? Þid hugsid máské: foreldrar ockar kunna ad eptirláta ockur svo mikid, ad vid ætld gétum haft nóg; en, born! þad er mikid óvíss von, því jafnvel þó yckar foreldrar væru aldrei svo rikir, þá hafid þid svo mikid vit, ad þid sjáid hvørsu audveldlega þad gétur skéd, ad þau missi øll sin audæfi; og látum vera, ad yckur tæmdist aldrei svo mikill arfur eptir þau, hvørsu lengi mundi hann standa vid, ef þid ecki hefdud lært vel med ad fara? Þad einasta og vissasta medal, born mín gód! til ad vakta sig fyrir ad komast í armód, er þad: ad madur læri ad útvega sjálfur sitt uppheldi, og ad brúka þad sparsamlega, sem hann ablar. Sparsemin, elskuverdu born! er einka naudsynleg dygd; þeim, sem ecki verdur neitt úr sínum egin efnum, hann mundi, hvørsu rikur, sem hann væri, verda fátækur ad sídurstu, og ad verda fátækur af sjálfskapar vítum, er stórt ólán.

Sá,

Sá, sem án sinnar egin óspilunar er kominn í bágindi, finnur þó optast einhvorn mann-vin, sem verdur til ad aumka hann og hjálpa honum. Sá, sem fæddur er af fátækum foreldrum, veit ad haga sér eptir sinn ástandi, af því hann er vanur vid þad frá barndómi, hefir líka lært ad erfida fyrir adra; en sá, sem hefir átt, edur gétad átt nockud, og vegna eydslusemis eda forsómunar verdur fátækur, hann er sannarlega illa staddur. Enginn er fús til ad géfa þeim, sem ecki þyrfti ad sníkja, ef hann hefdi ödruvísi viljad haga sínu, ecki heldur vill nockurr madur taka slík óráds-dýr til vistar, þó annad sé í gódu lagi; því líklegast er: ad sá, sem hefir verid bædi hyrdulaus og eydslusamur, medan hann átti sjálfur med sig; þá muni hann ecki verda þad sídur, þegar hann kémur í annara þjónustu.

Þótt einn sé alin í fátækt, edur vegna óláns tilfella sé kominn í armód, ef hann annars er skynsamur og gódur madur, verdur hann þó af öllum velþenkjandi meira metinn heldur enn ríka aula-mennid. Menn setja trú til hans,

spyrja hann til ráds, og leita hans vits-
fengis; hvørsu fátækur, sem hann er,
má þó hafa nytsemi af honum, sökum
hans skynsemdar og rádvendni; hinn
þarámóti, sem sjálfann sig hefir fátæk-
an giört, med eydslusemi og ófyramsýni,
er hvørvetna hatadur og forsmádur, vegna
þess hann sjálfur er skuld í því, ad hann
ecki gétur verid ödrum til gagns og
nota med sínum efnum: menn trúa hon-
um til einkis, þar auglióst er af reynsl-
unni, hvørsu illa hann hefir höndlad
med egin fémuni sína; hjá honum er
ecki ad vænta neinnra gódra ráda, þar
hann hefir rádid sjálfum sér svo illa;
og þared hann er ecki hæfur til ann-
ars enn þess, sem sterkir uxar og asnar
eru brúkadir til, svo er hann ecki held-
ur öllu meira metinn. Sjáid nú börn!
svo mikid rídur á því, ad þid kunnid
vel ad fara med það, sem þid egid.

Vid þetta tækifæri vil eg segja
yckur snotra sögu af sérlega sparsömu
barni, sem án þess ad færa med sér
einn skilding úr födur-gardi, vard ad
sídustu mesti ríkismadur; hlustid nú til!
Í Lundúna-borg (það er höfudstadur
Eng-

Englands), hafdi Kaupmadur nockurr stór-rikur tekid forstodu-laust fátækis-barn í hús sitt, sem hét Richard Whittington. A medan barnid ecki var hæst til neins, var þad látid hlaupa um kring í húsinu. Richard gjordi sér þad til skémtunar ad týna upp alla þá títu-prjóna og nidurfallna seglgarns-spotta, sem hann fann á gólfinu, geymdi hvort-tveggja vandlega, uns hann hafdi safnad einni tylft prjóna og seglgarns-hnikli, er svaradi einni hefpu, fór svo med hvort-tveggja í skrifara-stofuna og færdi fóstra sinum; þetta líkadi Kaupmanni yfrid vel, því hann sann ad drengurinn var bædi trúr og samheldinn, og lagdi þess vegna á hann mikinn ástar-þocka. Einhvorn dag bar svo vid, ad einn af Kaupmans-drengjunum átti ad dreckja nockrum kettlingum. Richard bad fóstra sinn ad gésa sér einn þeirra, qvadst vilja ala hann upp og selja sidan. Kaupmadur leysdi þad, og Richard ól upp kettlinginn, uns hann hafdi nád vexti sinum. Svo bar til, ad Kaupmadur bjó út eitt af skipum sinum med hondlunar-vorur til framandi landa, og þá skipid

var' albúid til burtferdar, fór Kaupmadur um bord á þad, til ad sjá eptir hvort ollu væri á því reglulega nidurradad. Richard mætti honum í þessu, og bar kott sinn á handleggnum. Richard! sagdi Kaupmadur, hefir þú eckért ad senda med til ad selja? æ! þér vitid, Herra gódur! svaradi drengurinn, ad eg er fátækur og á eckért annad enn kottinn minn. Nú, sendtú þá kottinn þinn med, sagdi Kaupmadur. Richard lét sér þad ad gódri kénníngu verda, og hljóp med kottinn útá skipid og setti hann nidur á þilfarid, en skipid létti akkérum og sigldi á burt. Eptir nockra mánudi hittu skipverjar fyrir land nockurt ókéndt, stigu á land og fréttu, ad þar rédi Kóngur fyrir. Þegar Kóngur heyrdi ad framandi skip væri komid vid land hans, lét hann bjóda nockrum af skipverjum til sín, ad þyggja veitslu. En þótt nægilegar vistir væru þar á bordum, var þó naumast kostur á ad ná einum munnbita; því svo var herbergid fullt af volsk[illegible] og músum, ad þær hlupu í hundrada tali um stóla, bord og becki, en svo grádugar, ad þær gleyptu í sig

í sig matinn á bordinu, og svifdust ecki ad hrissa bitana úr hondum gestanna. Oll uppþenkjanleg medol hofdu verid brúk- ud til ad farga ókindum þessum, og Kóngur hafdi þaradauki heitid nockrum tunnum gulls til verdlauna, hvorjum þeim, er stockt gæti þessum óaldar-flocki, en allt var sorgésins. Þá Adkomu-menn sáu þetta, sogdu þeir Kóngi, ad þeir hefdu dýr þad á skipi sinu, er eyda mundi qvikindum þessum; var nú sóktur kött- ur Richards. Þid skyldud, born! hafa einúngis sjed, hvílíkt ógurlegt blód-bad kisa gjordi, þegar hún kom í músa-hóp- inn; stutt ad segja: eptir hálfa klucku- stund var enga lifandi mús ad sjá edur heyra í herberginu; Kóngurinn vard glad- ari yfir þessu, heldur enn þótt einhvorr hefdi skeinkt honum heilt Kóngs-ríki; og med því hann hafdi ysirmáta mikinn ríkdóm, svo gaf hann fyrir köttinn nockr- ar tunnur gulls, og med þad sigldi Skip- id aptur heimleidis. Hefdi Kaupmad- urinn, sem skipid tilheyrdi, verid hreck- jóttur, þá mundi hann hafa haldid pen- íngunum fyrir sjálfann sig, en leynt hinn fátæka Richard heppni hans, en þad

var

var þvertámóti þenkíngar-hætti þessa ær-lega manns-vinar; varla hafdi hann heyrt hvad margir peníngar fyrir kottinn kom-id høfdu, fyrr enn hann lét Richard koma fyrir sig, kunngjordi honum lucku sína, og hét honum til vissu, ad þad allt skyldi honum tilheyra; hann lét sídan kénna Richard Kaupmanns-skap, og þared hann var bædi kostgjæfinn í verki sínu, trúr og sparsamur, svo gaf Kaup-madur honum' ad lyktum einka dóttur sína til konu, og arfleiddi hann til allra sinna eigna. Sjáid nú, born mín! svona vard Richard Whittington lán-géfinn og farsæll, vegna þess hann á sín-um úngu árum, var svo hyrdtinn og samheldinn; því jafnvel þó eitt sérdei-lis tilfelli gjordi hid mesta hér til, svo var þó sparsemi þessa úngmennis hof-ud orsøkin til hans eptirfylgjandi gjæfu, því hefdi hann ecki sparsamur verid, svo mundi hann ecki hafa uppalid kottinn til ad selja hann, ecki áunnid sér elsku fóstra síns, sem þá hefdi máské ecki leyft honum ad ala upp kétlínginn, og þá mundi líka þetta happa tilfelli hafa sneidt hjá honum.

En

En hvornig á madur ad haga sér, spurdi Hansmann, yngsti sonur Kru-kiærs, þegar hann vill vera sparsamur?

Þad skal eg segja þér, barnid mitt! svaradi fadir hans, gádu nú ad, Hans-mann! sparsemin er í því innifalin, ad menn hafi tilbærilega gát á öllum sín-um eigum; ad madur brúki þær ein-úngis til þess, þær eru tilætladar, en vakti sig fyrir ad fordjarfa þær, tapa þeim, edur útausa fyrir óþarfa og kræs-íngar handa líkamanum; þid megid, t. d.: klæda yckur í sparifötin yckar, en leggja alla stund á, ad þau hvorki rífni né skémmist af ödru, ad þarflausu; lesa kostgjæfilega í bókum yckar, en ecki velk-ja þær né sundur-rífa; þegar þid legg-id eitthvad, sem þid hafid brúkad, apt-ur á réttann stad, svo þad ecki fargist edur flækist híngad og þángad, þá erud þid sparsöm börn, eg segi: þid megid brúka allt hvad yckur er géfid, þegar þid ad eins brúkid þad til þess, sem ætlad var; því hugsid ecki, ad sparsem-in sé þarf sólgin, ad geyma og læsa nid-ur allt hvad madur á, án þess ad brúka þad sjálfum sér og ödrum til nota; nei,

bestu børn! ágirnd heitir það; og hún giörir yckur ecki einúngis skelle ófarsæl, heldur gêtur hún líka audveldlega sett yckur í þá hættu, ad þid verdid fátæk.

„Ecki kêmst eg vel í skilníng um „það, nágranni! sagdi Gottvill; hvörn„ig gêtur ágirndin sett einn í þá hættu „ad hann verdi sátækur?"

Hvörninn hún gêti það? eg skal þá útleggja ord mín betur: munid þér ecki til fyrrum Peninga-víxlara Veits, sem bjó nedst í Breidu-gøtunni? og því skyldud þér ecki muna til hans? það eru ecki meir enn 5 ár sidan hann deydi; var hann ecki í sinni tíd, svo ágjarn, sem nockurr madur kunni ad vera? var hann ecki, ádur enn ágirndin greip hann, vegna arfsins, sem hann féck eptir hana ømmu sína, einn med þeim ríkustu mønnum í stadnum? og var hann ecki engu ad sídur lokfins grafinn, sem húsgángur? hvar af kom þetta?

„Ecki veit eg til, ad nockur sérleg „óhappa tilfelli væru skuld í því."

Eg ecki heldur, en hitt veit eg, ad ágirnd hans gjordi hann fátækann. Hann vildi allt í einu raka samann miklum pen-

peníngum med sínum erfda-hluta, flækti sig því í margskonar kaupverslun. Til ad komast vel af med hana, hefdi hann þurft ad halda 3 edur 4 hondlunar-þénara, en ágirnd hans rak hann til, ad vilja gjora allt einsamall; en þar hann gat þó ei meiru afkastad enn einn madur, svo kunni þad ei annars ad vera, enn ad margir hlutir færu í ólestri fyrir honum, og væru midur vandadir enn bar, hvar af hann beid mikinn skada. Vinnu-fólki sínu galdt hann svo lítid kaup og héldt þad svo illa, ad þad, neydar vegna, hlaut ad stela frá honum. Þessi hans nirfils-háttur keyrdi svo fram úr, ad hann ecki tímdi ad láta sinn eginn fénad hafa naudsynlegt fódur; hvor kyrin drapst á fætur annari, og hverr hesturinn eptir annann. Þegar hann vard þessa vís, ætladi hann ad gánga frá vitinu, kénndi vinnu-fólkinu um alltsaman, og bardi þad blátt og blódugt, hvarfyrir honum var uppálagt peninga-straff af Yfirvaldinu. Fyrníng féll á hús hans, og med litlum kostnadi hefdi hann getad endurbætt þad; en þad gèdjadist honum ecki, og loksins féll þad í grunn.

 Kæmu

Kœmu fátækir til hans og beiddu ölmusu, lét hann þá sífellt fara synjandi. Beiddu nágrannar hans að ljá sér eitthvort ambod eda búsgagn, þá héldt hann æfíð þeir mundu skémma eda molva það, og neitaði þeim um það; þess vegna átti hann ecki einn einasta vin; enginn maður vildi þéna honum, og þegar hann þurfti nockud til annara að sækja, svo mátti hann ætíð borga það tvennum eður þrennum verdum. Að sidustu vildi hann gjöra allt sjálfur, og eins að sauma uppá sig, svo hann þirfti ecki að borga sauma-kaupið. Við þetta forsómaði hann enn þá meira sínar vigtugri sysslanir, og leið sífellt stærri skaða. Aldrei hafdi hann tímt að borda sig mettann, og drógst því smámsaman upp í hor og vesöld. Hann hefdi máské kunnað að komast aptur til heilsu sinnar, en bædi læknir og læknis-medöl kostudu ofmikið. Þegar hann hafdi legið í lángvarandi sjúkdómi, í hvorjum allt hans-ástand hafdi farið stórum vestnandi, dó hann loksins, og lét eckért annað eptir sig enn heilsu-veikann son, niðurfallið hús, nockra bætta fata-garma og Svídings-nafnið.

nafnid. Ná, hafdi eg ecki orsök til ad segja: ad ágirndin hefdi gjort hann fátækann?

Born mín! vaktid yckur því fyrir þessum lesti, gefid ecki meira út enn þorf krefur, en vissulega ecki heldur minna; þegar ad því kemur, ad þid setjid fætur undir yckar egid bord, þá dragid aldrei af verkafólkinu þess velforþéntu laun, heldur gefid því svo mikid, sem þad þarf til ad halda vid heilsu sinni, og lifa farsællega eptir sínu standi, til þess þad þurfi ecki ad neydast til ad stela frá yckur; kostid svo miklu, sem med þarf uppá líkami yckar, til ad viðhalda þeim hraustum og heilbrygdum; sjáid ei heldur eptir, þó þid og fólk yckar gjori sér skickanlega til gamans; gleymid og ecki ad gledja hina fátæku, ef þid erud megnug um ad gjora þeim gott; en allt þad, sem gengur fram yfir hóf, er yckur skadlegt. Meiri klædnadur og búsgagn, heldur enn þid naudsynlega þurfid á ad halda til ad lifa sómasamlega; fleira vinnu-fólk enn þid medþurfid; meiri fæda enn manneskjan hefir not af, til ad vera mett og ánægd; fleiri skémt-

anir, enn Þorf krefur, til ad gjora sig aptur á ný hæfann og lystugann til sinna athafna; allt Þetta eydir, Þá stundir lída fram, yckar formegun, og hlýtur, hvert Þad varir lánga stund edur skamma, ad gjora yckur ógjæfusamleg.

Nú, mín gódu born! Þar allt í kríngum oss er í kyrrdum, svo megum vid líka endurnæra vora líkami med sætum svefni, til ad safna nýjum kroptum til athafna vorra, ad morgni komanda. Annad-qvøld, Þegar Þessi fagra stjarna, sem Þid sjáid Þarna í austrinu er komin upp, vil eg halda áfram med ad kénna yckur, hvad Þid Þurfid meira ad gjora, til ad verda dygdugar og farsælar manneskjur í heiminum.

Nágrannarnir budu hvorr ødrum gódar-nætur, beggja born gjordu slíkt hid sama, og gengu sídan til hvílu.

---

## Onnur Qvøldræda.

### Um Skyldurnar vid adra.

Fyrir sólarlag qvøldid eptir, var Gottvill og born hans komin aptur undir

Lindi-tréd. Skömmu sídar kom líka sóma-madurinn Vrukjær, leiddur af bornum sínum, med því gladværdar-fulla yfirbragdi, sem honum var ætíd svo eginlegt, ad enginn gat litid hann, án þess ad finna nockurskonar innvortis gledi med sjálfum sér.

Elsku-bornin mín! sagdi hann, í því hann setti sig nidur, og umfadm-adi eitt eptir annad; þad, sem eg í gjær sagdi yckur, mundi hardtnær duga til ad gjöra yckur farsæl, ef þid gætud lif-ad ein út af fyrir yckur; en, allteins og þid viljid lifa og verda farsæl, eins vel vilja þad og adrir, og þessir, í hvorra samfélagi þid hljótid ad lifa, eru ecki allir gódir og skynsamir menn, og hvorsu gódir og skynsamir, sem þeir væru, þá eru þeir þó ætíd menn; þid hljótid því ad læra, hvad þid egid ad gjöra, svo þid fáid lifad óhult og luckusæl á medal þeirra, og ad þeir sjálfir stydji ad far-sæld yckar.

Nú sem stendur, eru ad vísu ríkar skordur reistar vid því, ad menn géti ó-hultir lifad fyrir annara yfirgángi; en sú hefir tídin verid, bornin gód! ad menn

 hofdu

höfdu engann Kóng, og eckert Yfirvald, og hvörr einn lifdi, sem hann vildi, og hvörr einn leitadist vid ad gjöra sjálfann sig svo farsælann, sem hann gat; enginn kjærdi sig um annars velferd, enginn hafdi neitt yfir ødrum ad segja, og hvörr einn gjørdi hvad hann lysti, og þurfti ecki ad óttast fyrir nockru straffi; þetta má hafa verid farsældarfullt ástand; eda haldid þid ecki það? nú, vid skulum þá heyra hvörnig því reiddi af: hvörr einn hugsadi þá, eins og eg sagdi, einúngis ad koma ár sinni vel fyrir bord, og enginn vildi ødrum hjálpa. Ef einhvörs hestur féll í pytt, edur eins vagn vard fastur í bleytu, edur einn lagdist veikur á förnum vegi, svo gengu allir framhjá, og létu eins og sér kæmi það eckert vid. Þegar nú sá, sem hafdi ordid fyrir þessu, leit einhvörn þeirra naudstaddann, sem ecki hafdi lidsinnt honum, svo vildi hann heldur ecki koma honum til hjálpar, og þannig lét sá eini hinn annann ætíd vera hjálpar-lausann; en nú er svo ótölulega margt í veröldinni, sem madur er ecki einfær um. Þid getid ecki einsömul byggt hús handa yckur, saumad

sammad uppá yckur, mat-reidt handa yckur, forsvarad yckur þegar einhvørr yfirsterkari vill gjøra á yckar hluta. Þared nú hvørt og einn sorgadi einúngis fyrir sjálfum sér, svo var allstadar mikil neyd; á þeim tídum gásust og vondar manneskjur, sem tóku frá ødrum eignir þeirra, þegar þessir voru hinum máttkari; þrír edur fjórir yfirsêllu einn, ráku hann af eignum sínum, og lifdu af því, er hann med sínum sveita ablad hafdi; á medan vard hann sjálfur ad snikja, þar hann einsamall gat ei varist svo mørgum; þannig lifdu þessar aumu manneskjur á hinum fyrstu tídum, sífellt í ótta og aldrei óhultir fyrir því, ad einhvørr mundi þá og þá reka þá frá eignum sínum; loksins tóku nockrir skynsamir og gódir menn sig saman, og inngengu sín á milli, ad þeir vildu veita hvørr ødrum hjástød; en þar þánka-kraptur þeirra var mjøg svo óstødugur, svo gátu þeir ecki miklu til vegar komid; þeir hjálpudu ad sonnu hvørjir ødrum, en þó án reglu og skynsemdar; þessi kom strax, hinn offseint; þessi tók til varnar, hinn ecki; þeir vondu menn høfdu optast yfir-

yfirhondina, og vóru ad mestu búnir ad ná undir sig herfánginu, ádur hinir komu til, sem áttu ad hindra þá.

Þeir gódu menn, sem hofdu skuldbundid sig til ad veita hvorr odrum lid, féllu loksins uppá þann þánka, ad útvelja einn af félogum sínum, hvorjum veita skyldi vidstodulausa hlýdni, þegar hann vildi eitthvad bjóda, sem horfdi til félagsins besta; þeir skipudu einnig til, ad hvorr og einn skyldi leggja þessum eina manni nockud til uppheldis, svo hann gæti borid umsorgun fyrir allra hinna rósemd og lucku. Hér af hafa Konúngar sinn uppruna.

Kóngurinn lét sér nú vera annt um, ad hafa vakandi auga á því, hvort nockurr óhlutvandur ásældist þann góda og skickanléga, edur gjørdi honum skada. Undireins og hann vard þess var, gaf hann félaginu teikn, sem, þá, án tafar, kom saman, til ad reka óvininn af hondum sér. Forsómadi nockurr af ásetningi ad koma, var hann vægdarlaust útrekinn frá félaginu; því þeir sogdu: hefdi fjandmadurinn yfirfallid þig, þá hefdum vér allir mátt koma þér til hjálpar, fyrst

vér

vèr hefdum lofad því, og sama vonudum vèr ad þú mundir gjøra; en fyrst þú vildir nú ecki koma, oss til styrktar, svo viljum vèr og ecki heldur veita þèr framar fulltingi.

Svona stód nú um stund; en nockrir af þessum gódum mønnum, sem þannig hefdu skuldbundid sig til, ad lifa undir kónglegri stjórnun, urdu sjálfir ecki gódir til lengdar, vildu miklu heldur lifa af ráni og gripdeildum, enn sinu egin erfidi. Ef einn sókti eptir ad svæla undir sig eignir nágranna sins, svo risu allir upp og leitudust vid ad forsvara þann, er órèttinn leid; hinn annar átti sèr og tídum vini, og þá komst allt aptur í sama horf, sem fyrr, svo eckért var annad í félaginu, enn órói, prèttir og undirferli. Þad bar og opt vid, ad menn komu í hár saman útaf eintómri grunsemi. Þeir gódu menn hugleiddu þetta, og nú kom þeim ásamt, ad enginn utan Kóngurinn skyldi meta þad, hvort sá eini í raun og veru gjørdi hinum ødrum órètt, og sækti eptir því, sem var hans, edur ecki, og þegar Kóngurinn segdi: hann hefdi órètt, svo skyldi ecki

ecki einúngis enginn hjálpa þeim, sem Kóngurinn þannig dæmdi, heldur skyldi allt félagid veita honum mótstödu, og hjálpa þeim til réttar, sem áhalladist.

Þid getid léttilega ímindad yckur, ad Kóngunum einsömlum var þad um megn, ad bera umsorgun fyrir öllu þessu til lengdar. Ad skéra úr svo morgum Þrætum, sem hvad eptir annad uppkomu, hefdi verid ofætlan ad leggja honum einum uppá; hann valdi því nockra af þeim skynsömustu í félaginu, sem í hans nafni skyldu prófa og dæma þessar misklídir. Sjáid, börn! svona eru Yfirvöld og Réttargángur undirkomin.

En á medal þessara vóru optlega heimskir og illgjarnir menn, sem fyrir velvildar-sakir héldu meira med einum enn ödrum, og dæmdu því ýmislega. Í dag hafdi þessi rétt, enn á morgun hinn annar órétt, enn þótt bádir hefdu vidlíka sök. Þá Kóngurinn vard þessa vís, svo fyrirskrifadi hann hvorjum einum, hvörninn hann í öllum tilfellum dæma skyldi; og þar af hafa Lögin sinn uppruna.

Með þessum lögum var það nú og ágvarðað, hvað hvörr skyldi gjöra og láta ógjört; ein harla nytsamleg innrétting! því einnig þeir bestu menn, gátu þó ecki ætíð sjeð hvað þeim og gjörvöllu félaginu var gott og nytsamlegt; hefði nú hvörr einn haft rétt til að dæma þar um, hvörninn haldið þið þá hefði farið? þessi vildi segja: já, það er gott! hinn: nei, það er ecki gott! þessi: það má svo vera! hinn: nei, svona skal það vera! og að síðustu mundi eckért verða endilegt, því svo er margt sinnið, sem madurinn er. Gengur það ecki opt þannig til þegar þið erud að leika yckur, börn! að eitt yckar vill skémta sér að þessu, hitt að hinu, og þegar yckur hefir lengi ágreint um þetta, ellegar þið erud komin sitt í hvörja sundrúngina, svo er leiktíminn á enda, eda hvört eitt leikur sér útaf fyrir sig, sem hvörgi nærri er svo ánægjufullt, sem þegar þið skémtið yckur öll sameginlega; allteins mundi það og til gánga í mannanna sam-félagi, ef hvörr einn mætti einúngis gjöra hvað honum gott þækti; þar fyrir er það bædi gott og skynsamlegt, þegar einúngis einn eda

 fáir

fáir segja: þad er gott! og hinir adrir samsinna því.

Þetta félag vidhéldst nú aptur nockra stund, en smámsaman uppkomu í ødrum stødum enn þá fleiri féløg, sem optlega vóru vond og heimskufull; þessi fávísu féløg hugsudu optlega, ad þeirra farsæld byggi í því, ad yfirfalla ønnur og burttaka þad, sem þau áttu; þar af mættu hin gódu féløg margføldum árásum; þau hlutu ad leggja nidur sýslanir sínar og grípa til varnar. Opt vóru þau yfirfallin midt í þeirra nærlugar útveg, og gátu því ecki varid sig, og opt bar þad vid, ad þótt þau gætu varist, þá vissu þau ecki hvornig þau, í hvørt sinn skyldu haga sér, því í háreysinu heyrdu þau ecki ætíd edur skildu hvad høfdíngi þeirra baud. Þau féllu þess vegna uppá, ad nockurr hluti þeirra skyldi einúngis hafa sitt uppheldi af því, ad vera þeim til varnar; vaka, þegar adrir érfidudu og hvíldust, og þegar enginn óvinur væri fyrir hendi, þá skyldu þeir þess á millum læra, hvornig þeir skyldu haga sér mót fjandmønnum sínum, vid sérhvørt þeirra áhlaup, og í sérhvørju tilfelli; þar af hefir Stridsfólk sinn uppruna. Þar

Þar þetta fólk hafdi nú lítinn eda engann tíma til jardyrkju, edur annars verklags, en var þó félaginu nytsamlegt, svo var þad ályktad, ad sérhvorr hinna annara skyldi, af efnum sínum og ágóda, leggja þeim nockud til uppheldis; þar vid tapadi hvorr einn ad vísu nockru, en þeim borgadist þad aptur med því, ad þeir máttu lifa í rósemi og óhultir um sig, og þurftu ecki á hvorju augnabliki ad óttast áhlaup óvinanna, eda hindranir í erfidi þeirra. Nú, gódu börn! fyrst þid hafid nú heyrt vid hvada tækifæri Kóngar eda Furstar, Réttargángur, Lög, Stridsmenn og þeirra Laun, Skyldur og Skattar eru uppkomin; svo lærid nú, hvad þid egid ad giöra, svo allt þetta verdi yckur til nytsemdar.

Þegar Kóngur vor eda Yfirvöld skipa oss nockud, þá horfir þad optast nær til gagns og góda öllum hans þegnum. Þegar hann heimtir skatta af oss, svo verdur þeim varid til vors besta. Hann hlýtur ad halda Stridsfólk, til ad verja oss; ad skipa Réttargáng, sem verndi oss mót órétti vondra manna.

 Hann

Hann hlýtur ad launa skynsømum mønn-um, sem finna uppá allskonar medøl, er ebla undirsátanna farsæld og heillir. Hann hlýtur ad undirhalda lærda Kénn-endur, sem segja oss, hvad vér egum ad gjora, og láta ødjort, svo oss vegni vel; til alls þessa brúkar hann penínga, og af því þeim verdur varid oss til bestu, þá er þad saungjarnlegt ad vér leggjum þá til. Vér egum því tregdulaust ad gjalda þad, sem Kóngur vor lætur af oss kresja.

Kónginum eigum vér fúsa Hlýdni ad sýna, og øllum þeim er bjóda nock-ud í hans nafni. Því þar hann ein-samall ber umhyggju fyrir, ad allir megi lifa óhultir og ánægdir, svo hefir hann og rétt til ad heimta, ad hvørr einn skuli gjora þad, sem hann lætur bjóda honum, hvar um vér, hans undir-sátar, ecki kunnum ad dæma svo vel, sem hann, hvørt þad sé naudsynlegt, eda ecki. Þar fyrir kémur þad oss ecki vid ad spyrja: hvar fyrir vort Yfirvald láti bjóda oss þetta edur annad, því vér høfum ecki ætlad vit á því; vor skylda er ad hlýda. Látid þess vegna, þegar þid erud ordin fullordin, ecki tæla yckur

af

af þeim, sem aldrei eru ánægdir med Kónúnginn og Løgin; þid vitid nú svo mikid, ad þad, sem gjørir félagid, sem þid lifid í, farsælt, þad sama gjørir yckur einnig farsæl, en hvad þéni til félagsins besta berid þid ecki skyn á; þar fyrir skulud þid láta þeim þad eptir, sem vita þad, og sem eru til þess settir, ad auglýsa yckur þad.

Yfir høfud, kjæru børn! er Hlýdnin vid þá, sem yfir oss eru bodnir, hvort heldur þad er vor Kóngur, vor Yfirvøld, vor húsbóndi, vor fadir edur vorir Kénnendur, ein af þeim mikilvægustu skyldum, þvi óhlýdni gjørir oss vissulega ófarsæla. Eg hefi t. d.: leyft yckur, børnin góð! ad leika yckur svo sem þid viljid á hladinu, í kálgardinum og undir Lindi-trjánum, en eg hefi þará móti bannad yckur ad koma nærri brunninum, sem er í gardinum; ef þid nú yfirtrodid þessa mína skipun, þá mundud þid stofna yckur í lífs-hættu, edur þó þid kynnud ad komast af í eitt skipti, svo væri samt útgjørt um alla yckar skémtun framvegis; þvi þar eg elska yckur, og vil gjarnan hindra ad þid skadid eda

meidid yckur, svo þyrdi eg, frá því augna-bliki, sem þid hefdud sýnt mér óhlýdni, aldrei meir ad leyfa yckur ad hlaupa um hladid, kálgardinn edur undir Lindi-trén, þar eg ecki framar vogadi ad reida mig uppá yckar hlýdni, og mætti óttast fyrir, ad þid á ný mundud koma nærri brunninum. Í stadinn fyrir ad þid nú, þegar þid erud báin ad læra lectsíu yck-ar, megid skémta yckur úti, svo yrdud þid þá ad láta yckur lynda, ad kreppa yckur saman inná badstofu-lopti, og sit-ja þar med leidindum, þegar eg ecki kjæmist til ad vera úti ad hafa gát á yckur; mundud þid verda ánægd med þad?

Vaktid yckur þess vegna fyrir óhlýdni, í hvorju hellst, sem vera kann, hvort heldur þad er vid mig edur vid þá, sem kénna yckur; vid yckar tilvonandi húsbændur eda yckar Yfirvöld; allt hvad yckur verdur af þessum bodid eda bannad, er gjört í því skyni, ad hvorki þid né adrir gjætu annars ordid farsælir.

Þannig er ockur, t. d., bannad: ad gjöra nockrum mein, med hvorjum hætti, sem vera kynni, og þad lögmál géfid: ad hvörr, sem af heimskufullu

glensi

glensi edur af straffsverdri óadgætni, edur og af reidi og vondsku meidir annann, hinn sami skuli med meidslum straffast. Eptir þessu lögmáli verdur sá, sem slær annann, sleginn aptur, og sá, er sviptir einn lífinu, tapar sínu egin lífi; eda meinid þid, börn! ad vel mundi hafa farid, ef ockur hefdi ei verid géfin þessi lög; vid skulum gæta vel ad því.

Manstú ecki, Vilhjálmur litli! (svo hét þess gamla Ærukjærs, sjö vetra gamli sonur) hvornig strákurinn vildi fara med þig á dögunum, þegar þú gèckst einsamall í skólann? seigdu ockur hvorninn þad fór á milli yckar.

„Eg hafdi, Fadir minn gódur! eckért gjört honum á móti, þegar hann „allt í einu kom hlaupandi til mín, og „ætladi ad hrissa af mér braud-kökuna, „sem hún módir mín hafdi géfid mér; „þegar eg bad hann ad láta hana vera, „því þad væri kakan mín, hótadi hann „ad berja mig ef eg léti hana ecki strax „lausa!"

Gatstú þá ecki varid þig, drengur minn?

 „Æ!

„Æ! nei! Fadir minn gódur! hann
„er svo stór slöttur ad honum var hægt
„ad ráda vid mig; Þegar hann var bú-
„inn ad reida til hoggs vid mig med
„prikinu sínu, sagdi eg hann skyldi slá
„mig ef hann vildi; en hann mætti vera
„viss um Þad, ad eg skyldi segja Ló-
„cátnum eptir honum, svo hann yrdi
„barinn aptur; Þá hikadi hann vid, og
„eg héllt koku minni."

Sjádu nú, sonur minn! svaradi Arukjær, hvorsu gott Þad lögmál er; ed sá, sem meidir annann, skuli med meidslum straffast. Ef Þessi lög hefdu ecki verid til, svo hefdi Þessi lángi drengur tekid af Þér kokuna Þína, og máské barid Þig ofan í kaupid; en Þar hann óttadist fyrir straffinu, svo lét hann Þig vera í fridi.

Sjáid, börn! svona er Þad allstadar í heiminum; vér eigum ad Þacka Þad Þessum logum, ad vér megum óhultir gánga út og inn, óhultir rækja vort erfidi og sofa rólega; hefdu Þau ecki gésin verid, Þá mundi engin manneskja mega vera óhrædd um sig eitt augnablik, sá sem hefdi yfirburdina mundi yfirfalla

yfirfalla Þann, sem væri minni máttar, hvar sem hann fittndi hann, ræna hann, leika hann illa út, og máské slá hann í hel. Sérílagi væri illa ástadt fyrir yckur, vesælíngs smælíngjunum! á medan Þid gétid engu af yckur hrundid; vondar manneskjur mundu taka frá yckur allt hvad Þid hefdud, sífellt erta yckur upp, narra og berja yckur, og slá yckur í hel, Þegar Þeim sýndist, án Þess ad hundur gélti ad Því. Þid sjáid Því berlega, hvorsu gott Þad er fyrir yckur, ad Þessi Tilskipan er gjörd, og hvorsu fegin Þid megid verda ad lifa eptir henni, ef Þid viljid ecki gjöra yckur sjálf ófarsæl; Þackid Þeim fyrir, sem hefir géfid Þessi vísu lög, og vaktid yckur fyrir ad yfirtroda Þau, jafnvel Þó Þad ecki væri nema í gamni, Því úr gamni gétur ordid alvara, og menn hafa tídum séd, ad Þeir, sem hafa byrjad ad tuskast í glensi, hafa ad sídurstu ordid mordíngar; Þannig géck Þad til fyrir Þeim únga manni, sem hér var fyrir 6 árum hálshöggvinn. Í húsinu, sem hann átti heima, var annar úngíngur; einhvorn dag, Þá hann hafdi eckért ad sýsla, fór hann, sér til dægra-

stytt-

ſtyttíngar, ad glíma vid lagsmann ſinn; út af glímunni hlutuſt ſmá-ſnoppúngar í gamni, og af þeim aptur áſlog í al-voru, og lokſins vildi ſvo ógæfuſamlega til, ad hann ſló til lagsmanns ſíns med qviſtóttu byrki-priki; høggid kom á gagn-augad, og pilturinn fell daudur til jard-ar. Vegandinn ætladi ad flýja, en réttarins þénarar gripu hann, og hann hlaut ad betala med lífinu; því Dóm-endurnir ſøgdu: hvørr, ſem úthellir mannſins blódi, hans blód ſkal aptur úthellaſt.

Allteins er því varid med Þjófn-ad; væri þjófnadur ecki fyrirbodinn, hvørſu hørmulega mundi þá ecki gánga til í heiminum! engin manneſkja gæti átt nock-urn hlut í fridi; enginn, ſem nockud ætti, mundi eitt augnablik vera óhultur um eigur ſínar; þad eru þeſs vegna vit-urleg løg, ſem bjóda: ad ſá, ſem gjør-ir ødrum ſkada, edur tekur nockud frá honum, ſkuli ecki einúngis bæta ſkad-ann edur þad burt-tekna aptur, held-ur og ſvo þaradauki lída ſinánarlegt eda qvala-fullt ſtraff, ødrum til vid-vorunar. Nú kunnum vér nockurnveg-

inn ad vera óttalausir, þar þessi lög vardveita eigur vorar, þvi þad straff, sem lagt er vid þjófnad, er svo stórt, ad enginn, sem ecki er þvi forherdtari fantur, gétur látid sig lysta til ad stela frá ødrum; þvi sá, sem er ordinn uppvis ad þjófnadi, er af Yfirvaldinu straffadur med fjøtrum og fángelsi, já, einnig á lífinu, og þó hann ecki verdi med ollu uppvis, heldur einúngis hafdur grunsamur um þjófnad, svo er hann þó hatadur og forsmádur af øllum; enginn vill láta hann koma inn í hús sitt, og verdi þvi ecki varid, þá læsa menn alla hluti nidur fyrir honum, og hafa vakandi auga á honum, senda fólk eptir honum til ad gá ad, hvort hann engu hnuplad hafi; vilji hann fá eitthvad til láns hjá ødrum, þorir enginn ad trúa honum fyrir þvi, þó hann aldrei sverji sig svo mikid og sværi uppá, ad skila þvi aptur; hendi hann eitthvort ólán, svo hefir enginn medaumkan med honum; rati hann í bágjindi, vill enginn hjálpa honum, og optastnær verdur þvílík manneskja sátæk og vesol.

Í tilliti til þessa løsts, megid þid einnig, børn mín gód! vakta yckur fyrir þeim fyrstu upptøkum til hans; enginn verdur stór-þjófur allt í einu, almennast byrjar hinn þjóf-gëfni á hnupli, sídan leysir hann sér allrahanda smá-þjófnad, og þegar hann er ordinn ad vana-verki, svo verdur dyrfskan æ meiri og meiri, uns hann verdur rummúngs-þjófur; hann ber fyrst nidur á smáu, og rædst sídan í hid stærra. Munid þid ecki søguna um þjófinn, sem rétt í því hann átti ad hengjast, beit í eyrad á henni módur sinni? eg hef nýlega sagt yckur hana, hvørt yckar man hana nú?

„Eg, eg," sagdi Vilhjálmur litli, og hóf eptirfylgjandi frásøgu:

Þar var einusinni þjófur, sem átti ad hengjast; þegar hann var kominn undir gálgann, vard honum litid til módur sinnar, sem grét og bar sig hørmulega. Hann beiddi bødulinn leyfis, ad mega tala nockur ord vid hana ádur enn hann dæi. Bødullinn leyfdi honum þad; þjófurinn gëck til módur sinnar, og lét, sem hann vildi hvísla einhvørju í eyra hennar, en beit hana med sama

svo fast, ad kérlíngin skrækti hástøfum. Fólkid, sem vidstadt var, féll í furdu og sagdi: vondur er skélmir þessi, ad hann, rétt í því hann á ad hengjast, getur bitid í eyrad á henni módur sinni; en þjófurinn svaradi: kjæru vinir! undrid ydur ecki svo mikid yfir þessu; kunnugt veri þad ydur: ad þessi mín módir er orsøk til minnar smánar og míns dauda; þegar eg var barn, vandi eg mig til smá-þjófnadar, en módir mín straffadi mig aldrei fyrir hann; þegar eg var í skóla stal eg stafrofs-bordunum frá mínum skóla-brædrum, og þegar eg kom heim, gladdi hún sig þar yfir og seldi stafrofin; af þessu magnadist meir og meir lystin hjá mér til ad stela, uns eg vard stór-þjófur. Hefdi módir mín strax í fyrstunni straffad mig, þá hefdi ecki farid svo hraparlega fyrir mér, sem nú er komid, og þess vegna beit eg hana í eyrad, til — til — hvornig var meira Fadir gódur? nú, Vilhjálmur! sagdi fadir hans, til ad láta hana med tilfinnanlegum hætti vita, ad hún væri orsøk til hans dauda.

Sjáid nú, born mín gód! svona gengur þad ætíd: menn byrja á smá-løstum, en enda á þeim stóru; vaktid yckur þess vegna fyrir smá ónyttum, fyrir sérhvorjum smá-þjófnadi, þó þad væri ecki meira enn hofud-prjóns virdi, og þá munud þid aldrei freistast til ad rádast í annad stærra.

Allskonar Svik, hvorsu lítid, sem í þau kann ad vera spunnid, eru í raun réttri fullkominn þjófnadur; því þótt þau séu ecki ætíd svo hardt stroffud af Yfirvaldinu, sem þjófnadurinn, þá gjora þau þó svikarann allteins ólucku legann og stuldurinn þjófinn. Þegar einn, t. d.: kaupir nockud af ødrum, og betalar þad ecki eins dýrt og hann hefir lofad, edur tekur eitthvad til láns og skilar því ecki aptur, svo vill enginn madur selja honum neitt framar; enginn ljá honum nockurn hlut; og mundud þid sjálf ecki gjora hid sama? ef þid hefdud léd einhvorjum fotin yckar ellegar hatt á hofudid, og hann ecki skiladi hvorutveggju aptur, mundud þid ecki varast í odru sinni ad verda vid bón hans? sáir láta pretta sig optar enn einusinni; sá, sem hefir

einu-

einusinni svikid, er allt eins illa staddur og þjófurinn; menn hata hann og hrædast allt eins mikid, og ástunda ad hafa sem minnst saman vid hann ad sælda, og skipta sér eckért af honum þó hann sé naudstaddur. Veri Bókhaldari vinar míns sáluga, sem eg sagdi yckur frá í gjær, spegillinn; þegar þessi prettvísi þegn hafdi safnad miklum grúa peninga bædi med svikum og þjófnadi, vildi hann stofna kaupverslun fyrir sjálfann sig, og umsetti þess vegna alla sína peninga í vörur. Nú fá Kaupmenn ecki ætíd reidu peninga fyrir vörur sínar, en mega, þvertámóti optlega lána þeim um stund og tíma, er vid þá kaupa, og þurfa þess vegna sjálfir peninga-lán til ad innkaupa vörur ad nýju; en þessum nafntogada svikara vildi enginn selja hid minnsta, án borgunar út í hönd, því allir óttudust fyrir svikum hans; þegar hann hafdi nú eydt öllum sínum peningum og enginn fannst, sem vildi lána honum einn skilding, þá neyddist hann til dag frá degi ad færa saman höndlun sína, og þar hann líka þurfti þeirra peninga med til lífsuppheldis, er daglega innkomu fyrir vör-

ur hans, svo gẽck hans víkidœmi ein-
úngis upp á tveimur árum, og þá var
þar enginn, sem sídsynnti honum, af því
allir hötudu hann. Þar hann nú skamm-
adist sín ad betla, svo ætladi hann ad
halda sér uppi á þjófnadi; en hann vard
brádlega uppvís, því allir hösdu gát á
honum. Hann var sídan ad yfirvalds-
ins tilhlutun gripinn, dreginn fyrir rétt-
inn og dæmdur til æfinlegs þrældóms í
járnum á höndum og fótum, svo hann
ei framar sviki eda stæli frá ödrum.
Svona, edur á líkann hátt, gengur þad
loksins til fyrir svikurunum.

En, börnin gód! þid egid ad vera
sannsögul og hreinskilinn, ecki einúngis
í kaupum og sölum, heldur og einnig í
allri yckar umgengni vid alla menn, ann-
ars verdid þid hötud af öllu rádvöndu
fólki. Engum er unnt ad sjá inn í ann-
ars hjarta, edur fyrifram þeckja sinna
samlags-brœdra hugsanir og áform, og
hljóta þess vegna ad reida sig uppá þad
þeim sagt verdur. Ef oss er nú ecki
sagdur sannleikurinn, svo tökum vér oss
margt fyrir hendur, sem verdur til skada;
menn hafa þess vegna frá alda-ödli, hast
mestu

mestu óbeit á lygurum; sá fyrsti skadi, sem lygarinn hreppir, er sá, ad menn aldrei framar trúa honum, jafnvel þó hann segi satt. Þannig geck þad Marteini litla, sem hlaut mikid illt af ósannsogli sinu; hann hafdi nockrum sinnum æst þad ljóta gaman, ad narra nágrannana med því, ad reka upp ógnar skræki þegar hann geck á gotunum, rétt eins og honum hefdi viljad til, eg veit ecki hvad, vodalegt tilfelli. Nágrannarnir þustu saman, og meintu drenginn staddann í einhverri lífs-hættu, en þegar hann sá þá, rak hann upp skellihlátur ad því, hann hefdi gétad narrad þá. Svo bar vid einusinni, er Marteinn var úti ad skémta sér, eptir vanda, ad þar kom ólmur grimmur hundur hlaupandi ad honum. En Marteinn, sem hvorki fèck tækifæri ad flyja, né heldur gat varid sig, tók ad hljóda af fullum hálsi: æ! hjálpid mèr! hjálpid mèr! nágrannarnir heyrdu þad ad sonnu, þeir hugsudu hann vildi enn á ný narra þá, og sátu því kyrrir; en hundurinn réðst á drenginn og beit hann til dauds. Sjáid! þetta urdu hans laun fyrir lygina.

Fyrir utan þetta, er það mikið sjaldgæft, að sá, sem ydkað hefir lygi til lengdar, láti af henni og betri sig. Þó eitt barn hafi vanið sig á margar ódygdir, sé það að eins frómlundað og sannsøgult og medkénni afbrot sín, svo má hafa góða von um, að það verði leiðrétt með skynsomum ráðum, en leitist það við að dylja og fegra sínar ávirdingar, í staðinn fyrir að medkénna þær, þá er engrar betrunar að vænta, því allteins er því háttað, mín góðu børn! með vorar ódygdir, sem vora sjúkdóma; þegar sjúklingurinn lygur að læknaranum eða dylur fyrir honum orsakir sjúkdómsins, þá getur hann ecki heldur fyrirskrifað honum þau réttu læknis-meðöl, og því hlýtur sjúklingurinn að fara æ versnandi. Þannig gengur það barninu, sem leitast við að draga skylu fyrir bresti sína, þá fær ei heldur skynsamt fólk ráðið bót á þeim, ellur vanið það af þeim, hvaraf flytur, að þvílíkt barn æfist æ framar í hinu vonda, uns það að síðustu verður fullkominn lastanna þræll. Hreinskilnin er þess vegna hin stærsta og nauðsynlegsta dygð, fyrir sérhvort-barn, en lygin þar ámóti

ámóti hinn banvænasta ódygd, sem því gëtur til viljad.

Þér hafid rëtt í því, nágranni gódur! sagdi Gottvill; lygi er hinn afskræmislegasti löstur; en mundu ei á stundum gëfast þau tilfelli, í hvorjum menn med gódri samvitsku kynnu ad þegja yfir sannleikanum? heyrid þér nú til: eg verd ad medkënna, ad eg í gjær sagdi ósatt, yfir hvorju eg í dag, gët þó ecki gjört mër nockra samvitsku, med því eg enn þá stoduglega trúi, ad eg væri skuldbundinn til þess. Eg gëck í gjær-qvöldi heim til Amts-gardsins; á veginum mætti mër gamall, fátækur ferda-madur, sem búinn var ad gánga fram-undir þingmanna-leid, og vildi këppast til nærsta þorps, hvar honum var sagt ad einkasonur hans, lægi daudsjúkur. Hann var af sër kominn, vegna þreytu, og vard opt ad setja sig nidur, þar honum lá vid ad lída í aungvit, því hann ormagnadist af veikleika, þó vildi hann ecki hvíla sig edur tefja, fyrr enn hann hefdi fengid ad sjá sinn vesælings son. A medan vid urdum samferda, vard fyrir ockur gotustigur, sem lá þvers yfir um akurinn;

haldid þér eg megi gánga gotu þessa? sagdi þetta fróma gamalmenni til mín, Þad gjorir veg minn fjórdúngi styttri. Því ecki? svaradi eg, vegurinn er trodinn, og engum gjorid þér skada þótt þér gángid hann, hér er og heldur eckert merki uppsett, sem bannar ad fara hann. Gamli madurinn trúdi mér, og hellt áfram, stydjandi sig vid staf sinn, en eg fylgdi alfara veginum. Ad litlum tíma lidnum, þá eg var kominn upp á hæd nockra, leit eg til baka, og sá, — gódi Gud! hvílík sjón! — eg sá hann af miskunarlausum húdar-skélmir aumkunarlega barinn, sem vildi draga hann med sér med valdi. Mér tók ad hitna um hjarta-ræturnar, og flýtti mér allt hvad eg gat, til ad koma honum til hjálpar; en ádur eg komst á midja leid, sá eg ad íllmennid yfirgaf þann gamla og hljóp ad gérdinu, sem uppsett var med gotunni, til þess, er eg eptirá merkti, ad kalla á fólk, til ad draga þennann vesælings auminga í þjófa-bælid. Karlsképnan fór, á medan, sem fætur togudu, og komst í skóg nockurn, er þadan var skamt á burtu. A medan eg hljóp eptir

hon-

honum, kom skélmirinn med lagsmönn-um sínum til baka, og spurdi mig: hvort eg hefdi ecki séd hvada veg gamli Karl-inn hefdi gengid? þángad! sagdi eg, og bendti á þá sídunu, sem lá þvert á móti skóginum, hvar eg vel vissi þeir ecki mundu finna hann; en eg flýtti mér ad ná karlinum, og fann hann kominn ad lot-um af hrædslu og þreytu, baud eg hon-um ad leida hann, og fylgdi honum þángad, sem hann ætladi ad fara. Seg-id mér nú, nágranni! gjördi eg órétt í því ad segja þessum þorpurum ósatt.

Gud vardveiti oss! svaradi Æru-kjær; hvornig kunnud þér ad gjöra ó-rétt í því, þar þér einúngis hindrudud, ad þann vesælings gamla mann hendti ecki meiri óréttur; í þvílíkum tilfellum er þad ecki einúngis leyfilegt, heldur skylda vor, ad dylia sannleikann; lýgi heitir þad, þegar ósatt er sagt ödrum til skada ed-ur mót skyldu sinni; en þegar engin skylda krefur af oss, ad medkénna sannleikann, þad er, med ödrum ordum ad segja: þegar enginn, sem hefir rétt þar til krefst þess af oss, og vér þar fyrir utann sjá-um, ad sannleikurinn verdur ödrum til

skada,

skada, en engum til nytsemdar, þá er-
um vér skuldbundnir ad þegja yfir hon-
um, og þá forþénar þessi þögn ecki ad
kallast lygi.

Fullkominn rétt til ad krefjast sann-
leikans medkénníngar af oss, hafa ein-
úngis vorir foreldrar, kénnendur og yf-
irvöld; strax, sem þessir vilja vita eitt-
hvad af oss, svo erum vér ætíd skyld-
ugir ad segja þeim hreinann sannleika;
því þessir krefjast hans einúngis þess
vegna, ad þér géti komid í veg fyrir
allann órétt. Ef vér nú segjum þess-
um vorum yfirbodurum ósatt, svo verd-
um vér þar fyrir bædi straffadir og hat-
adir, þegar slíkt kémst upp um oss, er
sjaldan plagar ad hjálída.

Væru þar nú einúngis skynsamar
manneskjur til, svo væri þad vonda, sem
lygin af sér leidir, og eg nú hefi ydur
útmálad, fullnóg til ad fæla sérhvorn
þar frá; en eins og þar géfast margir
menn, sem eru svo heimskir, ad drecka
sig útúr, jafnvel þó þeir viti ad þad
spilli heilsu þeirra og heilbrygdi, svo hafa
þar og opt verid þeir, er töludu ósann-
indi, enn þótt þeir mættu vita, ad eng-
inn

inn mundi á eptir trúa þeim og þaradauki mæta hatri, þá lýgi þeirra kjæmist upp. Þetta fólk var svo miklu framar hneigt til lýginnar, sem það var torveldara að fá það sannfært um, að það segði ósatt; því hvorr gétur vitað annars þánka? en öllum reið þó á, að uppfinna það medal, sem orkaði því, að sannleikurinn leiddist í ljós. Eidurinn sýndist vera hið besta medal þar til. Takið nú vel eptir, börn! eg vil útskíra þetta orð fyrir yckur.

Frá alda-ödli, hafa menn trúað því, og verið sannfærdir um það, að Gud vissi alla hluti, einnig hugsanir mannanna, að hann géti gjört allt hvað honum þóknast, og að hann hafi andstygð á, og straffi allt hið vonda; vér, yckar fedur og allir adrir skynsamir menn erum sannfærdir um þennann sannleika; þegar nú einhvorr gefur nockuð út fyrir sannleika, og ecki verdur eptirkomist, hvort svo sé edur ecki, þá segja þeir, sem rétt hafa til að krefjast sannleikans: „sjá! vér vitum ecki hvort það er satt eda „logið, sem þú framber, vissum vér það, þá „skyldum vér straffa þig ef þú lýgur, „en

„en Gud mun gjora þad í vorn skad, „því Gud elskar sannleikann, en straff-„ar lýging.“ Þetta segja þeir og til ad vera fullvissir um, ad sá, sem útgéf-ur nockud fyrir sannleika, þenki og þann-ig, láta þeir hann kalla Gud til vitnis ad framburdurinn sé sannur, og ad hann straffi sig ef hann lýgur, og þad kalla menn Eid; þar fyrir, svo opt, sem nock-urr afleggur Eid, vidurkénnir hann op-inberlega, ad hann trúi Gud viti allt hvad hann hugsar, og ad hann muni straffa sig þegar hann segir ósatt; þeg-ar nú nockurr sver falskann Eid, þad er: kallar Gud til vitnis um þad ósatt er, þá gésur hann þar med til vitundar, ad þar sé eckért í veroldinni, sem hann akti þegar hann sjer einhvorn ávinning, og ad hvorki Gud né menn eda nockurr hlutur géti aptrad honum frá ad skada medbrædur sína, þá færi gésst, hvílík manneskja er álitin, sem úlfur, er ecki gét-ur lifad af ødru enn ráni; menn finna sig aldrei óhulta fyrir honum fyrr enn hann verdur upprættur af jørdunni, og fela hann þá Guds dómi, hvors straff hann hefir enkis aktad.

Ad sverja Eid, er. þvi einhvörr hinn mikilvægasti hlutur, er vèr ecki megum oss fyrir hendur taka án mestu varúdar og umþenkingar, og einúngis þá, er yfirvaldid Guds vegna krefst hans, hvörr, sem sver gálauslega og án naudsynja, hann lætur þar med í ljósi, ad hann er þvilik manneskja, hvörs berum ordum enginn vogar ad trúa; þad er og dagsanna: þvi sá er frekast blótar sèr til stadfestingar sannsögli sinu, honum trúa menn allra minnst, og hugsa: gjöri hann sèr enga samvitsku af ad ljúga, svo mun hann ecki heldur horfa í ad stadfesta sina lygi med eidum; og um þetta er reynslan hinn ólygnasti vottur. Ef þid þess vegna viljid haldast fyrir trúverdugar manneskjur, svo látid þad vera yckar reglu, ad stadfesta aldrei sagnir yckar med Eidi, og aldrei ad sverja, nema þegar Yfirvaldid krefst þess af yckur; en takid yckur líka sterkann vara fyrir ad tala lygi, þvi Gud adgreinir vissulega sannleikann frá lyginni, og lætur hana ecki óstraffada; þad ber líka sjaldnast til, ad lygi dyljist til lengdar. Ef þid yrdud nú uppvís ad þvi, ad hafa farid med

 ósann-

ósanníndi, truír yckur enginn framar, og þó þau komist ecki upp, svo erud þid þó sífellt uggandi um, ad þau þá og þá verdi opinber, og þad er lángtum meira varid í þá hugar-órósemi, enn allann þann ábata, sem þid gétid áunnid yckur med lyginni.

Þid hafid nú heyrt, hvorsu mikid yckur ridur á því, ad þid ecki med vilja og vitund skadid yckar medbrædur í heiminum, og hvorsu náqvæmlega þad er fyrirbyggt med lögunum, ad madur þori ecki med ásetníngi ad skada annann, en þad skédur líka opt, ad madur mót vilja sínum gjörir ödrum skada. Þannig bar þad til hér í nærsta plátsi, ad nautpeníngur bónda nockurs komst í tún nágrannans og beit þad til skémda. Þessi, sem vard fyrir skadanum, beiddist bóta af hinum, er peníngínn átti, þar hann hefdi skadann hlotid vegna hins hyrduleysis; en þessi vildi engu gódu tilsvara og engu bæta. En, hvorninn fór? tveim dögum sídar, lét sá, sem hafdi skadann lidid, reka aptur fé sitt í tún hins ósannsýna manns, hvar af hann beid tvöfallt meiri skada, enn svaradi því, er

hánn

hann hefdi átt ad bæta. Þid siáid þá hér af, ad Loggjafararnir hafa giort mikid forsiállega í því, ad þeir hafa tilskickad: ad sá, fyrir hvørs skuld edur hyrduleysi og óadgjætslu, annar lídur skada, skuli þann skada bæta, og eins er því háttad um øll onnur løg, sem oss eru fyrirskrifud, oll mida þau til vors egin, og vorra medbrædra besta; vér erum því skuldbundnir til ad uppfylla allt þad, sem þau oss fyrirskrifa, þó enginn madur þvingadi oss þar til, fyrst vort egid gagn er þar undir komid, og hvørsu miklu framar ættum vér þá ecki ad kappkosta ad breyta eptir þeim, þared þeirra yfirtroksla verdur þaradauki strossud af Yfirvaldinu.

Þad er gott fyrir oss, litlu børn! ad vér støndum undir løgum og Yfirvaldi; af løgunum kémur gód skickan, af gódri skickun farsæld í heiminum; adgjætid einúngis alla náttúruna, hvørsu sá alvísi Skapari siálfur hefir innréttad alla hluti, eptir óriúfanlegum løgum! rennid augunum til þess dæilega túngls, sem rennur upp þarna bak vid fiallid! hvørsu reglulegur er sá gángur, sem Gud hef-

hefir því fyrirsett! hvorsu náqvæmlega hefir hann afmarkad þess voxt og minkun! eins og þad kémur upp og gengur undir, vex og minkar á þeim eina mánudi, eins skédur þad einnig á hinum ødrum mánudunum. Allt eins þrádréttur, allteins áqvardadur er gángur hinna annara himin-túngla; aldrei verda menn varir vid ad þau skeiki edur viki frá sínu fyrirsetta hlaupi; allir hlutir koma og fara, láta sig sjá og burtlída, í órasskanlegri ordu. Sjáid, børn mín! þar med hefir Gud kénnt oss, ad vorur athafnir skuli einnig vera innréttadar eptir vissum løgum, ef ródsemi og farsæld, skal búa medal vor; eg segi því enn þá einusinni: þad er gott fyrir oss, ad vér høfum løg, og ad þar eru tilsett Yfirvøld, sem eiga ad hafa umsjón yfir ad eptir þeim sé lifad.

Hér þagnadi sá gamli, og allir størdu þegjandi á túnglid, sem nú var nýlega upprunnid og skein gladt; margar vidqvæmar hræríngar qvikaudu vid þessa þegjandi skodun og gaumgjæfni, í Trukjærs og Gottvills brjóstum; loksins gáfu þeir hvør ødrum høndur sínar, budu gódar nætur, og leiddu børn sín til hvílu.

Þridja

# Pridja Qvøldræda.
## Um Félags-Skyldurnar.

Hinar undanførnu Qvøldrædur þess gamla Ærukjærs, høfdu verid øllum svo ununarsamlegar, ad gjørvøllur hópurinn var qvøldid eptir, gódum tíma fyrir sólarlag, aptur kominn undir Lindi-tréd og bidu eptir honum. Þid erud þá komin hér, mín elskulegu! sagdi hann, í því hann med hýrlegu bragdi setti sig nidur hjá þeim; þad er enn þá svo snemmt, ad eg hugsadi stadfastlega, ad þid máské mundud leika yckur eina stund, ádur enn vid særum ad byrja ockar qvøldrædu.

„O! leika!" svørudu børnin; og litu ángurvær, hvert til annars.

Nú! eg gled mig, børnin mín! sagdi Ærukjær, hjartanlega gled eg mig yfir því, ad sjá yckur svo laungunarfull eptir minni undirvísun, ad þid hafid tapad lystinni til ad leika yckur; til verdlauna þar fyrir, vil eg sýna yckur nockud, sem er rétt markverdugt; komid þid nú á eptir mér!

Hann færdi þau í aldin-gardinn; hèr hafdi hann veidt úngann Bí-flugna-sverm, og látid hann í gler-krucku, í hvorri sjá mátti þeirra ydjusemi; þad var mjøg svo yndælt ad líta athafnir þeirra: nockrar komu fljúgandi og færdu med sèr vax klump, sem loddi vid fætur þeirra; adrar, sem fyrir vóru í kruckunni, tóku vaxid af þeim vid dyrnar og færdu þad inn; sumar gjørdu aptur þessa vax-hnúda flata, en adrar gjørdu smá-rúm þar af; nockrar innfærdu hunáng og fylltu þar med rúmin, og ein á medal þeirra, sem allar sèrdeilislega sýnduft ad þjóna, og kalladist Drottníng, lagdi egg í nockur rúm, hvar af aptur skyldu verda úngar Bí-flugur; stutt ad segja: sèr-hvør hafdi sitt egid verk, og engin var ydjulaus.*) Børnin gloddust yfirmáta af sjón þessari.

Sídan mælti Ærukjær: børn mín gód! af þessum litlu skynlausu dýrum síáid þid lært, hvørsu ágjætur hlutur þad er,

*) Um Bí-flugur má enn framar lesa Biskups Doctr. H. Finnssonar Qvøld-vøkur I. Part No. XIII, bls. 65 til 75.
Utlegg.

er, ad gaumgjæfa góðu orðu og reglulega breytni í hvörjum hlut; hvad haldið þið mundi verda úr öllu þessu, ef sérhvör af þessum Bí-flugum mætti gjöra hvad hana lysti, og engin hefdi sitt ávardad verk? þá mundi hvör þeirra sorga fyrir sjálfri sér, og einúngis safna svo miklu hunángi, sem hún daglega eyddi. Hinar úngu Bí-flugur, og þær af hinum gömlu, sem ecki hefdu vit á ad safna hunánginu, mundu vannmegnast, og þegar hinn kaldi vetur kæmi, hlytu þær allar ad deyja í atvinnuleysi. Fyrir allt þetta verdur í veg komid, þar vinnan gengur svo reglulega hjá þeim, og nú sjáid þid hvörsu ágætlega þeim lídur. Börn mín góð! þannig mega menn og breyta, egi þeim vel ad vegna. Medan hann taladi þessi ord, var hann med börnunum kominn aptur undir Lindi-tréd.

En, mín kjæru börn! sagdi hann enn framar; mikid af því, sem þid egid ad gjöra, er ecki ávardad í opinberum lögum; eg hefi ádur sagt yckur, og líka vitid þid sjálf, af þeirri litlu þeckíngu, sem þid hafid, ad þid án annara manna adstodar gétid ecki lifad farsæl.

Ad sonnu gétid þid á stundum keypt yckur þad, sem þid þarfnist, annad-hvort fyrir peninga edur vinnu; en, mín elskudu börn! hvar ætlid þid ad taka svo mikla peninga, sem hrockvi til ad borga med alla þá adstod, sem þid þyrftud til annara ad sækja? eg set, t. d. ad eitthvört yckar félli í djúpa gröf, og hrópadi til einhvörs, sem fram hjá géngi ad hjálpa sér, hvornig mundi þad falla yckur í géd, ef hinn adkomandi ecki vildi draga yckur upp, nema fyrir peninga út í hönd, en hefdud ecki einn skilding í vasanum til ad borga med? edur, ef þid vildud gjora yckur einhvörja saklausa dægra-stytting, en vinir yckar vildu ecki vera yckur til adstodar þar í, fyrr enn þid hefdud lofad þeim þessu edur hinu, er þad ecki satt: ad þad mundi verda yckur leidinda-fullt líf, og verda á stuttum tíma blá-fátæk, jafnvel þó þid ættud nóga peninga; en verid ecki hugsjúk, mín gódu börn! eins mikid, sem þid vidþurfid annara hjálpar og vinsfengis, eins mikid þurfa þeir yckar hjálstodar vid. Þegar yckar med-brædur sjá, ad þid erud fús til ad hjálpa þeim,

þá

þá þid gétid varad þá vid yfirhángandi skada, sem þeir ecki fyrisjá, eda géfid þeim gód rád, hvornig þeir skuli haga sér med þad edur hitt, svo þeir megi lifa ánægdir og farsælir, eda þid gledjid þá med yckar umgengni, erud vingjarnleg, þénustusöm og þægileg, þá megid þid vera viss um, ad þeir gjöra sér ómak fyrir, ad audsýna yckur hid sama, og jafnvel meira enn þid gjörid fyrir þá.

Látid þar fyrir ecki nockurt tækifæri hjálída, hvar þid kunnid ad láta þá komast ad raun um þetta. Þeir minnstu smá-vegis hlutir, eru opt nógir hér til, ein heilsan, eitt vinsamlegt augna-tillit, ein heimsókn, ein lítil þénustusemi, er opt nóg til ad abla yckur velvildar yckar samlags-brædra. Einusinni þá eg reikadi úti, var eg svo heppinn, ad eg gat hjálpad barni nockru, hér um 8 ára gömlu, sem mér ásjáandi féll í vatn, og fært þad heim til foreldra sinna; eg gjördi þad af elsku til barnsins, því vid fodur þess hafdi eg varla tvisvarsinnum talad. Nockrum vikum þareptir vard eg veikur; þá skyldud þid hafa sjed, mín gódu born! hvörsu þessi

ær-

ærlegi madur launadi mér mína lídu
Pénustu; hann géck varla frá rúmi mínu,
og útvegadi mér Pá heilnæmustu fædu
til ad næraſt á; hann ſendi án minnar
vitundar 4 mílur vegar eptir enum Dug-
legaſta Læknir, ſem nærſt Guds hjálp
gjördi mig aptur heilbrygdann, og hvorr
veit nema eg af Þeim ſjúkdómi hefdi
daudann bedid, ef Þeſſi ágjæti og góð-
hjartadi madur hefdi ei ſvo umhyggju-
ſamlega ſorgad fyrir mér; leggid Því
alla ſtund á, börnin góð! ad elſka alla
menn, eptir vors Lauſnara bodi, og ſorgid
ſvo mikid, ſem mögulegt er fyrir Því, ad
Þeim vegni vel. Verid reidubúin ſtrax,
ſem Þid ſjáid nockurn hjálpar-Þurfandi,
ad greida úr vandrædum hans; ímyndid
yckur: ſtædi eg nú í hans ſporum, og
hann í mínum, hvörſu feginſamlega mundi
eg taka á móti hans lidveitſlu? og Því
ſkyldud Þid Þá ecki gjöra hid ſama; Því
ſvo hljódar Jeſú bodord: allt hvad
Þér viljid ad mennirnir gjöri ydur,
Það ſkulud Þér og Þeim gjöra. Eg
hef nýlega ſagt yckur dæmi-ſögu, ſem
átti ad minna yckur á Pénuſtuſemis-
ſkyldu; erud Þid búin ad gleyma henni?

Jakob litla, Gottvills eldsta son, ránkadi fyrstann vid henni, og sagdi dæmisoguna, sem fylgir:

„Limir mannlegs líkama urdu einusinni leidir á ad þjóna hvorjir ødrum, „og vildu øldúngis ecki gjøra þad framar. Fæturnir søgdu: hvør skylda ber „til þess, ad vid einsamlir skulum jafnt „og þétt bera yckur alla? útvegid yckur „sjálfir fætur, þegar yckur þóknast ad færast úr einum stad í annann. Hendurnar „søgdu: því skyldum vid einúngis erfida fyrir yckur alla? verid yckur sjálfir í útvegum „um hendur ef þid þurfid nockurs vid. „Munnurinn nøldradi: eg mætti vissulega vera mikill erki-narri, ef eg framvegis togladi matinn fyrir magann, „til þess honum veitti hægra ad melta „hann; géti hann ecki verid mín án, „svo sjái hann sig um hvar hann gétur „fengid munn. Augunum þótti þad í „meira lagi undarlegt, ad þau einsømul skyldu vera á sífeldri vakt til ad „sjá fyrir øllum líkamanum; slíkt hid „sama søgdu hinir adrir líkamans limir, „og uppsøgdu því hvørjir ødrum allri „þjónustu framvegis. — En hvornig fór? „þeg-

„ Þegar fæturnar vilʃu ecki gánga fram-
„ ar, hondurnar ecki erfida lengur, munn-
„ urinn ecki meir eta, augun ecki framar
„ ſiá, kom allur líkaminn innann tveggja
„ daga í ſvo mikla óordu; ad limirnir
„ tóku til ad viſna og hvad af hvorju
„ ad deyja; þá þecktu þeir fávitſku ſína,
„ og gjordu á ný ſáttmála um innbyrd-
„ is þénuſtuſemi, og ſérhvørr þeirra ſann
„ ſig ánægdann."

Þad var rétt vel ſagt, minn ſon! ſagdi hinn gamli Ærukjær í því hann áſtudlega klappadi um kinnar hans; þad eru ſumir menn, mín gódu børn! ſem eru tregir til ad gjøra ødrum þénuſtu, einúngis af leti og hyrduleyſi, adrir þar-ámóti af Øfund, ſem er harla vidur-ſtyggilegur löſtur. Eg ſkal ſegja yckur hvari hann er innifalinn: þar finnaſt þær manneſkjur í heiminum, ſem hafa þann ótætis annmarka, ad þær eru aldrei ánægdar med ſitt egid, og qveljaſt í ſálu og ſamvitſku þegar þær heyra ad ødrum gengur vel, edur, eptir þeirra meiníngu, betur enn þeim; eg tek t. d.: þegar þær ſiá einhvørn annann betur klæddann en þær eru, edur heyra, ad einhvørjum er

hróſ-

hrósad framar enn þeim, virdtur meir enn þær, svo sídur þad í þeim, verda óánægdar og jafnvel hatast vid þá, er þetta hljóta; þessi lóstur kallast Øfund eda Øfund-sýki, því hann er morgum sjúkdómi verri. En nú megid þid vita, ad øfundsjúkar manneskjur, eru ætíd ad hatri hafdar, því fyrst þær géta ecki vitad ad ødrum vel vegni, svo eru þær aldrei fúsar á ad hjálpa ødrum, eda vera þeim rádhollar; því þad vildi einúngis afla vitfyrríngum þessum enn þá meiri gremju. Væru þær hygnar, þá mundu þær gledja sig yfir lucku sinna medbrædra, og þessir aptur á mót fagna yfir sérhvorju happa-tilfelli hinna, og keppast vid ad efla þeirra farsæld; en sokum þess þær eru bædi heimskar og illgjarnar, svo gjora þær þad, sem er þvert á móti, og þess vegna ser þeim eins og Pétri Øfundarskyldi, hvors lífssøgu mig minnir eg hafi einhvorn-tíma sagt yckur, er ecki svo? bornin gátu ecki munad þad, og sá gamli Brukjær hellt fram rædunni.

Pétur Øfundarskjøldur var sonur ágjæts fodurs, sem vildi kosta øllu

Því hann átti til að fá syni sínum gott uppeldi, og sendi hann í því skyni til hins sama skóla, í hvorjum eg um sömu mundir var haldinn af mínum foreldrum. Nú vóru þar mörg ríkra manna börn, sem gengu betur klædd enn hann; þetta gramdist þessum únga heimskíngja; en hann lét það ecki þar við lenda, heldur kappkostaði, svo opt hann komst höndum undir, að saurga og skémma hinna annara fögru klæði; þetta var uppbyrjun hans ósúndar. Heíði hann í það sinn viljað koma til sjálfs síns, þeckt sínar ávirdíngar og betrað sig, þá hefði betur farið, en fyrst hann gjörði það ecki, fór æ vestnandi fyrir honum. Hann tók og svo hvað af öðru að misunna sínum skóla-bræðrum alls þess gamans, sem þeir höfðu af leikum sínum, og gjörði allt sitt til að spilla skémtunum þeirra, svo Skólameistarinn neyddist til að útilykja hann frá öllum vorum gledi-leikum. Gremja hans margfaldaðist við þetta, og sú qvöl, að sjá á skémtanir ockar, gjörði sálu hans svo ófrólega, að hann aldrei gaf réttann gaum að því, sem ockur var kénnt, gat þess vegna

aldrei

aldrei svarad eins vel og við, þegar Skólameistarinn spurdi ockur úr því, sem við høfdum lært. Skólameistarinn hrósadi þá náins-ydni og skarpleika ockar, en gaf Pétri snuprur fyrir letina og tossa-skapinn; og þetta gjordi nú allt um eitt. Stutt ad segja: hann fór dagslega vestnandi, þar til hann ad lyktum vard med øllu óhæfur til ad læra nockud nytsamlegt, þared sála hans sveymadi sífellt í qvøl og óánægju yfir ockar gódu framforum. Þannig leid út æfur hans úngdómur án þess hann nædi nockrum dugnadi eda framforum, hvar med hann í framtídinni gæti hjálpad sér í heiminum; medfram hafdi hann það sífellt ólán, ad engin manneskja vildi hafa hid minnsta saman vid hann ad sælda, allir forduduſt hann eins og líkþráann eda pest-veikann mann. Þegar hann hafdi nád fullordins aldri, og fadir hans hafdi kostad til menníngar hans allt ad skyrtunni, átti hann ad láta sig yfirheyra til ad fá embætti nockurt, sem hann gæti lifad af og undirhaldid sína fátæku foreldra, en hann fannst til allra, og jafnvel hinna lítilsjorlegustu embætta, óduglegur

úngis óduglegur, og honum þess vegna frávísad, hafdi því engin onnur úrrædi enn fara flackandi manna á milli, sem ónytjúngur og landhlaupari, og bidja beinínga; optast betladi hann hjá þeim, hvorra gledi hann, í sínum úngdómi, hafdi med ollum uppþenkjanlegum hætti, kappkostad ad spilla, um eina máltíd matar, eda nidlags flyk, til ad hylja med líkama sinn. Segid mér nú, born! vildud þid hafa verid í þessa Péturs Ofundarskjølds stad? þó, eg þarf ecki ad spyrja yckur um þad; enginn gyrnist ad vera ófarsæll?

Flýjid þann ljóta løst, Ofundina, en venjid yckur miklu framar til ad samglediast yckar medbrædra heillum, og til ad koma þessu til vegar, hljóti þid gaumgjæfilega ad vaka yfir yckar hjarta, ad þad ecki saurgist af Stolti og Drambsemi, því drambsamur madur innbyrlar sér opt, ad allir hlutir séu einúngis skapadir honum til þénustu, og eyrir því sárilla, ad odrum monnum gángi betur enn honum; ofund og drambsemi eru skilgétnar systur, og því gétur hvorki ofundsjúkur né dramblátur madur ordid far-

farsæll. Nú lítur hann fólk, er hefir þá yfirburdi, sem hann sjálfann skortir, og gremst því; nú lítur hann adra, er ena somu yfirburdi hafa sem hann, og verdur á ný óánægdur, ad hann ecki er hinn einasti, sem þá hefir til ad bera. Hvörsu vanvita þvílíkur madur er, sjest medfram af því, ad hann raunar ver þar til ómaki ad skeika frá ætlun sinni; til þess, nefnilega: hann ætlar sér ad vera virdtur og heidradur umfram alla, en af því hann er sjálfur stoltur vid hvorn mann og foraktar alla adra, svo leggja aptur á mót allir forakt á hann, og þad fellur honum nauda sárt. En væri hann þarámóti sjálfur vidfeldinn, ástúdlegur og þægilegur vid adra, mundu þeir eins líka sýna honum somu atlot, og þá væri hann ánægdur, því menn eru yfir hofud allt eins hneigdir til ad elska þá á mót og virda, sem sýna þeim elsku og virdingu, eins og þeim er gjarnt til ad hata þá og forakta, sem í vidmóti sínu láta á sér sja. hatur og forakt vid þá.

En fyrst eg tala um Drambsemi, svo megid þid vandlega gjæta yckar, ad þid

ecki takid hana fyrir Æru-kjærleika, sem enginn löstur er, heldur miklu framar dygd, já! hin naudsynlegasta dygd, og vil sjá til hvort eg sæ gjört yckur mismuninn á Drambsemi og Æru-kjærleika skiljanlegann.

Bædi hinn drambsami og hinn ærukjæri, eru hvorr ödrum likir í því, ad þeir óska sér ad vera virdtir af ödrum, en óttast fyrir vanvirdu; en Æra er innifalin í gódri meiníngu, sem adrir menn hafa um oss og hegdún vora, allt eins og Skømm edur vanæra er þvertámóti innifalin í annara slæmum dómum um oss og breytni vora. Nú finnst bædi sønn og følsk æra, allteins og sønn og følsk skømm, edur vanvirda, þad er ad skilja: þegar hinn gódi edur misjafni dómur, sem adrir fella um oss er á réttum rokum bygdur, þá høfum vér annadhvert sanna æru edur sanna skømm; þarámóti, sé þessi dómur ástædulaust afsagdur, þad er: ef vér raunar ecki vinnum til þess, menn dæmi svo vel edur illa um oss, þá hafa þeir audsýnt oss falska æru, edur tillagt oss falska skømm.

Nú

Nú er hinn fyrsti greinar-munur millum ærukjærs og drambsams manns í því fólginn, ad hinn fyrri leitast vid ad ávinna sér annara gódann þánkq um sig og hegdun sína, med sann-gódum athöfnum, en hinn sídari þarámóti ad rænast eptir honum med öllu mögulegu móti, hvert heldur vera vill med réttu edur raungu; af þessu er audsært, ad hinn ærukjæri keppist einúngis eptir sannri æru; þarámóti er hinum drambsama einúngis um þad hugad ad allir lúti honum, hvert hann vinnur til þess edur ecki; hinn tekur sér þess vegna, aldrei nockud ósæmilegt fyrir til ad upphefjast af, en þessum þarámóti liggur í léttu rúmi, hvert hans breytni er fögur eda ljót, þegar hann einúngis sær komid sér svo fyrir, ad honum hrósad verdi af ödrum. Annar skilsmunur þeirra á milli er sá: ad hinn ærukjæri unir vel vid, þó adrir menn hafi sömu yfirburdi, sem honum hrósunar abla, hinn drambsami þarámóti unir þvi ecki; sérhvorr mannkostur, sem adrir hafa til ad bera, er sem stíngandi þyrnir í augum hans, sem abla honum óbærilegrar plágu; hann

gétur því aldrei haft eyrd eda ró fyrr enn hann hefir nidurdrepid hinni gódu meiníngu, sem adrir hafa um þvílíkann mann..

Þar af kémur, ad drambsamur madur, er almennt hneigdur til hinna skammarlegustu lasta, baktals og lastmælgis; verdi hann því ad eins var hinns minnsta brests hjá einhvorjum, svo útljóstrar hann honum hvorvetna, hlær ad og fagnar yfir því, sem ødrum verdur á. En verdi þeir ecki varir nockurs sérlegs brests hjá einum, taka þeir tídum fyrir sig ad ljúga og dikta upp um hann allskyns ávirdíngum, er hann á engann hlut í; ein formerki þeir aptur á móti nockud gott hjá honum, varast þeir øllu framar ad géta þess, edur sé um þad rædt þeim áheyrandi, gjøra þeir sér allt møgulegt ómak fyrir ad eyda og nidurdrepa því enu góda. Nú, mín gódu børn! hvad virdist yckur um þvílíkt fólk?

„O! þad fer ecki hjá því, ad þeir „séu vidurstyggileg hrakmenni, er svo breyta," svørudu børnin.

Já, ad vísu ecki einúngis hrakmenni, sagdi hinn gamli enn framar, heldur

ur og vitskola menn, hvorsu vel, sem þeir annars vera kynnu ad sér í ødru, þeir eru því ollandi ad allir hafa andstygd á þeim, enginn vill umgángast þá, af því enginn fellur sérlega vel ad illa sé um hann talad, edur komid í vanvirdu; bakmálugur madur hefir þess vegna enga sanna vini; og tídast hefir hann í félagi med sér einúngis þvílíkt fólk, sem eins og hann hefir vanid sig á ad tala illa um adra. A medan þvílíkir menn eru í samqvæmi, láta þeir á sér sjá, hid vinsamlegasta vidmót hvorjir vid adra, og tala allir einúngis illa um fjærverandi, enn varla hafa þeir fyrr skilist ad, en hvorr tekur ad lasta annann af alefli. Svona eiga vinirnir ad vera! mun ecki svo?

Yfir høfud er eptirsókn sú ad vera haldinn fyrir hugvitsamann mann, þad, sem fyrst tælir til slíkrar bakmælgi. Med spottglósum leitast menn vid ad koma lags-brædrum sínum til ad hlæa ad ørdum náúngum edur fjarlægum, og hafi einhvorjum tekist þad fyrst nockrum sinnum, þá verdur lystinn til ad gjøra adra til athláturs, æ sterkari, þángad til henni

ad

ad sidurstu verdur ecki framar mót-stadid.

Vaktid yckur þess vegna, born litlu! fyrir Hádgyrni og allskyns Ulasi um adra. Venjid yckur miklu framar til, ad þid ecki, án adþreyngjandi naudsynja, talid annad enn gott um alla menn, einkum þegar þeir fjarlægir eru; og ef þid vitid eitthvad illt um adra, þá þegid á medan enginn sérleg skylda neydir yckur til ad tala; tali adrir menn yckur áheyrandi illt um nockurn fjærlæganu, þá takid hans málstad og forsvarid edur afsakid hann svo framt þid getid; þad ablar elsku og ástar-þocka allra manna, og allir munu þá verda fúsir til ad auds-syna yckur somu þénustu, þegar illa verdur um yckur talad í yckar fjærveru.

Yfir hofud, min gódu born! verid fullviss um, ad vel flestir munu eins vid yckur breyta og þer breytid vid þá; þegar þid erud vidfeldin, greidvikin og vingjarnleg vid adra, þá munu þeir og í sama máta hegda sér eins vid yckur. Einkum er Alúd óbrygdult medal til ad gjora sig velþóckadann, allteins og Ful-lyndi og nøldrunarsamt vidmót gjorir

oss

ofs ſerhvorjum manni óþecka. Vingjarn-legu andliti, ſem býdur af ſer þocka vid hvorn mann, ſær nær þvi enginn mót-ſtadid, þad knýr ofs til ad elſka þann, hjá hvorjum vér verdum þeſs varir; allt eins torſókt veitir ofs, ad elſka þann mann, ſem alltíd er aſundinn og noldr-unarſamur; allir ſneida ſig hjá ad hafa umgengni vid hann, þar einginn gétur ánægdur verid í félagi med honum; menn ſneida ſig hjá ad ſýna honum nockra þénuſtu, þvi hann þackar hana tídaſt med ſvo ſhýru bragdi, ad menn ecki gjørla vita hvort hann raunar er ánægd-ur med hana edur ecki. Þeſshattar fólk hefir þeſs vegna ſjaldan ſannann vin, og ſjaldan audſýna adrir þvílíkum nockra velvild; þvi vinſamlegt yfirbragd er þó hid minnſta, ſem menn kunna ætlaſt til fyrir þénuſtu ſína.

Noldrunarſamt fólk er og tídaſt reidi-gjarnt; þad er: þeſshattar menn verda vid hvorja litilvæguſtu mótgjørd, ſem optlega ecki er annad enn gaman-yrdi, edur mis-ſkilningur, ſtrax frá ſer numdir, taka til handanna, ſkammaſt og bølva, eins og þá hefdu hitt einhvor ſtór-

stór-slis; þetta er hættulegur sálar sjúk-dómur, sem án efa verdur þeim til ó-lucku, er af honum plagadir eru; þvi Reidin er ein tegund af ædi, í hvörju vér gjøra kunnum þúsund margt þad, sem vér sídarmeir høfum orsök til ad ydrast eptir. Eg hefi nú þegar sagt yck-ur nockrar þvílíkar dæmi-sögur um þad efni, og gæti, ef þorf gjordist, sagt yckur margar fleiri um þá menn, sem í reidi hafa mordingjar ordid, og hafa mátt láta líf sitt undir bøduls hondunum; en jafnvel þó ecki þyrfti þvi ad qvída, kynni þó reidin af sjálfs dádum ad gjøra oss nógu vesæla. Børn mín! haf-id þid nockurntima sied reidann mann?

„Æ! já, Fadir minn gódur!" hróp-udu børnin, „þeir tveir, sem í haustid „var borbust hérna í Réttunum vóru „óskop reidir."

Nú, svaradi hinn gamli, þá hafid þid sied hvörnig þessir assinna menn vóru á ad líta? hvörnig þeir vóru afskræmdir í andlitinu? hvörsu frodan fell af munni þeirra? hvörninn þeir varla gátu ordi útkomid fyrir ædi? meinid þid þeim hafi lidid vel á medan? eda var ecki audsied á þeim,

á Þeim, ad Þeir innvortis hafa skélfilega mikid haft ad lída? ad vísu! reidin má vera qvalrædis-full tilfinníng.

Þar vid bætist enn nú Þetta: ad fyrst Þad er svo óÞægilegt og hættulegt ad umgángast med svo skap-illu fólki, svo fordast allir Þvílíkra félag, og kunna Þeir Því ecki ad vænta sér Þeirrar ánægju, sem plagar ad fylgja vinskap og stallbrædraskap; jafnvel og svo ókunnugt fólk fordast Þá, Því af útliti Þeirra er audsært, ad lítid Þarf utaf ad bera til Þess Þeir verdi ærir; menn sneida Þess vegna hjá Þeim, eins og villu-dyrum Þeim, sem menn eru uggandi fyrir, og Þegar svo ber vid, ad Þeir verda annara Þurfar, ega Þeir engann vin, sem skiptir sér af Þeim eda sinni Þeim, og er Þad, satt ad segja, aumkunarlegt áfigkomulag.

Allt eins illa leikur og svo Ofor-líkunarseminnar glæpur adra út; Þar géfast ecki einúngis heimskar, heldur og jafnframt svo illgjarnar manneskjur, sem engar yfirsjónir, engar mótgjördir fá af sér ad fyrirgéfa odrum, jafnvel Þó hinn, sem Þeim hefir móti brotid ydri Þess aldrei svo mjög; Þessir eru í odru lagi allt eins

 vid-

vidsjálir, sem þeir sjálfir eru ósarsælir; þvi sokum þess enum bestu monnum jafnvel kann ad sjást yfir, og verda á ad styggja annann af óvilja edur bráðræði, svo má hvorr einn óttast ad hafa umgengni vid óforlíkunarsamann mann, þvi mis-sjái madur sig, þó ecki sé nema i minnsta smárædi á móti honum, verdur hann strax vor æfinlegur óvinur, sem ecki leitar annars enn hefnda; hvorr mundi þá vilja hafa nockud saman vid þvilíkann mann ad sælda? og hvad ávinnur hann med þvi? sær þad i nockru gagnad honum þó annar verdi óluckulegur? vilji hann med þvi sæla adra frá, ad ángra sig, svo sælir hann undireins vini sína frá ad hjálpa sér, af þvi þeir kynnu þannig óvorum ad gjora honum skada. Gjorir nú ecki þvílík mannesskja sér sjálfri stærstu óluckn? þvi hvornig kann nockurr óluckulegri ad verda enn sá, er enginn elskar, enginn vill umgángast vid, enginn hjálpa, og vid hvorn allir eru hræddir.

Lángtum viturlegar breyta þvi þeir skynsemdar menn, sem strax fá fyrirgefid og gleymt mótgjord þeirri, er menn þeim

gjört hafa; þeir gjöra sér ecki einúngis þá að vinum, er þeir audsýna þvílíka gédprýdi, heldur og svo alla adra, sem um sama verda áskynja, því vér sáum engannveginn að oss gjört, að elska þá ecki, hjá hvörjum vér varir verdum manngædsku og gédprýdis, og jafnvel þó vér aldrei séd hefdum þennann mann ádur, svo fengjum vér samt ástar-þocka til hans, undir eins og oss sagt væri af honum. Reynid ad eins til, hvört yckur gétur mislikad vid mann nockurn ad nafni Jóseph, af hvörjum eg vil nú segja yckur stutta sögu.

Á fyrri tímum lifdi madur nockurr, er hét Jakob, þessi átti 12 syni, sem hann alla elskadi, enn þó þótti honum um engann þeirra eins vænt og hinn yngsta, sem nefndist Jóseph, af því hann var þeirra allra hinn sidprúdasti og hlýdnasti; þetta gramdist nú hinum ödrum, og þeirra ofund og vondska magnadist ad lyktum svo mjög, ad þeir sátu um líf hans; þess vegna kostudu þeir honum einusinni, er þeir vóru hjá honum einum, út í miklum skógi, í djúpa gryfju hvar hann átti ad svelta í hel. Enginn

var fá af brædrum hans, sem hefdi nockra medaumkun med honum, fyrir utan einn þeirra; nú bar svo til ad framandi Kaupmenn nockrir, ferdudust þar fram hjá í sama verfángi, og þessi eggjadi hina adra brædur til þess, ad draga bródur sinn aptur upp úr gryfjunni, og selja hann þessum Kaupmønnum fyrir þénara; því um þær mundir keyptu menn og seldu manneskjur, eins og nú er farid med varning í kaupstad. Þessir Kaupmenn fluttu nú þennann vesælings Jóseph lángt burt í framandi land, en hans vondskufullu brædur, toldu karlfuglinum, honum fødur þeirra, trú um, ad einhvørr úlfurinn hefdi uppetid hann í skóginum. Unglínginum Jóseph géck í þessu framandi landi í fyrstu sæmilega vel, en þegar eitt sinn bar svo undir, ad hans Herra húsfrú vildi locka hann til einhvørs íllrædis, og hann ecki vildi gjora þad, þá gjordi hún hann svo ílla ræmdann fyrir manni sínum, ad hann lét kasta honum í fángelsi; hér gafst honum tækifæri, ad verda einum mikils háttar manni til þénustu, hvørn Kóngurinn, (eg veit ecki fyrir hvørja skuld) hafdi setja látid

í sama

i sama fángelsi, og, sem þessi hafdi nú aptur lausn fengid, minntist hann hans lokfins er gott gafst færi, og fól hann Kónginum til hins besta; Kóngurinn lét hann koma fyrir sig, og, sem hann komst ad því, ad hann væri sérlega hygginn og hreinskilinn madur, féck hann ástar þocka til hans, og ad lyktum gjördi hann til síns ædsta embættis-manns, sem hafa skyldi vald yfir ollum hlutum. Nú bar svo til eptir nockur ár, ad uppákom frábært hallæri; heppilega hafdi Jóseph sied þetta fyrirfram, og innkeypt svo mikid korn, sem hann nú kunni forsorga med gjorvallt landid. Í ollum odrum lands-álfum var mikil húngurs-neyd; einnig þar hinn gamli Jakob bjó med sonum sínum; þetta hvatti hinn gamla mann til ad senda syni sína til þess lands hvar Jóseph (hvorn hann meinti daudann vera) enn nú hafdi korn til solu; varla vóru Jakobs synir fyrr komnir, enn Jóseph þeckti þá, þó þeir þecktu hann ecki, því hann var ordinn mjog umbreytilegur. Hefdi nú Jóseph verid ófyrirlíkunarsamur og hefndargjarn madur, hvad mundi hann þá ecki hafa kunnad ad gjora vid

 bræd-

bræður sína? hann þurfti ecki annað enn neita þeim um kornið, og svo hefðu þeir mátt svelta í hel; hann gat, hefði hann svo viljað, látið straffa þá, kasta þeim í fángelsi, jafnvel aflífa þá; svaði sá, sem þeir honum gjört høfðu, var og ei heldur svo lítilsjørlegur, að hann ecki hefði kunnað með øllum rètti að straffa þá þar fyrir; en hvað gjørði hann? þegar hann eptir útvortis áliti hafði skotið þeim litlum skélk í bríngu, auglýsti hann sig fyrir þeim, og í staðinn þess að bregða þeim nockrum brixlum, sagði hann eckert annað við þá, enn þetta: þèr hugðuð að gjøra mèr íllt, en Guð hefir snúið því mèr til góðs, umfaðmaði þá þar eptir, sem bræður, lèt senda eptir sínum aldraða føður, skeinkti þeim øllum ríflega, og fèck þeim hið fegursta pláts í landinu til ábúðar, hvar þeir høfðu alla hluti yfirfljótanlega; segið mèr nú, børn góð! kunnið þið annars enn elska þennann Jóseph, og þó hafið þið aldrei sèð hann. Í øðru sinni vil eg segja yckur gjør søguna af honum.

Enn framar verð eg að vara yckur við einni ódygð, sem mørgum hefir á

kném

knen komid. Til er þad fólk, sem ecki getur yfir neinu þagad, og med laus-mælgi sinni og þvættingi ablar sér og ödrum mikillar ógjæfu; þvílikir eru og heimskingjar, sem optlega gjöra sjálfum sér lucku-hneckir, því af þeirra sladri rís allshättud sundur-þyckja manna á medal, og þad optlega millum hinna bestu vina; þess vegna fordist þá allir, og þeir, sem þeir hafa skadad, kunna ei annars enn hata þá; þarámót festa allir trúnad til þagmælsks manns, svo ei fær hjá því farid, ad hann abli sér sjálfum gjæfu í einn edur annann máta. Eg vil segja yckur dæmi-sögu þar uppá, sem eg eitthvört sinn hef lesid í bók nockurri.

Sum af yckur vita nú þegar, ad á fyrri tídum, hefir sú mektug þjód til verid, sem menn nefndu Rómverja; þessi þjód hafdi engann Kóng, heldur lét sér stjórna af mörgum gömlum mönnum, sem menn kölludu Rádherra; þessir Rádherrar plögudu ad koma til samans á vissum tímum til ad yfirvega ein og önnur maktárídandi efni, og kjæmi þá eitthvad fyrir, sem almenningur ecki vita mátti, svo vóru allir skuldbundnir

ad leyna þvi. Stundum plǿgudu fedurnir, ad taka sonu sína med sér á þessa samkomu, til þess þeir, sem fyrst lærdu ad þeckja fødurlandsins áliggiandi naudsynjar, fengju elsku til þess, og med því meiri alvørugefni legdu sig eptir ad verda dugandis menn. Þannig plagadi optlega úngmennid Papirius ad vera med fødur sínum, vid þessar Ráds-stefnur. Þá hann einusinni kom heim frá einni þvílíkri samkomu, óskadi módir hans ad fá af honum ad heyra, hvad um daginn hefdi fyrirfallid í Rádinu? min góda módir! sagdi hann, eg vildi feginn segja ydur allt, en mér er þad bannad. Módir hans vildi ecki taka þessa afsøkun gylda, heldur hótadi honum hoggum, ef hann ecki segdi henni alltsaman. Unglíngurinn, sem sá sig í vanda staddann, hitti um sidir uppá þad ród, til ad stilla forvitni módur sinnar, og sinnast þó þagmælsku unni trúr, ad segja henni: ad í dag hefdi verid yfirlagt af Rádinu hvort ecki mundi gott, ad hvorr madur ætti tvær konur í stadinn fyrir eina? naumast hafdi þessi fávísa kona heyrt þetta, fyrri enn hún, sem vitstola, hljóp um kríng og gloprady

í all-

i allar vinkonur sínar þessu leyndar-máli. Þessar báruſt ecki betur af, og allar þuſtu nú daginn eptir á Ráds-ſamkomuna, og ſkræktu þar Rádherrunum deyſu fyrir eyrun, ſvo þeir hugſudu ei annad, enn þær væru gengnar frá vitinu, jafnvel þótt þeir viſſu ecki nockra orſök þar til. Hinn úngi Papirius ſtód þá upp, og med-kénndi: ad hann út af rádaleyſi til ad ſtilla forvitni módur ſinnar, hefdi innbyrl-ad henni þad, ſem konurnar nú klögudu yfir. Rádherrarnir ávítudu hann ad víſu fyrir þad, ad hann hefdi borid of-litla virdíngu fyrir módur ſinni, en þeir lögdu þó mikla áſt á hann fyrir ſkynſemi hans og þagmælſku; ad ſönnu fyrirbudu þeir framvegis ad láta únglinga koma á Rádſtefnur ſínar, af ótta fyrir ad eitt-hvad illt mundi af því leida; en þar-ámóti veittu þeir Papirius einum þá æru, allann hans úngdóm út, ad koma á Rádſtefnurnar, og gáfu honum til æru-minníngar ſérlegt vidurnefni, er fylgdi hans afkomendum, ſem einskonar heid-urs-teikn, fyrir hans hrósverdu þagmælſku.

Eg hefi nú einúngis ſagt yckur þeſſa fráſögu til þeſs, ad þid af henni getid þeckt,

þeckt, hvorsu mikid menn plaga ad virda og launa þagmælskuna; því hvorki hrósa eg athofn þessa únga Rómverja í því, ad hann sagdi módur sinni ósatt, né heldur forvitni hennar, sem vildi kúga drenginn til ad opinbera þad, sem henni kom eckért vid og honum var skipad ad leyna.

Vaktid yckur þess vegna, mínir gódu börn! fyrir allri lausmælgi, og opinberid engann hlut, sem þid vitid ad leyndur á ad vera, þegar samvitska yckar kreinkist ecki þar vid; allir munu annars fordast yckur, sem fjør-ráda-menn, og sjálf eignist þid aldrei svo gódann vin, sem þid megid trúa fyrir yckar launúngar-málum. Allir hata hinn sög-vísa, og jafnvel þeir, sem hann þénar med frétta-burdi sínum; þad eru því einúngis argir aular, sem bresta vitsmuni til ad þeckja, ad þeir skada sjálfa sig mest, er æfa þennann ljóta löst.

En, heimskastir og verstir eru hinir Ópacklátu; eg tala um þá, er ad vormu spori gleyma þegnum velgjørníngum, eda jafnvel verja ómaki til ad skada sína velgjorda-menn; þvílíkar manneskjur vitna augljóslega, ad í þeim býr eckért gott; því

ef

ef þær vilja enga þénustu sýna þeim, er hafa veitt þeim góðgjörðir, hvernig er þá mogulegt, að þær sýni hinum nockra velvild, sem aldrei hafa gjört þeim gott? Þessir mega með réttu kallast ófarsælar manneskjur, því þegar þær eru búnar að sýna, hvörsu illa þær hafa launað þær af þeim meðteknu velgjörðir, svo hefir enginn vilja til að þéna þeim framar. Óþacklátann mann flýja því allir, sem aðra ófreskju, sem menn varast að koma nálægt. Spyrjið, t. d.: yckur sjálf, hvört þið vilduð hafa átt Inkla nockurn fyrir vin yckar? eg skal nú segja yckur söguna af honum:

Inkli þessi var Kaupmaður í Lundúna-borg á Englandi; en í von um að vinna grúa peninga, tók hann sér far á skipi nockru, sem átti að fara til eins þá nýfundins lands, sem nú kallast America. Um þær mundir var land þetta mestann part byggt af Villu-mönnum, sem héldu sér uppi, eins og dýrin, í skógunum. Ferðin luckaðist vel; en þegar þeir vóru komnir undir landið, brast á ógnarlegur stormur, sem hrakti skipið á sker nockurt og braut það í spón.

Allir

Allir þeir, sem ecki vóru syndir, létu þar líf sitt, en þeir, sem nádu landinu vóru án tafar drepnir af þeim villtu. Einúngis Inkli, var svo heppinn ad géta flúid í nærsta skóg, hvar hann snaradi sér nidur milli triánna, óviss um, hvort sulturinn eda hinir villtu mundu fyrra sig lífi. Í þessum svifum heyrdi hann þrusk mikid; villt stúlka kom fram úr einum runninum, sá hvar Inkli lá, og stardi á hann um stund; en í stad þess, ad gjora honum mein, leit hún meinlauslega til hans, og gaf honum teikn ad fylgja sér. Inkli spratt upp og fór á eptir henni, uns þau komu ad kofa einum, tók nú hrædslan ad réna hjá Inkla, því stúlkan sýndi sig ástúdlega, og frambar allskonar ávexti fyrir hann til ad eta, fylgdi honum sídan ad læk einum til ad svala sér. Stúlkan var honum æ ástúdlegri, vakti yfir honum þegar hann svaf, og bar ena náqvæmustu umhyggju fyrir honum. Þannig lifdu þau saman med hinni mestu blídu í nockra mánudi; þau uppfundu fljótt mál eitthvort, med hvorju þau gátu géfid hvort ödru þánka sína til vitundar.

Inkli

Inkli sagdi nú sinni Yarikó (svo hét þessi ágjæta villta stúlka) morgum-sinnum frá, hvornig ástadt væri í sínu fødurlandi, og hvorsu mikill-mismunur væri á því, og eydimørk þeirri, er þau nú væru í; ad menn byggju þar í steinhøllum, reistu í vøgnum, sem hestar væru spenntir fyrir, og bæru allavega lit sín klædi, og annad svoddan. Værir þú komin þángad med mér, sagdi Inkli, o! hvad farsæla skyldi eg þá ecki gjøra þig! stúlku-sképnan grét af gledi, og hljóp tídum nidur á sjóar-klettana, til ad forvitnast um hvort hún sæi eckert skip, sem gæti tekid sig og ástvin sinn heim til hans. Þetta eptirþreyda skip heppnadist henni ad sjá um sidir, enda var hún ecki sein ad gefa þad sínum elskada Inkla til vitundar. Skipid kom ad landi, og bædi fóru um bord á þad, sigldi sídan á burt til eyjar nockurrar, er nefndist Barbados; en á eyju þessari tídkadist mikid mansal, rétt eins og þá fé er selt í Kaupstad. Hinn ágjarni Inkli qvaldist med sjálfum sér, af því, ad hann hefdi ferdast svo lángt burtu í von um ávinníng, en kæmi nú lángtum fátækari

ætti heim, enn hann hefdi verid þá hanni fór af stad. Loksins fell hann uppá þann hvirdilega þánka, ad selja sína vesælings Narikó í æfinlegann þrældóm, til ad fá þó nockra skildínga. Stúlku-sképnan, sem vard þessa vís, fell á kné og grét og bad hann á allar lundir ad selja sig ecki, en oll tár og allar bænir fengu eckért hjálpad. O! þú miskunarlausi týranni! hrópadi hún um sídir: vita skaltú þad, ad eg er ólétt af þínum voldum, og aumkastú þó í hid minnsta yfir barn þitt! hvad þá? svaradi prackarinn: „heyrid þér"! sagdi hann til Kaupmannsins, sem hann ætladi ad selja hana, „hún er ólétt og „því verdur hún 3 pund Sterling dýrari." Kaupmadurinn borgadi og mannskýlan géck burt med peníngana.*)

Hér þagnadi hinn gamli Vrukjær, en bornin stódu med tárin í augunum, og gátu lengi engu ordi uppkomid. Nú, born!

*) Sogu þessari hefir hid snillilega Skáld, Présturinn Hra. Jón Þorláksson, snúid á íslendsk ljódmæli, sem innfærd eru í Gaman og Alvoru 1ta Hefti, bls. 95 til 102. Utlegg.

born! sagdi Ærukjær um sidir, vilduð þid ecki ega þennann Jnkla fyrir vin?

„Gud fordi ockur frá þvi“! svoruđu bornin, „hvørr mundi girnast ad „hafa nockud saman vid slika ófreskju ad sælda“?

Rétt segid þid, svaradi Ærukjær, og þannig þenkja lika adrir; vanþacklæti er sviviridilegasti løstur. Fordist, min gódu born! já, fordist med allri athygli, bædi þennann og alla adra lesti, sem eg hefi tekid yckur vara fyrir; þvi yckar gjørvalla lucka er undir þvi komin, ad fólk þad, sem yckur er samtida, vilji yckar heillir og hamingju og elski yckur; þad gjørir þad lika vissulega þegar þid audsýnid þvi hid sama.

En sérílagi egid þid ad kappkosta ad halda eindrægni og lifa fridsamlega vid þad fólk, sem búa á sama bæ eda i sama húsi, sem þid; þvi þad hefir optast tækifæri til ad vera yckur til vilja og gjøra yckur lifid bærilegt. Foreldrar yckar eru af sjálfum sér hneigdir til ad elska yckur; en ef þid ecki elskid þá aptur á móti, eda erud þeim óhlýdin, svo er hætt vid ad elska þeirra réni til

yckar; og þegar adrir yrdu þess varir, ad þid ecki elſkid foreldra yckar, ſem hafa giört yckur ſvo margt og mikid gott, ſvo mundu þeir álita yckur fyrir vanþacklát börn, ſem enga áſt eda kiær-leika forþénudu. Adgætid einúngis hvorſu mikla mædu foreldrar yckar hafa híngad til haft fyrir yckur: módir yckar fæddi yckur med ſótt og harmqvælum í heim-inn; mátti vaka marga nætur-ſtund og taka uppá ſig margt eitt ómak yckar vegna, á medan þid vörud litil; ſifelt mátti fadir og módir hafa vakandi auga á yckur, ad þid ecki meiddud yckur eda ſærid yckur ad voda; bædi máttu af öll-um kroptum erfida, til ad útvega yckur föt og fædi. Ef þid nú ſamt ſem ádur ecki vildud elſka yckar foreldra, fyrir all-ar þeſſar ómetanlegu velgjördir, væri þad ecki hid meſta óþacklæti? en, þad er ecki einúngis óþacklæti, heldur ſtakleg van-viſka, ef þid ecki vildud, heidra og elſka yckar foreldra, þjóna og hlýda þeim. Þeir eru miklu eldri enn þid; miklu reyndari enn þid; þeir géta kennt yck-ur margt gott; þeir elſka yckar farſæld; og hvorr ſkyldi þvínga þá til þeſſa, ef

þau

þau ecki af fúsum vilja og elsku til yckar-vildu gjöra það? þó þeir á stundum ávítt yckur, banni yckur eitthvað og jafnvel straffi yckur, svo megið þið vita, að það skédur einúngis af elsku til yckar, og vildu víst aldrei taka til þessa, ef það væri ecki til yckar besta, því varla er það mögulegt, að foreldrar hati born sín eda gjöri þeim á móti án orsaka, og þó eg jafnvel sæi það med egin augum, væri eg þó ecki gódur fyrir ad trúa því, af því mér sýnist það vera hid sama, sem ad hata sjálfann sig.

Sama er ad segja um yckar Kénnendur, að þeir hafa allann rétt til yckar elsku og audsveipnis, því þeir elska yckur allt eins trúfast og foreldrar yckar, og leita allteins yckar sanna besta. Það væri því stakt óþackláti af yckur, ef þid ecki vildud elska þá aptur á mót, eda hryggja þá med þrjótsku og þverúd, og sjálf hlytud þid þó mestann skadann; því þegar þid værud búin ad tapa elsku þeirra og kjærleika til yckar, svo mundu þeir ecki lengur kénna yckur med þeirri somu lyst og ánægju, sem þá, er þid sýndud þeim elsku og hlýdni, og yckur

mundi þá falla sár-þüngt ad kæra þad, sem þid nú um stundir finnid svo mikla ánægju í. Keppist því eptir ad auð-sýna yckar Kennendum alla tilbærilega elsku og hlýdni og virdíngu, og verid viss um, ad þeir leggja þá alla stund á, ad leida yckur á dygdanna veg.

Ef þid egid Systkyni eda Skóla-brædur, svo vitid, ad þad er mögulegt, ad þessir géta veitt yckur eins mikla gledi, sem bánægju, allt eptir því, sem þeir elska eda hata yckur. Sé þar inn-byrdis elska, og hvorr keppist vid ad vera ödrum til vilja, svo lifid þid í gódri ein-íngu saman; en sé þarámóti innbyrdis hatur millum yckar, þá íhugid yckur sjálf, hvorsu leidinda-fullt líf þad er, ad neydast til ad hafa umgengni til lengd-ar med þeim, sem þid ecki elskid og ecki heldur elska yckur. Þar fyrir utan er bródir vor eda gódur vinur, sem er í sama húsi og vér, ætíd náqvæmari til ad hjálpa oss enn adrir útifrá, því hann þeckir betur vort ásigkomulag, og vor lucka er honum notasælli enn annara; oss ridur því mikid á ad ná elsku þeirra og velvild.

Ad

Ad lyktum verd eg ad minnast á, ad þegar ad því kémur, ad þid hafid Þjónustu-fólk, þá látid þad umsvam allt finna, ad þid gjörid vel vid þad; þid vitid, ad þid gétid ecki sífellt stadid uppi yfir því. Ef þid byggid einúngis uppá launin, sem þid géfid því, svo mun þad og ecki heldur þjóna meira, enn svo þad komist vítalaust af, og þid rekid þad ecki í burtu. Sjái þad þarámóti ad þid séud nákvæm, vorkunsöm, vingjarnleg og góðgjörandi vid þad, svo mun þad af ýtrustu kroptum vera ydid og trútt og leita yckar sanna gagns í öllum hlutum; því þá hugsar þad med sér: því farsælli, því ánægdari, því ríkari húsbændur ockar verda, því betur gjöra þeir vid ockur, fyrst þeir, ecki med meiri efnum enn þeir hafa, fara ná svo vel med ockur. Látid yckur því annt um ad ná vinsengi yckar heimilis-fólks, med greidvikni, góðgjördum og þacklátsemi; líka svo er yckur naudsynlegt ad ávinna yckur ást og hylli annara útífrá, svo hvörr og einn sé reidubúinn til greidasemi þegar þeir géta og þid medþurfid. Meinid og ecki, ad þad sé nóg ad ná

einúngis hylli hinna ríku og mektugu; sá fátækasti, já, Föru-karlinn fær optlega gjört yckur hinn markverdasta greida, og sú hefir raunin margopt gefist, ad fáteklínguriñ hefir verid ollu láng-minnugri lítils velgjörníngs og miklu greidviknari enn ríkismadurinn.

Þad mátti bródur-sonur minn sanna, sagdi Gottvill, hann væri líklega núna blá-fátækur, ef hann hefdi ecki átt húsgángs-mann fyrir vin. Hvornig stód á því? spurdi Ærukjær. Þad skal eg nú segja ydur, svaradi nágranninn:

Fyri fám árum kom optlega fátækur madur heim á gard þann, hvar frændi minn, sem er Amtmadur, hafdi sitt adsetur, og beiddi ölmusu. Af því madurinn var sár-fátækur, og gat ei unnid sér braud, hrærdist frændi minn tídum til ad greida fyrir honum. Hvorr mundi nú hafa leidt sér í hug, ad þessi vesælings mann-ræfill gæti nockurntíma stadid í þeim sporum, ad verda sínum velgjörara til greida? en þó skédi þad. Svo bar til, ad frændi minn fèck einusinni med póstinum stórann púng med peníngum, fyrir hvorja hann var bedinn

ad

ad innkaupa korn-voru; peníngana lagdi hann nidur í læsta skúffu undir skrif-bordi sínu, og var eg þá viðstaddur, er þetta skédi. Um qvöldið, þegar komid var ad hátta-tíma, var klappad á stofu-dyrnar, og þegar upp vár lokid, stód fátæklíngurinn þar, nærri sprúnginn af mædi, og sagdi Amtmanninum, að hann fyrir stundar-korni hefdi haft vedur af tveimur þjófum í skóginum, sem hefdu tekid rád sín saman, ad leggja um nóttina eld í korn-hlodu hans, svo þeir í mannosiminni gætu lædst inn í húsid og stolid peníngunum. Hann safnadi í þessum vandrædum öllum sínum vinum, og földum ockur allir í korn-hlodunni. Stundu sídar komu þjófarnir, eins og karlinn hafdi sagt, og vildu leggja eld í húsid; en vid handtókum þá, og fengu þeir sín makleg mála-gjöld hjá Yfirvaldinu.

Hefdi nú ecki frændi minn verid svo medaumkunarsamur vid þennann fátæklíng, þá hefdi hann máske sjálfur af or-vhlnun samlagad sig þessum brennu-vorgum, eda ad minnsta kosti ecki komid ad vara vid því, og frændi minn hefdi nú máske verid eins fátækur, sem þessi þurfamadur.

madur. Hvörsu gott er þad þá, ad ega vini, af hvada standi, sem þeir eru.

Já, mikid gott! sagdi Ærukjær framvegis, látid yckur því vera þad nóg, ad einn er madur, til ad hjálpa honum, þegar þid getid; ef þid látid þá fátæku adstodarlausa, þá munu þeir fljótt af húngri og örvhýlnun neydast til ad stela frá yckur, en ef þid hjálpid þeim, þá kunna þeir aptur á þúsundfaldann máta ad verda yckur til nytsemdar. En jafnvel þó þid ecki ætíd hefdud audsjáanlega nytsemd þar af, þá skyldi þó sú innvortis gledi yfir því ad hafa hjálpad einhvörjum vesæling, vera yckur fullkomid endurgjald. Minnist hins fátæka gamla manns fráságu, sem yckur hefir svo vel í ged fallid, og segid mér: vildud þid ecki hafa gefid yckar kjærasta leikfáng til, ad vera sá, sem hefdi endurnært þennann fátæka gamla mann skömmu fyrir hans dauda?

„O já!“ hrópudu börnin, „enn „má eg ecki segja frá sögunni þeirri, „Fadir minn gódur!“ spurdi Karl, og „spratt gladvær upp“ eg kann hana „enn þá reiprennandi.“ Svo seg hana þá,

Þá, sonur minn! svaradi Brukjær, og
Karl hóf eptirfylgjandi qvædi:

---

Lagid er: Hvørt veit hvad skerri' er æfi endi.

1. Eg fèck í hug med ødrum líta
Agætlegt dýr Nashyrninginn,
Og út um portid ferd rèd flýta,
(Fortaldi mèr svo vinur minn,)
Og þetta lysti- uppá -spil,
Eg vildi Ríport gèfa til.

2. Ríkur, flugríkur fjárplógs-granni
Fyrir mèr geck á veginum,
Eg sá gløggt á þeim sama manni,
Svip hans, útliti og atvikum,
Ad hann med sèr uppreiknade
Innfenginn grúa' af skulda-fè.

3. Innstædu-fjár og audinn ríka,
Abatann mikla og Renturnar,
Og hvørt framvegis yrdi líka
Avinnings von stór-høndlunar,
Vildi luckunnar blídu byr
Blása í skaut, sem ádur fyr.

4. Fyrst ríkismannsins hef' ei heiti,
Herra Orgon hann nefna má,
Undan mèr gèck hinn aura-teiti,
Einum og sama vegi á,

Þó

Þó fyrr enn dýrid fundum vèr,
Fyrir oss vard einn madur hèr;
5 Hans høfud skalf af hruma og elli,
Hárid æruverdt grátt ad sjá,
Og sem yfir hans andlit félli,
Æru-frómleika dygdin há;
Afmálud í hans augum var,
Ásýnd náttúru følnadrar.
6. Allt þetta kunni miklu meira
Máli krøptugar tala hans,
Ei þó fylgt hefdi ordum fleira,
Andvarp og bænin þurfa-manns,
En ordsnild nockur megna má
Manns naudsynjum ad skíra frá.
7. Æ! sagdi hann: af miskun mætri
Mætti ydar hræraſt vidqvæmt ged,
Eg á ei neitt, er svølun sætri
Sefa kunni minn þorsta med,
Eg skal ei framar upp frá því
Ydur mæda med bæn á ný.
8. Sú er min von, ad Gud minn gódi,
Grátbeidni brádum heyri min,
Og mig úr heimsins harma-flódi
Heimleidi skjótt í dýrd til sín,
O! gódi Gud! eg um þad bid:
Ad hèr snart megi skiljast vid!

9. Ord-

9. Ordum hann fleirum uppei stundi,
Öldrudum svarar ríkur nú:
Afgamall nærsta meir' enn mundi
Mæla, og nærstum lík ert þú,
Um peninga þó mædir menn,
Svo meir' fáir ad drecka enn.

10. Orœstis gamli armi madur,
Sem enn kallar í brennuvín,
Hálfdaudur nær, svo ølvingladur,
Inn í grøf megir veltast þín.
Sparsemi sá í æsku ann,
Aldradann naud ei kreinkir hann.

11. Eptir þad tal hann á leid vendi,
En, æ! hvad þrúngin sorgar mód,
Hjarta hins gamla hér vid kénndi,
Hrundi um kinnar tára-flód:
Gud veit þad, qvad hinn gamli mann,
Grátin ei fleiru svarar hann.

12. Eg af medaumkun vikna vidur,
Vatni ei augun haldid fá,
Hjartad klemmdist og øll min ydur,
Eg gaf honum mitt Rixort þá,
Og af sýsn hugdi aldri senn,
Ad sjá framar Nasbyrningenn.

13. Eg géck miñ veg, svo hañ því síður
Sæi minn grát; hann bad mig þó
Aptur ad snúa, einka blídur,

Augun sveymudu' í tára-sjó,
ER! sagdi hann, ei annad skil,
En þér hafid misteckid til.
14. Eg vil svo miklu ei vidtaka,
Anægt er vel mitt þurftugt gèd,
Ef gefid mèr þad eitt til baka,
Oldryck mèr kunni svala med,
Eg sagdi: nei! hvad eg nú gaf,
Ydur tilheyrir hèdan af.
15. Eruverdur aldradur madur
Erud þér fyrir sjónum mèr,
Raupid nú víst, svo verdid gladur,
Vin-skérf litinn, sem þørf til ber,
En segid mér: hvar sitjid ad?
Svaradi' hinn gamli uppá þad.
16. Eg hugdi degi sjá hann sídar,
Sjón hans stód enn fyrir augum mèr,
Afmálud best med fremdir fridar,
Frómleik, æru og manndygder.
Sæmleidinni' á mest hugsa vann,
Hvad margs eg skyldi spyrja hann.
17 En, sem þar kom, fèck eg ad heyra,
Ad hann þegar framlidinn var,
Fyrir einum tíma', og ecki meira,
En áshnd hans, sem fyrir mig bar,
Allann bar sama æru-sid,
Eins og í gjær þá rædumst vid.
18. Eg

18. Eg geck þó nær, og ad nam hyggja,
Eina Psálma-bók fékk þar sjed,
Og braudleif nockurn ásamt liggja,
A hins framlidna hördum bed,
Hvar hann sína sár-lúna önd,
Signada fól í Drottins hönd.
19. Ef nú fégjarni aura-madur,
Uppá hann med mér hefdi sjed,
Er hann í gjær svo íll-viljadur,
Ordskémmdi þúngum grimmleik med,
Og ógudlegri afneitun,
En engri gjöf'ne medaumkun.
20. Hvörr veit, nema ad hañ nú klagi,
Fyrir Herrans dóm (er miskun ann,)
Ad med hardhdgis hjartalagi,
Hrakyrdti sannann þurfa-mann.
Svala-drycks honum synjadi,
Sídarst ádur hann vidskyldi.

Nú, börn mín! sagdi Erukjær, haldid þid ecki ad sú gledi og ánægja, ad hafa hrest og endurnært þetta vesælings gamalmenni skommu fyrir hans andlát, hafa verid Rixorts virdi! „o! „hrópadi Karl, eg hefdi ecki horst í ad „géfa til þess fallegu spesiuna mína, sem „hann módur-bródir minn gaf mér!“ „og eg raudu skrif-toblunna mína!“ sagdi

Jakob. „Og eg leikhnöttinn og keil„urnar mínar!" sagdi Hans.

Þid hafid rétt ad mæla, börn mín gód! svaradi Ærukjær, þvílíkt eptirlæti borga menn sjaldan of dýrt; verid þess vegna sparsöm, svo þid getid ætíd haft nockud afgángs, hvar med þid fáid áunnid yckur þvílíka gledi; látid eckert tækifæri hjálída, ad þid ecki linid og léttid naud yckar medbrædra, og ablid þeim gledi. Spyrjid ecki fyrst, hvörr hann sé, sem þid viljid hjálpa, ecki heldur eptir standi hans eda trúarbrøgdum; en látid yckur einúngis nægja þad, ad hann er manneskja eins og þid.

Já, þid egid líka ad vera vorkunsöm vid Fénad yckar, því dýrin hafa einnig tilfinníngu af qvøl og kjæti, og hvörr vildi jafnvel vera svo miskunarlaus, ad gjøra þeim nockurt mein ad orsakalausu? yckar egid gagn lídur líka undir því, ef þid stad-þreytid, eda drep-meidid hesta yckar, eda gefid þeim ecki naudsynlegt fódur á vetr-ar-tímanum og látid þá drepast í hor, og sama er ad segja um annann qvik-fénad; þegar nú adrir sjá í frá sjá, hvörsu hardsvírud og misk-unar-

ynarlaus þid erud vid yckar egin skepnur, sem Gud hefir lént yckur til þarfa og lifs-uppheldis, þá vænta þeir ætid minna góds af yckur, eru því sidur yckar vinir og lángtum ófúsari til ad þéna yckur; og finna skulud þid þad, ad skepnurnar sjálfar eru í vissann máta þacklátar vid yckur, ef þid ástundid ad fara vel og vægilega med þær. Hundurinn, kötturinn, fuglinn og fl. þeckja dável sína velgjorda-menn frá ødrum, og ástunda ad þjóna þeim med hlýdni og vina-látum. Einhvorn-tíma minnist eg ad hafa lesid stutta fráfogu um þacklátsemi Ljóns nockurs; viljid þid heyra hana? børn litlu!

„O já! æ já!" sogdu børnin, og Arukjær byrjadi hana:

Þénari nockurr í Róma-borg, ad nafni Andrókles, sem ratad hafdi í eitthvort óbótamál, strauk á burt, til ad umflýja forþént straff; hann hitti fyrir hellir einn í skógi nockrum, hvar hann um sinn lét fyrirberast; en naumast hafdi hann snarad sér nidur, ádur enn fullordid Ljón rakst þar inn á hann, sem oskradi ógurlega, og hellt upp einum fætinum. Andrókles meinti í fyrstu, þad vildi rífa

 sig

sig í sundur, og skalf og titradi, eins og laufblad fyrir vindi, af hrædslu; en sem Ljónid gjørdi honum eckért mein, heldur héldt áfram ad øskra, og halda á lopt fætinum, þá vogadi hann loksins ad grenslast eptir hvad þad mundi skada. Hann fann, þegar hann þukladi um løppina, ad flýs af tré hafdi stúngist nedan í hana upp á milli klónna, hvørja hann med skyndi dró út, og batt vasa-klut sinum um sárid. Ljónid vard nú svo tamt og spakt, sem hundur, og færdi Andrókles kjøt á hvørjum degi til fædu, sem hann steikti á hellu-steini í sólar-hitanum. Þanníg lifdi Andrókles lánga tíma, uns Ljón hans, mót venju, ecki kom heim aptur og hvarf med øllu. Hann hugsadi nú med sér, ad misgjørníngur sinn væri gleymdur, og vogadi þess vegna ad fara aptur til Róma-borgar; en honum vard ecki kápan úr klædinu; hann þecktist skjótt, var tekinn til fánga, og dæmdur til ad sundur-rífast af villu-dýrum. Dagurinn kom, og Andrókles var færdur fram á plátsid, hvar hann átti ad láta lífid. Hér var nú otad á hann grimmu og sterku Ljóni, sem med øskri og gapanda gini

 gøddi

ædði fram að honum til ar rísa hann í sig; en þegar Ljónið kom til hans, stóð það kyrrt og virdti manninn fyrir sér, og þeckti, að það var sá hinn sami, sem síðsina hafdi dregið úr löpp þess, dinglaði hálanum, og geck allt í kríngum Andrókles með allrahanda vina-látum, gefandi honum til vitundar gledi þá, sem það hefði af fundi þeirra. Alla nærverandi rak í roga-stans, og spurdu hvörju þetta sætti? Andrókles sagði satt frá öllu, og Keisarinn tilgaf honum misgjörníng sinn, og lét setja bædi hann og hið þacklátsama Ljón á fríjann fót.

Nú, börn litlu! þessi frásaga er lifandi sannfæríng um það, hvörsu gott það er að gjöra vel á móti dýrunum, og höndla medaumkunarsamlega með þau.

Ef þið nú breytið eptir öllu því, er eg hefi kénnt yckur, þá munuð þið vissulega lifa farsælu lífi. Að sönnu kann á stundum að mæta yckur eitthvað ó-gédfellt, og þið munuð kannské mörgu sinni audsýna ödrum þénustu og greiðvikni, án þess, að hafa nockur sýnileg not þar af; því ecki er víst, að allir, sem kríngum yckur eru, hafi bædi vit og góð-

góðvilja til að láta greiðvikni yckar til þeirra ætíð áſannaſt, þó munu fleſtir af þeim viſſulega gjöra það; verðið þar fyrir ecki ſtrax hörð og óvingjarnleg þó einhverr þeſs á millum launi yckur með vanþacklæti. Bóndinn ſáir þó ætíð akur ſin aptur, þó opt innfalli misvoxtur. Vanlucka kann optlega að mæta yckur, ſem ecki ſtendur í yckar valdi að hamla, þó er hún ætíð léttbærari enn ſú, er þið ſjálf hafið bakað yckur; því fleſtir aumkaſt yfir yckur, og rétta yckur hjálpar-hönd, þegar þið eruð ecki ſjálf ſkuld í yckar ógjæfu, en ſéuð þið það, er foraktið víſt, og enginn hefir þá meðliðun með yckur; ſærſtir, já, máſké enginn vilji þá vera yckur til aðſtoðar, og ſjálf munuð þið þar á ofan auka yckar mótlæti með enum bitruſtu brixlum.

Við þeſſi orð ſtóð Erukjær upp, og með því mjög var álidið, beiddi hvorr vel fyrir öðrum, og gengu ſíðan til hvílu.

---

## Fjórda Qvøld-ræda.
### Um Samvitskuna og Trúarbrøgdin.

Jafnvel þó Ærukjær væri svo valinkunnur madur, ad hann vid øll tækifæri léti sér vera annt um, ad vera øllum mønnum til gledi og ánægju, skorti þar þó ecki vondskufullar manneskjur, sem stundudu eptir ad steypa honum í ólucku. Einn af þeim somu, sem lengdist eptir hans dauda, til ad ná á sídan embætti hans, gat ei bedid þess tíma, er sá gódi gamli madur vildi rýma frá honum, og sókti þess vegna eptir ad koma honum í Furstans ónád, svo hann yrdi settur af embættinu. Med sanni gat hann eckert íllt um hann sagt, og vard því ad taka til lýginnar; honum luckadist og, ad segra svo mál sitt fyrir Furstanum, ad hann tók ad trúa því, ad Ærukjær hefdi opt og tídum hagad sér svikfamlega í embættis útréttingum sínum til ad gjora sjálfann sig ríkann. Furstinn vard nú afar-reidur og var kominn á flugstig ad útgefa skipun, ad snara þessum saklausa gamla manni í fjotur og fáng-

fángelsi; en af því hann var vitur og réttvís Stjórnari, svo lét hann reidi sína réna, og tók daginn eptir ad ransaka þessa sök enn þá grandgæfilegar.

Á medan flaug ryktid víds vegar um þad, ad Wrukjær skyldi affetjast, og kastast í fángelsi, sem illrædismadur og Drottins-svikari; þessi fregn barst honum strax til eyrna, en hann hlyddi á hana med þeirri hugar-rósemi, sem gód samvitska einúngis fær gefid elskendum sínum, og kom enn þá qvøldid eptir, med sinni vanalegu gaunðværd undir Lindi-tréd, eins og eckert hefdi ískorist. Gottvill var ad sønnu kominn, en þó í von þeirri, annadhvort eldúngis ecki ad finna sinn ógjæfusama nágranna, edur í hid minnsta stórum selmts-fullann og hriggvann; en hvørsu mátti hann ecki furda sig yfir, þá hinn gódi gamli madur, kom allteins gladvær og ánægdur, sem hann var vanur.

„Nú, gódi nágranni minn!" sagdi Gottvill: „satt ad segja, svo gengur „þad nú yfir mig, hvørsu gladvær og „rólegur þer gétid verid, í þvílíkri daud„ans hættu, sem þér nú erud staddur."

þvi

Því svo? kjæri Gottvill! svaradi Wrukjær, máské þér haldid eg sé sekur? „Hvört eg held þér séud sekir?" svaradi Gottvill: „Gud veit, eg held „þér séud eins saklaus, sem barnid í „módur-lífi; en haldi Furstinn ydur sek- „ann? ef þér verdid settur af embætt- „inu og kastad í fángelsi? og ydar ve- „sælings smælingjar hérna. — —" Tár-in streymdu nidur af augum hans.

Gódi, medaumkunarsami madur! svaradi Wrukjær, og þrykti svo alúd-lega hönd hans; Fursti vor er sérdeilis réttvís, trúid mér, þar mun ecki vera svo mikil ógnar hætta á ferdum, og lát-um vera ad svo óliklega færi, ad lygin hefdi yfir-hönd, haldid þér þá, þad væri svo skélfileg ólucka, ad lida eitt sinn lít-inn brétt fyrir sakleysi? gáid ad, vinur minn! þegar allt er rétt hérna (og bendti á brjóstid á sér) þá er enga hættu ad óttast, þá eru allir hlutir þolanlegir.

Elsku börnin mín! sagdi hann, (og snéri sér til þeirra), þid skiljid enn þá ecki, hvad eg nú samstundis sagt hefi, en géfid gaum ad, eg vil útleggja þad fyrir yckur: ad eg sýni mig svo rólegann í dag,

dag, jafnvel þó stórt mótlæti voſt yfir mé, gjöri eg til þeſs, ad kénna yckur ad vera eins lynd, ef einhvørt mótgángur kynni uppá ad falla fyrir yckur. Þid hafid heyrt, ad allt hvad yckur er bodid ad gjøra, midar eingöngu til yckar sönnu farsældar, en um þá farsæld, ſem þid kunnid ad ávinna yckur, ef þid fylgid øllum mínum áminningum, hef eg enn nú eckért ſagt yckur, og hún er þad, er eg ſjálfur finn til, og ſem uppiheldur mér ſvo ánægdum og gladværum, ſem þid nú ſjáid, midt í yfirhángandi háſka. Þeſſi farsæld heitir góð ſamvitſka, edur fullviſſa um vort ſakleyſi; þad er ágjætur féſjódur, mín gódu børn! ſvo lengi vér høfum góda ſamvitſku, gétum vér aldrei ordid ófarsælir, hvørnig ſem oſs annars gánga villdi, en þegar vér einuſinni høfum tapad henni, þá er øll vor ſanna farsæld horfin. Medvitund ſú, ad vér ſéum ſjálfir ſkuld í vorum mótgángi, qvelur oſs optlega meira enn allt þad vér lídum; en vitum vér þarámóti, ad vér ecki ſjálfir høfum verdſkuldad þær hørmúngar, ſem mæta oſs, erum vér rólegir og hughrauſtir, eins og þid ſjáid mig nú vera.

Eg

Eg minnist enn þá með gleði eins manns, af hvørs eptirdæmi eg fyrst lærði, hvørsu ómetanlegur hlutur góð Samvitska er; það var Prestur nockurr, sem fyri mørgum árum var sálaður, og hvørs undirvísun eg á mestann part að þacka, að eg þegar á únga aldri fécк elsku til Dygðanna; hann var mikill ágætis-maður, og bæði skynsamur óg góðgjarn umfram marga aðra. Honum vildi það til, að steinleið yfir hann einusinni í prédikunar-stól; hann komst að sönnu til sjálfs síns aptur, en bar þó þennann sjúkdóm, sem menn kalla Niðurfalls-sýki, alla æfi síðan. Eg vitjaði hans daglega, og eg meðkénni, að eg gat ecki tára bundist, svo opt, sem eg leit þennann ágæta mann, en þegar hann tók að tala, svo hvarf øll mín sorg í sama vetfángi. Hann talaði um veikleika sinn með stakri rósemd og hugar-hreysti; hann endurminntist sérhvørs góðverks, sem hann um lífstíð sína gjørt hafði, með yfirvættis gleði; hans ánægja magnaðist størum við að sjá, hvørsu innilega kona hans og børn og vinir sorguðu fyrir honum; og opt bar það við, að þeir,

M sem

sem leitudust vid ad hughreysta hann, medtóku lángtum meiri huggun af honum; hvar fyrir grátid þid? sagdi hann, med hinu hýrasta bragdi: þid vitid, ad eg er ecki sjálfur orsök til þessa veikleika, hann mun snart burt-lída og enda taka, í hid minnsta mun hann ecki gjøra mig med øllu huglausann, og ecki ræna mig luckú minni; og þessi hans hugprýdi varadi til hans sídasta andartaks.

Medan Ærukjær þannig taladi, kom einn af Furstans þénurum, og færdi honum forsiglad bréf; hann braut strax upp innsiglid og las, sem fylgir:

„Minn elskuverdi Ærukjær!"
„Eg hefi brotid á móti ydur í því,
„ad eg festi augna-bliks trú til eins
„smánarlegs lygara og róg-berara;
„dular-feldurinn er dreginn af þessum
„vondskufulla manni, og ydar
„sakleysi frelsad; tilgéfid ydar Fursta,
„sem ydvar sinnar ysirþjónar, og af
„einlægu hjarta-þeli elskar ydur."

Hana þá, nágranni! hrópadi Ærukjær, sagdi eg ydur ecki, ad Fursti vor væri

væri réttſýnn og góður Herra, og það mundi ecki verda ſvo hættuſamt fyrir mig; og látum vera, honum hefdi ecki luckaſt að komaſt að raun um lýgi míns baktalara, eg vildi þá hafa aumkad þá báða; Furſtann, ſokum ſinnar raungu meiníngar, og hinn, vegna ſinnar illſku, en ſjálfann mig, jafnvel í fjötrum og fángelſi, vilda eg hafa haldið farſælli enn þá báda til ſamans. Sjáið, born mín! ſvo mikils er góð ſamvitſka verd; hvorr hana hefir, hann þarf ecki að qvída fyrir nockru vondu, og komi nockud óþægilegt fram við hann, ſvo gétur hann lidið það með þolinmædi. Ef þið óſkið yckur hins ſama ſinnislags, ſvo ſtundið eptir að ödlaſt það, og að lifa þannig, ſem eg hefi kénnt yckur; þó gétið þið ecki, mín gódu born! (ſvo eg ſegi yckur ſatt og rétt) ordið ſvo gladvær og farſæl, ſem Preſturinn, vinur minn, hvorn eg nefndi ádan, var midt í ſínum þjáníngum, og ſem þið hafið ſjed mig þetta qvöld, ef þið ecki vitið og gjorið meira, enn eg híngað til hefi kénnt yckur; eg hefi eingis kénnt yckur, hvornin þið ſkulud breyta, að þið ecki ſjálf ſtofnid yckur í

 ógjæfu

ögjæfu, en þar géfast líka mörg tilfelli, sem þid ecki med eginn kroptum fáid af vendt, og ólucka er þó ætíd ólucka; ad vísu er ólán þad, sem madur ecki bakar sér sjálfur miklu léttbærara, enn hitt, er kémur af sjálfs-voldum; en í hvoru tveggi tilfellinu er þad þó þjáníngarfullt, og ecki einúngis þá, er vér hösum í þad ratad, heldur og einnig á medan vér óttumst fyrir því, eda leidum oss í huga ad þad géti hendt ockur. Einn, sem á hey sitt á flædi-engi, óttast fyrir, ad hann máské verdi ecki búinn ad ná því fyrir stór-strauminn, og sjórinn fleyti því burt. Hinn, sem leggur sig til hvíldar ad qvöldi, hugsar med sér: hvorr veit nema einhvorr þjófurinn brjótist inn í nótt, og steli frá mér? eda hús mitt og allt hvad eg á, brenni upp til kaldra kola? og hvorsu ánægjulitlir eru þeir, sem þannig lifa millum vonar og ótta, og hvorr er sá, er géti fullvissad þá um, ad þessi eda þvílík óláns tilfelli hendi þá ecki? og þó einhvorr gjæti þad, hvorsu skélfileg mætti þó ecki daudans adkoma vera honum, sem ómögulega verdur umflúin? eg hefi

má-

máské látid yckja mitt slædi-engi fyrir adra; máské eg nú á þessari nóttu megi yfirgefa mitt hús, og skilja vid foreldra, vid vini, vid allt hvad mer kjært er; og hvorninn mun þad þá til gánga fyrir mér? gaumgjæfid þid alla hluti, born! sem eg hingad til hefi sagt yckur, sem grandgjæfilegast, þid gétid þó aldrei med því burtrýmt þessum ótta. En glediid yckur, mín bestu born! þar finnst enn eitt medal, med hvorju honum verdur burtrýmt; þid hafid hér og þar ad undanförnu, heyrt nockud af því, en þad er naudsynlegt, ad þid vitid þad réttilega, því þid erud nú á þeim aldri, ad yckur er ecki vorkun á ad þeckja þad.

Íhugid þess vegna med gódri eptirtekt og sögnudi: ad þar er einn Gud til, einn Gud, sem hefir skapad og vidheldur oss, og ollu því til er; einn Gud, sem veit og sier allt, hvad vér hugsum og gjørum; einn Gud, sem ecki lætur oss verda ólucku lega, ef vér ecki sjálfir gjørum oss þad. Þad er sá Gud, sem hefir skapad þá fogru sól, sem svo þægilega upplýsir og vermir vora jord; sem um vor-tímann lætur grasid og blómstur-

ir vaxa, og sumarid færa oss allrahanda veglega áverti, sem fæda og smacka oss svo ágiæta vel; sem lætur dogg og regn og vinda koma, án hvorra eckért mundi vaxa, og eckért hafa nockurn framgáng; sá Gud, sem hefir giört jørdina til þægilegs bústadar og uppheldis fyrir oss, og allar skapadar skèpnur; eptir hvørs skipun fuglarnir syngia há-tónum, lækirnir uppvella, blómstrin svitna, og útrænan hressir oss í sumar-hitanum; sá Gud, sem svo furdanlega hefir tilbúid vorn líkama, og hans limu, og géfid oss ódaudlega sálu med øllum hennar dýrmætu eginlegleikum.

Sá Gud, sem géfur oss svona mikid gott, skyldi hann kunna ad hata oss, edur giøra oss óluckulega? nei, mín gódu børn! enganveginn; setjid þvi allt yckar traust til hans, og óttist ecki; eckért skédur án hans vilja, og hans vilji er, ad þid verdid farsæl, ef þid ecki siálf giørid yckur ófarsæl. Séum vér gódar og réttskickadar manneskjur, svo høfum vér eckért ad óttast, og megum óqvidnir á hvørju dags qvøldi leggja oss til hvíldar, þared svo mektug og góð vera vakir yfir

oss,

oss, og verndar oss. Af þessu hôfst eptirfylgjandi samtal:

Hansmann. Fadir minn gódur! hvar er þá Gud?

Erukjær. Han er hér, barnid mitt! og allstadar, jafnvel þó vér ecki med likamlegum augum sáum hann sied, vegna þess, ad hann er ósýnileg vera, sem ecki hefir þvílíkann líkama, sem vér hofum, hvorn vér gêtum skodad og þreisad á.

Jakob. Hvornig vita menn þá ad hann sé hér, fyrst hann er ecki sýnilegur?

Erukjær. Heyrdu, sonur minn! hefir þú nockurn tíma sied mína sálu?

Jakob. Nei! hana hefi eg ecki sied.

Erukjær. Trúir þú þá ecki, ad eg vissulega hafi sálu, og ad hún sé hér nálæg?

Jakob. O já! því trúi eg.

Erukjær. Hvors vegna trúir þú því?

Jakob. (hugsar sig um), af því eg heyri ydur tala.

Erukjær. Af því þú heyrir mig tala? sálin mín framfærir þó ecki eginlega ordin, heldur minn munnur og túnga, sem eru partar míns líkama — máské af því þú heyrir mig tala skynsamlega, af því þú heyrir ad eg ecki út-tala tómt

hljóðið, heldur þvílíkt hljóð, hvar með þánkarnir géfast til kynna; var það ecki svo þú meintir?

Jakob. Jú! en eg gat ecki komið svona orðum að því.

Wrukjær. Gott og vel! svo trúir þú þá, að mín sála sé hér nálæg, vegna þess, að hún framqvæmir og gjörir nockuð, nefnilega: þánkana, sem af munni mínum verða út-talaðir; kiæmist þú nú að raun um það, að Guð og svo framqvæmdi og gjörði nockuð hér og allstaðar í heiminum, mundir þú ecki af somu ástæðu sannfærast um það, að hann sé hér og allstaðar nálægur?

Jakob. Jú! það má eg, því hvornig kynni maður að gjöra nockuð í þeim stað, hvar hann ecki væri nálægur?

Wrukjær. Þú hefir rétt, minn kjæri! látum ockur þá sjá, hvort Guð verulega framqvæmir og verkar nockuð hér, og kríngum oss? adgættu þetta stóra Lindi-tré, sem útbreiðir sínar miklu greinir og qvisti allt um kríng yfir oss; hvorr mun hafa gjört það?

Jakob. Æ! það er víst vaxið uppúr jörðunni.

Wru-

Þrukjær. Það er að vísu satt, en jörðin hlýtur þá að hafa nockurn sérlegann krapt, þareð hún af einu litlu fræ-korni gétur framleidt svo stórt tré. Hvorr géfur nú jörðunni þann krapt, að framleiða gras, jurtir, strá og tré af sínu skauti? af egin efnum gétur hún ecki gjört það, því hún er dauð, og þú veitst að dauður lífslaus hlutur, fær öldúngis eckért gjört.

Gottvill. Með leyfi yðar, nágranni góður! að tala eitt orð: mér sýnist þetta ecki svo öldúngis rétt; skoðið þér þetta vasa-sigur-verk, það er þó lífslaus dauður hlutur, engu að síður gétur það gjört nockuð? snýr það ecki sjálst vísirnum um kríng, sem sýnir tímana?

Þrukjær. Það gjörir svo, góði vin! en mundi það nockurn tíma hafa lært þetta af sjálfu sér, hefði enginn sigurverka-smiður til verið, sem hefði inn-réttað það þannig? þar fyrir er það ecki eginlega sjálst sigur-verkið, heldur miklu framar smiðurinn, sem dregur vísirinn um kríng, jafnvel þó hann sé frá-verandi, og hvorsu lengi mundi sigur-verkið yðar gánga, ef enginn kynni að draga

draga þad upp, þegar þad væri útgeng-id? 24 stundir eda hærst 30, og þá stædi vísirinn kyrr.

Allt eins, mín gódu börn! sagdi Ærukjær enn framar, er því háttad med vora jörd, aldrei mundi hún af sjálfri sér hafa hast þá kunst ad framleida nockud, hefdi Gud ecki tillagt henni þennann krapt, og mundi ecki þessi hennar krapt-ur á augna-bliki aptur horfinn vera, ef Gud ecki vidhéldi honum? um veturinn er hún líka sem daud, þá er hún eins og úthlaupid sigur-verk, sem stendur kyrrt, en med sérhvörju vori, dregur hinn ó-endanlega vísi og máttugi Skapari, þetta sigur-verk upp aptur, svo þad gengur á ný, og ad nýju framleidir aptur nockud; þá útspringa blödin af knoppunum; þá opnar sig jardarinnar skaut, svo ad ó-teljandi fjöldi, grasa, jurta og blómstra framkémur; þá stendur náttúran allt um kríng, í öllum sínum óveikludum úng-dóms-krapti, allt eins og hún væri þá ný-komin frá síns Skapara höndum.

En ecki einúngis þetta, heldur þess-ara hluta sjálfda Tilvera, sannfærir mig um stadfasta samverkun guddómlegrar

verku,

veru, sem 'alla hluti framleidt hefir; hætti þessi vera nockurn tíma ad vid-halda ollum þessum hlutum í þeirra til-veru, þá mundu þeir aptur á sama augna-bliki hverfa, og ad engu verda, eins og þeir í fyrstu vóru, edur hætta ad vera til framar. Þar fyrir verkar Gud hvort eitt augna-blik, í sérhvorjum hlut í heiminum, og því hlýtur hann vid sér-hvorn hlut nálægur ad vera.

Gledjid yckur þess vegna, 'born mín gód! og óttist aldrei fyrir nockru vondu, þegar þid hafid þá medvitund, ad þid hafid giort, sem yckur ber; því Gud er med oss, hvar helst, sem vér erum, hvort vér vokum eda sofum, og þessa vors Guds vilji er, ad vér séum farsælir bædi hér, og líka eptir daudann í hinu odru lífi, hvar um eg strax vil segja yckur nockud meira; hann krefur þar fyrir eink-is framar, enn ad þid gjorid þad allt, er eg híngad til hefi kénnt yckur, og ad þid setjid yckar traust fullkomlega til hans, í ollum yckar áliggjandi naud-synjum, því hann er sá, sem bædi hefir mátt og vilja til ad hjálpa yckur. Þetta, kjæru born! þetta gjordi vinur minn, sá ród-

ráðvandi Prestur, sem, eins og eg sagði yður áðan, bar með sérlegri hugprýði og umburðarlyndi sinn þúnga veikleika, og deyði farsæll og ánægður.

Optlega sagði hann mér: eg mundi vissulega hafa torthýnst í eymð minni, hefði ecki mitt óbluga traust til míns Guðs viðhaldið mér; því þegar hörmúngin var megnust, þá bað eg til Guðs, þá qvartaði eg heimuglega fyrir honum um ástand mitt, og eg vissi ecki sjálfur hvörninn það skéði, að eg eptir sérhvörja bæn, varð svo rólegur og ánægður, sem mig ecké̂rt bristi.

Svo sagði vinur minn, og mín góðu börn! hann hafði oldúngis rétt. Trúið gömlum manni, sem líka hefir reynt það; bæn hans réttskickaða, sem væntir allra góðra hluta frá Guði, og setur allt sitt traust eingöngis til hans, sú bæn, segi eg, verður aldrei óbænheyrð; jafnvel þó Guð ecki ætíð géfi oss það, sem vér umbiðjum, þá géfur hann oss vissulega annað betra, í þess stað, sem er: hugarins rósemi, ánægju með vort hlutskipti, og þá vissustu von um, að vér framvegis munum verða lángtum

far-

farsælli. Og hvornig kynni hann að gefa oss það, sem vèr umbiðjum? vèr hofum ecki vit á, hvað oss er fyrir bestu, og biðjum því opt um hluti þá, sem mundu gjøra oss hvað ólucku legasta; og uppá það skal eg segja yckur stutta dæmi-sogu:

Þar var eitt sinn bóndi nockurr, sem tiúði, ecképt væri betra, enn ríkdómur og miklir peníngar, og hefir væntanlega opt beðið Guð þar um; en hvorníg sem því hefir verið varið, þá fann hann einusinni fésjóð á akri sínum, með nockrum þúsund dolum. Undireins og hann sá sig eigara af þessum peníngum, seldi hann ábýlis-jørð sína, er hann sjálfur átti, og flutti sig í Kaupstaðinn. Hann lagði nú frá sèr allt erfiði, og konunni leitst best að fylgja honum þar í; børnin gengu eins og logi yfir akur, og uppólust í vommum og skommum. Faðirinn drack og spilaði dag og nótt og svallaði í mesta máta; hans illa vondu synir, tóku til að stela, fyrst frá sjálfum honum, og því næst oðrum; einn þeirra varð tekinn og hengdur, annar strauk á burt til framandi þjóða; móðirin komst

fyrir lausklætl og lîdilegheit í Tukthúsid, og fadirinn deydi loksins í vesöld og volœdi. Hvad gegnudu nú peníngarnir þessum? hvorsu miklu farsœlli mundi hann ecki hafa verid, hefdi hann lifad fyrr í sinu fyrra standi? sjáid, börn mín! svo lítid vitum vér optlega, hvors vér óskum.

Gud einn veit hvad ofs best hentar, og hann gjörir vissulega þá gódu og gudhrœddu farsæla. Eg var sjúkur, og þá hrópadi eg: Gud minn! miskuna þig yfir mig! og eg vard heilbrygdur; eg var fátœkur, og þá fell eg fram og bad, og Gud hjálpadi mér, og gaf mér tœkifœri til þess, ad nœra mig med erfidi minu, svo eg engann skort lidi; eg erfidadi, og þackadi honum, og vard hughraustur og rólegur Svo gódgjordasamur, min kjæru börn! og svo miskunsamur er vor Gud, og svo kjæra hefir hann ofs, og þó hann hefdi ecki, þann tíma eg hrópadi til hans, leyst mig frá sjúkdómi mínum og fátœkt, þá vildi eg samt ecki hafa efast um hans gjœdsku, eg vildi hafa ályktad þaraf, ad þad mundi gott fyrir mig, ad vera enn lengur sjúkur og enn lengur fátœkur, og sú hugsan

mundi

mundi hafa gjort mig rósamann; þvi opt er þad harla nytsamlegt, mín gódu börn! fyrir oss, ad hafa mótlæti til lengdar. Hvorsu margur mundi ecki hafa vondur ordid, hefdi hönum allt af vel gengid? luckan gjörir menn audveldlega ofur-hugada og drambsama, en neydin rekur oss aptur til, ad hugsa um oss og vora skyldu. Eg sjálfur, mín elskulegu! mundi vissulega hafa verid miklu lakari enn eg er, ef mér hefdi ecki, einkum á mínum úngdóms árum, margt á móti gengid; en, sem eg fann, ad optast eitthvad vondt kom fram vid mig, svo opt, sem eg ecki hafdi breytt réttilega; svo hugsadi eg, þú skalt þó einhvorn tíma reyna, hvort þér muni ecki betur gánga, ef þú kappkostar ad gjora ei annad, enn hvad gott er, og frá þeim tíma hefir mér aldrei til muna gengid á móti.

Ad sönnu hefir sidan hitt mig eitt og annad mótdrægt, en allt vard mér þó miklu léttbærara enn ádur, eg fann líka strax, ad sú ógjæfa, sem eg ecki hafdi sjálfur bakad mér, vard ad lyktum til míns mesta ábata. T. d.: eg fékk einu-

finni tækifæri, til ad kynnast vid mikils-háttar Herramann, sem vildi sjóleidis ferdast til annara landa; þessi Herra-madur hafdi fengid svo mikla ást á mér, ad hann lofadi mér, ad gjora mig rík-ann og álitlegann mann, ef eg vildi fylgjast med honum á þessari reisu. Hvorr var þar til fúsari enn eg? allur útbúnadur til ferdar vorrar var þegar gjordur, en þá fell eg hastarlega í lángvarandi sjúk-dóm; þetta sýndist mér nú svo mikill gæfu-hnekkir fyrir mig, ad þar brast lít-id á, ad eg af sávitsku og óþolinmædi minni, ecki mogladi á móti forsjón Guds, sem sýndist fyrirmuna mér þetta lucku-medal; því Herramadurinn, sem ecki mátti bída lengur, ferdadist burt, en eg sat eptir, og oll sú von, sem hann mér gjort hafdi, var nú úti. Eg var óhugg-andi; en hvad fêck eg ad heyra eptir nockrar vikur? ecki annad enn þad, ad skipid, á hvorju hann sigldi og eg átti líka med ad fara, var yfirfallid og tekid af sjóreifurum, en gjorvallt fólkid, sem á því var, selt í þrældóm. Nú kann-adist eg fyrst vid gjædsku og speki þeirr-ar guddómlegu forsjónar, og mína egin

heimsku

heimsku, ad eg dirfdist ad efa um þessa Guds gódgyrni; frá þeim tíma hef eg sífellt verid ánægdur med mitt hlutskipti, þó eg hafi ecki gétad skilid, hvörninn eitt edur annad gæti ordid mér ad gódu. Þad væri annars-stakleg ofdirfska, ef menn vildu beidast eptir, ad fá þetta skilid í sérhvörju tilfelli, því vér hlytum þá, eins og sá alvitri Gud, ad hafa þá gáfu, ad sjá fyrirfram ókomna hluti, ef vér vissum hvad med framtídinni mundi eptirfylgja, af því edur því, er oss mætir, en þetta hefir Gud, af sérlegum orsökum, viljad láta vera oss hulid.

Þegar mér, á úngdóms-árum mínum, tilfell eitthvad mótdrægt, og eg gat ecki skilid til hvörra nota þad mundi verda mér, leitadist skynsamur og gódur madur nockurr vid, sem fleira hafdi reynt enn eg, ad hugga mig; hann sagdi mér einusinni medal annars dæmi sinn, hvörjum eg aldrei fæ gleymt, hann var mér æ ætíd í fersku minni þar eptir, svo opt, sem nockud ópægilegt mætti mér.

„Jafnvel þó eg," sagdi þessi minn æruverdi vinur, „legdi ecki meiri stund „á nockurn hlut enn þann, ad gjörast

„farsæll og þócknast bædi Gudi og mönn„um; þá fell þó einusinni uppá fyrir
„mér þvílikt mótlæti, sem framar venju
„hrelldi mig. Í þeirri minni ángist, tók
„eg ad efast um, ad þad væri víst og
„satt, ad Gud bæri umsorgun fyrir
„manneskjunum, og vildi gjøra þá hjálp„lega; þessi efasemi pressadi út af aug„um mér, hin beiskustu tár, og med tár„in í augunum datt eg útaf sofinn. Mér
„sýndist þá í draumi, sem eg væri á
„vegi nockrum, á hvørjum eg hafdi villt
„farid; eg stód nockra stund, án þess
„ad vita, hvört eg skyldi halda. Med„an eg var í þessum þaunkum, kom þar
„madur til mín, sem lofadi ad vísa mér
„veginn, og fara med mér; eg fylgdi
„honum eptir, og hann færdi mig til húsa
„eins manns, sem tók yfrid vel á móti
„oss, og leit út til ad vera einn hinn
„besti madur; þegar vid gengum burt
„þadan, sá eg ad fylgjari minn tók med
„sér ofurfallegann sylfur-bikar, er stód
„á bordinu. Daginn eptir hittum vid
„annad hús; en madurinn, sem þar bjó,
„var svo hardur og vondur og afund„inn, ad vid naumast fengum leyfi til
„ad

„ad ſnara ockur nidur í myrkra-ſkot eitt,
„er þar var í koſanum, eg heyrdi held-
„ur eckért annad til þeſſa manns enn
„blót og ſkammaryrdi og formælíngar;
„í ſtuttu máli ad ſegja: hann leit út
„til ad vera hinn meſti þorpari; hjá
„þeſſum ſkyldi leidtogi minn bíkarinn
„eptir, þann er hann tók frá hinum
„góda manni; þridja daginn hittum vid
„fyrir frómann og rádvandann mann,
„ſem audſýndi ockur alla mogulega góð-
„vild og greidaſemi; í hans hús lagdi
„fylgdar-madur minn eld, ſvo þad brann
„upp ad bjortu báli. Hárin riſu á hofdi
„mér, út af þeſſum vondſku-verkum, en
„þar eg gat ecki aleinn ratad veginn, ſvo
„hlaut eg ad fylgja þeſſum mínum leid-
„toga; hann færdi mig enn þá til eins
„ypparlegs manns, ſem leit út til ad
„vera gódſemdin ſjálf, fylgjari minn
„lét, ſem vegurinn væri ſér ecki rétt kunn-
„ur, og taladi til vid þenna góda mann,
„ad hann léti beina ſér leid; húſbónd-
„inn var ljúfur á þad, og ſkipadi ſyni
„ſínum ad fara med ockur, ſvo vid ecki
„ſkyldum fara villir vega, en, ſem vid
„vorum naumaſt komnir uppá brú neckra,

 „ſem

,, sem vid áttum yfir ad fara, hratt hann
,, syni vors góda velgjorda-manns, ofan
,, í vatns-fallid, svo hann druknadi; vid
,, þetta vidurstyggilega verk, vard eg nærst-
,, um frá mér numinn, og hrópadi: o!
,, þú skrímsli af manneskju og gudlausi
,, húdar-skélmir! heldur kys eg ad fara
,, aleinn villur vega í óbygdri eydimörku
,, medal villu-dýra, alla æfi mína, enn
,, gánga þér lengur jafnsídis á jördunni,
,, sem hvort augna-blik er reidubúin til
,, ad uppsvelgja þig. En, sem eg var þetta
,, ad tala, leyptradi í skyndingu mikil
,, birta í kríngum mig, og leidtogi minn
,, tók uppá sig meir enn mannlega ásynd
,, og vegsemd; eg féll til jardar, en hann
,, reisti mig upp og sagdi: **lær þú ad
,, þeckja vegu Guds forsjónar!** bikar-
,, inn, sem eg tók *hjá þeim fyrsta góda
,, manni*, er vid gistum hjá, var eitrad-
,, ur, og þess vegna gaf eg hann hinum
,, vonda til straffs; undir ösku þess húss,
,, er eg uppbrenndi, liggur mikill fésjódur,
,, sem þessi gódgjordasami madur, er svo
,, vel tók á móti ockur, skal finna, med
,, hvorjum hann mun stipta mikid gott;
,, en únglíngurinn, sem eg steypti í mód-
,, una

„una, hafdi í sinni ad myrda fødur sinn „vid fyrsta hentugleika, og hefdi med sinu „lastafulla líferni, ordid ylna og plága „módur sinnar, ef lifad hefdi. Tilbid „þú Gud, og forlát þig uppá hann „einann, en varastú ad dæma um vegu „hans forsjónar!"

Þannig hljódadi draumur vinar míns, og þegar þid á sídan odlist meiri reynslu, þá munud þid sjá á sjálfum yckur og ødrum þúsund dæmi þar uppá, hvørnig þad, er menn álita fyrir lucku, er í sjálfu sér optlega ólucka, og þar þvert á móti: ad mørg ógjæfusøm tilfelli, eru Guds vegleguftu velgjørningar vid oss mennina.

Skyldi nú svo vera, ad eckert annad enn stjeldur mótgángur og andstreymi væri yckur áqvardad, og þid jafnvel ættud ad deyja í vésøld og volædi; svo hafid þid þó ætíd, þegar þid ecki sjálf erud skuld í yckar mótlæti, þá huggun og innvortis rósemi, sem enginn fær frá yckur tekid; og má gjora yckur þessa huggun betur kunna.

Min elskulegu børn! vér erum allir ódaudlegir og forgaungum aldrei; ad

víssu

vísu mun þessi líkami, sem er samann-settur af holdi og beinum, eitt sinn deyja og for-rotna, en vèr siálfir, vèr, sem bú-um í þessum líkomum, munum þá kóm-ast til eins annars lífs, hvar vèr full-komlega farsælir, fyrir utan siúkdóm og qvöl og skort, munum eilífliega lifa; þessu hefir Gud lofad oss, þegar vèr í þessu lífi kappkostum af ollu megni, ad verda gódar og dygdugar manneskjur. Þeir, sem þad ecki giora, munu ad sonnu og svo lifa eilífliega, en þeim mun þó ecki vel vegna, heldur munu þeir, hvar þeir þá koma, lída forþént straff fyrir alla sína klæki.

Einhvorn tíma sídar, mín elskulegu! vil eg segja yckur hvar af eg hefi allt þetta numid, er eg hefi á undanfornum qvöld-stundum sagt yckur, en þángad til eg fæ ráð-rúm til þess, megid þid óhætt trúa ordum mínum, og af hegdun minni siáid þid giorla, ad eg hlýt ad hafa ó-tvíluga þeckíngu þar um.

Eg er nú ordinn gamall madur, og líkami minn, mun innann skamms deyja;

deyja; æ! mín gódu börn! væri eg ecki fullviss um þad, ad mitt eginlega Eg, þad er: mín sála væri ódaudleg, vissi eg ecki, ad vor gódi Gud, sem allt híngad til hefir látid mér svo vel gánga í heimi þessum, vildi og svo eptir dauda míns ilskama annast mig og ad sér taka, hjálpa mér og mig hólpinn gjora; hvorsu vesæll mundi eg þá vera? en eg veit þad, eg veit þad svo víst, sem eg sje þessar stjornur blika á þeim háa himni; eg mun lifa, og lifa bendankega sælla lífi, enn allir Kóngar í veroldinni megnudu ad veita mér.

Og þid, mín gódu börn! þid skulud og loksins fylgja mér eptir í þetta betra og eilífa líf, ef þid leggid kapp á ad fara vaxandi í vísdómi og dygd; þá munum vid sjást ad nýju, og sá fognudur yfir. oss, yfir vorri farsæld, og í vorum góda Gudi, sem sameinadi oss aptur, skal vidhaldast án alls enda.

Mín allra kjærustu börn! látid mig, o! látid mig fá tekid þessa huggun med mér í grof mína; þá huggun, ad þid vilsjid

viljid hlýda yckar gamla födur, yckar vin, sem elskar yckur og yckar vel-lídun svo trúlega, svo innilega, og þar med gjöra yckur verduga þeirrar farsældar, til hvörrar eg nú brádlega undan yckur géng. Segid mér, mín hjartans dýrmætu elskulegu börn! segid mér, má eg reida mig uppá þad?

Börnin kostudu sér grátandi í fángid á sínum elskada födur, og gáfu til kynna sín loford med þeigjandi tárum. Þá mælti Ærukjær þessi eptirtektaverdu ord: **hvörn, sem Gud sérdeilislega vill blessa, honum géfur hann fróm og hlýdin börn!** og allra þeirra hjörtu klöckudu af þvílíkri tilfinníngu, sem ecki verdur med ordum útmálud.



# Litill Viðbætir

um

# Barna-Aga.

## Søgu-korn af Klemensi og børnum hans.

Að uppala børn sín þannig, að þau verði guðhræddir og gagnlegir menn, er ú skylda foreldranna, sem hvað mest er í varið, og þeim til mikilla gagns-muna. Sjálfur Guð hefir boðið oss: að uppala børn vor í aga og um-vøndun til Drottins, og aldrei býður hann oss annað enn það, sem oss er sjálfum til gagns og góða. Sá, sem haldið hefir børnum sínum til Guðs ótta, og látið þau læra það á úngdóms-árun-um, hvar með þau á síðan géta unnið sér brauð, og agað þau réttilega, hann kann og, fyrir Guðs fulltíngi, að vænta kjærleika, hlýðni og hjálpar af þeim í aldurdómi sínum; en hafi børnin ekki í

tíma lært ad óttast Gud, hvornig getá menn þá vænt, ad þau muni heidra foreldra sína? séu þau ecki vanin til audsveipni í úngdóminum, hvornig skylu þau þá vera hlýdin, þegar foreldrarnir eru hrumir ordnir og fá ei þvíngad þau med makt? Þad er þad, sem er orsök til, ad svo margir foreldrar mega á þeirra hrörlegu elli-árum sæta óþægd og illsku, já, því midur, bölvi og barsmíd af börnunum þeirra, og þá eru vissulega sjálfir foreldrarnir orsök í barnanna ógæfu. Leggid þar fyrir besta huga á, minir vinir! öllu framar ad uppala réttilega þau börn, sem Gud gefur ydur, og gjörid ydur ei í hugar-lund, þad sé lafhægt. Enda þegar menn einúngis typta börnin og hirta bresti þeirra, getur straffid hæglega ordid annadhvort um of edur van. Einn ímyndar sér, þad sé einúngis fólgid í því ad lemja vel á börnum sínum; hann hýdir þau þá vid hvört tækifæri, og þess vegna fá börnin einúngis ótta fyrir honum, en elska hann aldrei. Annar er ótta-bundinn, ad hann muni kúga allann kjark úr börnum sínum, hirtir þau þar fyrir aldrei, heldur

keblar þau þarámóti allt ofmikið, og lát- ur þáu sjálf-ráð vera; fyrir það verða þau svo einþyck, að þau síðan aldrei vilja hegða sér eptir öðru, enn þeirra egin vild; hve mikið varðar þá ei um, að hitta þann rétta meðal-veg? Eckért skyldi mér kjærara vera, enn ef eg gæti vísað ydur á hann, og kénnt ydur hvorn- ig þér egið að upp-ala born ydar, Gudi til dýrdar, þeim til hamingju og ydur til gledi; eg vil þess vegna fyrst segja ydur frá sögu einni, sem sýna mun, hve stórri ógæfu það veldur, að vera of- hardur við born sín.

Það var einusinni rádsvinnur og gagnlegur madur, ad nafni Klemens. Fadir hans var bóndi, og hinn mesti dánumadur; hann átti litinn gard og mörg born; þar nú ecki nema eitt af þeim gat fengid gardinn eptir hans dag, lét hann þá adra sonu sína læra hand- verk, svo þeir med ærlegu móti gætu forsorgad sig í framtídinni. Son sinn Klemens féck hann til læríngar Járn- smid nockrum. Í þessu breytti hann, sem kristinn og gódur fadir; hví það er enn besti arfa-hluti, sem þér getid eptirskilid

børnum ydar, ad láta þau læra ad vinna sèr braud.

Nú hagadi því svo, ad smidur sá, er Klemens lærdi hjá, lèt børn sín í øllu hafa þeirra eginn vilja; þegar Klemens med húsbóndá sínum og konu hans gèck til dagverdar, láu børnin fram á bordid, ódu med høndunum nidri í fötunum, og tíndu þad besta úr þeim. Allt optast þagdi smidurinn, sem fiskur, en þá þau gjørdust heldur svæsin í þessu, og hann þá hastadi á þau, svo skjældu børnin túlann framan í hann, edur og fleygdu skeidum sínum og fóru ad nudda á móti, og állt þetta umbar fadirinn. Þetta qvaldi nú Klemens svo mikid, einkum þar hann ei þordi ad mæla nockud, ad hann tídt sór vid sjálfann sig, ad ef hann ætti nockurntíma børn, skyldi hann venja þau odruvísi.

Þá hann nú hafdi fullnumid handverk sitt, reisti hann uppá þad í nockur ár, og sá þá líka ecki ósjaldan, þar hann erfidadi, illa upp-alin og sjálf-rád born, svo hann styrktist í áformi því, ad aga sín skár. Eptir ad hann um nockurra ára tíma hafdi erfidad hjá velkunn-

kunnandi smidum, kom hann heim aptur og stofnsetti nú ad reisa bú. Nú litadist hann um eptir stúlku, sem honum félli í ged, og hefdi nockud til besta.

Hve ágætt væri Þad, ef allir úngir menn vildu fylgja dæmi hans, og ei hugsa til trúlofunar fyrr enn Þeir sæu sig megnuga um ad forsorga konuna; nei, jafnskjótt og einn piltur er firmdur, og á stundum fyrr, skal hann ega kjærustu. Hin fyrsta er hin besta, sem hann trúlofast; sé hún ad eins snoppu-fögur, svo er nóg, hvort hún kann nockud edur eckért, hvort hún á nockud edur eckért. Þegar Þau svo eru trú-lofud, hugsa Þau um eckért annad, enn ad koma saman hid brádasta; Þau gifta sig, hvorugt Þeirra kann nockud, hlada nidur börnum, og endalokin verda örbyrgd og volædi.

Klemens var hyggnari, og vard Því líka heppnari; hann var alÞecktur, bædi sem gagnlegur smidur og vandadur madur; honum var Því al-hægt ad fá hvorrar vænnrar og velesnadrar stúlku í sveitinni, sem hann vildi. Innan skamms fann hann Þvílíka eina, drack brúd-kaup sitt til hennar, og hans Karín,

 (svo

(svo hét hans únga kona) kom árid eptir í barns-sæng ad syni. Hann var nefndur Hans, og á honum vildi nú Klemens sýna, ad hann kynni ad aga børn sín, svo þau ei verda skyldu sérlynd.

Jafn-skjótt og drengurinn var missiris-gamall, og fór ad sá nockurt vit, brúkadi Klemens strax vid hann vöndinn hvert skipti, sem hann hrein af keipum; þad var daudleg synd, vilja flestir af ydur segja, ad strýkja saklaust barnid! því þér trúid ei, ad børn ydar séu sérlynd, edur egi ad hirtast þar fyrir, fyrr enn þau eru ordin svo gømul, ad þau berlega géta sýnt ydur þeirra illsku bædi í ordum og verkum. En þá er þad opt of-seint, og þad, sem ádur kunni ad lagfærast med litilli ráddníngu, gétur þá ei skéd med mørgum hýdíngum. Undireins og børnin hafa vit á ad sýna illsku, hafa þau og nóg vit til ad skilja, hvarfyrir í þau er lagt; og þegar þau hafa skynbragd á því, og menn svo hirta þau hóflega, svo er vel gjørt ad byrja þad snemma.

Þad gjørdi nú Klemens, og hann sá þeckjanlegann ávøxt þar af, því drengur

ürinn vard ad skömmu bragdi hid mesta spektar- og þægdar-barn, sem aldrei sýndi nockra einþycktni, heldur lét sér vel lynda allt þad, sem foreldrar hans vildu. Nockrum árum seinna átti kona Klemensar dóttur, sem var kollud Marín. Hún var ogud med sama hætti, og vard einnig mjøg sidsøm stúlka.

Jafnskjótt og børn þessi tvø vóru 6 edur 7 vetra, lét fadirinn þau ydugelega gánga í skóla; og svo opt hann fann Skólameistarann, mælti hann ávalt: kjæri Skólameistari! gleym ecki vendinum, børn megu ei vanta hann, ef nockud á úr þeim ad verda. Nú var Skólameistarinn og sá madur, sem eckért ómak gjordi sér fyrir børnum, heldur setti þeim einúngis fyrir eina Lectsíu, og lagdi svo uppá þau, þegar þau ecki stódu fullkomin skil á henni. Þar fyrir kénndu þessar barna-kindur á vendinum eins í skólanum, sem heima.

Svo lengi Hans og Marín vóru korn-úng, géck þetta allsæmilega, því þá nádi þeirra skilníngur ei vídar, enn þau meintu, ad þad fadir þeirra og Skólameistari gjordi vid þau, þad væri rétt

 gjört,

gjört, og kynni ecki ad vera ódru-vísi, en þegar þau vóru ordin 15 til 16 vetra, og fengu þó sleingingar vid hvört tækifæri, svo tóku þau ad hafa adra þánka, og skynja ad þau skedi ótréttur.

Þannig er því varid, mínir vinir! á þeim aldri géta menn hæglega vangád sín, med því ad brúka of-mikla hard-breyskni; börnin egu ad undanförnu þannig ad vera ögud, ad þau þá ecki skulu þurfa högg; því séu þau þá brúkud, svo vestna börnin meira vid þau enn batna. Þannig fór þad og einmidt hér fyrir Klemensar börnum.

Nú merkti sonurinn opt, ad fadirinn lamdi hann ad ósekju; því væri hann í smidjunni, og eitt járn-stycki brinni í eldinum, hét þad strax, ad hann hefdi bláfid ofmikid, og drengurinn feck högg. Slæi hann ecki nógu skjótt og fast med rek-hamrinum, reid ad auga-bragdi högg á hnacka honum, var þaradauki hrakyrdtur og kalladur klaufi og nauts-haus, þótt hann slæi af öllu megni. Víst ad sonnu þordi hann hvörki ad mjæmta né skræmta, ef hann ei vildi fá fleiri högg,

en

en hann hafdi þó sína þánka fyrir sig sjálfann. Hann fèck svo stórt hatur til fodur síns, ad hann aldrei skeytti um hjá honum ad vera, utan væri hann neyddur þar til. Smámsaman tók hann ad gèfa fodurnum hulfil-yrdi, en þad þoldi Alemens enganveginn, heldur lamdi hann því meir, og batt med því grátt ofan á svart.

Sömu kjörum sætti dóttirin; hún gat aldrei gjört nockud svo honum líkadi, en var jafnadarlega barin, hvar fyrir hún loksins vard, sem vitfyrríngur, svo til einkis vard nýt. Brytí hún einhvörn leirpottinn, og fadirinn yrdi þess var, svo dángladi hann strax vel á henni, legdi hún sítid unt of ad eldinum, var lodrungurinn vís, med þessu adqvædi: þú gètur steikt þad upp á augnabliki, sem eg vinn mér inn á heilu ári. Vildi hún nú í odru sinni gjöra þad betur og maturinn var þá ei nóg sodinn, svo fèck hún aptur á barsmíd ad kènna, og þá hèt þad: gètur þú ecki, þín vitlausa ambátt! lagt ad eldinum og matbúid í tíma?

Eg veit vel hvad þèr hugsid, þèr gott fólk! þèr hugsid: þetta var og ærid hardt;

hardt. En gætid ad, hvørt ei muhu ꝩ́ medal ydar finnast margir foreldrar þeir, sem eins undarlega fara ad rádi sina vid børn þeirra; margir, sem kresja meira af børnunum, enn þau annadhvørt hafa vit, á, edur sá afkastad, hirta þau þó undir eins og þau ei géta gjørt þeim til hæfis. En ná skulum vér strax sá ad sjá, hvørr ávøxturinn verdur af því- líkri hardúd.

Þá Hans var 18 vetra og þóktist vita, ad hann mundi eins sterkur og fadir hans, vildi hann ei lengur lída barsmíd, hann tók þá á móti fødurnum, hèllt høndum hans, þegar karlinn vildi géfa honum uppá, ellegar hann jafnvel reif af honum vøndinn, og ad lokunum vardi sonurinn sig all-sterklega, því Klemens vard nálega hamhleypa, þegar Hans ecki stód graf-kyrr, og lèt sig lemja; þar vid fylltust bádir slíkri grimd og heiptar-huga, ad þeir optlega fluguft á í smidjunni, med glóandi járnum á lopti.

Loksins vard Hans leidur af lífi þessu; hann hafdi nú ad fullu numid handverk sitt, og girntist því heldur ad vera hjá framandi enn fødur sínum; hann

hann ſtal þá 10 dölum frá þeim góda Klemenſi, bjó í laumi um tjorgur ſinar og ſtrauk. Tiltæki þetta má enginn þenkja kunni ad affakaſt med hardbreyſkni fodur hans. Hefdi hann verid gott barn, ſvo hefdi hann heldur kyrr verid hjá fodur ſínum, hvorſu mikid vondt hann enn hefdi mátt þola, og enda þegar fodurſins hardúd hefdi neydt hann til ad forláta hann, ſvo hefdi hann þó ei aukid ſynd þeirri ofan á, ad ſtela frá honum; en honum luckadiſt þad líka mátulega vel, ſem vér nú ſáum ad heyra.

Hans vár nú hjarta-gladur, ad hann var ſloppinn af ſángelſi ſinu, og ordinn ſinn eiginn herra; ha! þenkti hann med ſjálfum ſér! þegar hinir adrir ſveinar ádur géngu á dryckju-hús ſín, og gjordu ſig glada, þordir þú aldrei ad ſláſt í for med þeim; þegar þeir ſkémtu ſér med keilu-ſpili edur danſi, máttir þú hyraſt kyrr heima; nú hefir enginn yfir þér ad ſegja, nú ſkalt þú lifa í gódu yfirlæti. Hann tók þá ad hella ſig fullann, og gjora ſér til góda; og þad lét hann gánga, ſvo lengi hann hafdi einn ſkilding;

ing; en loksins þá þeir vóru uppgengn-ir, rédist hann í vist hjá smid einum.

Nú hefdi allt þetta enn þá kunn-ad ad bætast; en Hans hafdi ad und-anförnu aldrei vitad af nockri skemtun ad segja; þarámóti hafdi hann nú feng-id smeck á rússi, svo hann vard hid af-hrakslegasta asskúm, gat ecki unnid, en lá annann hvörn dag í dryckju-slarki á verts-húsum. Húsbóndi hans gaf hon-um farar-leysi, og enginn vildi hafa hann í þjónustu, sakir hans ómennsku og lasta-fulla liffernis. Hann hafdi því engin önnur úrrædi, enn ad taka þjónustu vid eitt leigt stridsmanna Regiment; en nú sock hann allt meira og meira í lesti og ljótann lifnad, kom auga-fullur á vakt-ina, svaf á henni, og mátti því marg-sinnis hlaupa spids-rót, og þar hann þó, eptir allar þvílíkar rádníngar, ecki hætti ad drecka, féck hann flóga-veiki, lá nærsta hart haldinn missiris tíma og dó ad lokunum, þá hann hafdi fjóra um tvítugt.

Í sjúkdómi sínum rann hann til sjálfs síns, harmadi sitt fyrra líferni, og mælti opt: eg hefi verid stór-syndari, strokid og stolid frá fodur mínum, stytt

daga

daga mína með lastafullri líferni. Guð fyrirgéfi föður mínum! hann var hin fyrsta orsök til ógæfu minnar, með því hann var of-harður við mig, og leyfði mér aldrei nockra skémtun.

Þannig fer það, mínir vinir! þegar foreldrarnir eru allt of harðir við born sín; það er enda hættu-efni að neita þeim meinlausra og leyfilegra skémtana. Hefði Klemens látið son sinn koma á manna-mót, og leyft honum að skémta sér með oðrum ráðsvinnum úngmennum, hefði hann, til að géta, aldrei fallið til lasta-lífernis. En þegar úngmenni eitt hefir aldrei notið nockurra fríheita eður skémtana, og hann þá síðan verður sinn eiginn herra, svo er hann allt eins og ótaminn-foli, sem slítur sig lausann og hleypur skyndilega á hvað, sem fyrir verður. Hann er svo sólginn í skémtanir, að hann gjörir engann mun á því, sem er sæmilegt eður ósæmilegt, saknæmt eður gagnlegt. Viljið þér þá ætlast til, að born yðar hegði sér, sem ráðvandir menn, þegar þau sleppa út í heiminn, og ega sjálf sér að stjórna, svo neitið þeim aldrei um sómasamleg frí-

heit og ſkémtanir; en gætid þeſs einúngis ad þau ecki gjøri ofmikid þar af, og hafid grandgæfilega tilſjón á, ad þau ecki géfi ſig i ſveit annara enn þeirra, ſem eru rádvandir menn til ords og ædis.

Nú til dótturinnar. Hennar kjør voru ecki betri. Hún var veſæl qvenn-væſla, ſem ecki gat varid ſig á móti ſødur ſínum, og hlaut því ad lída alla hans hardýdgi. Um tvítugs aldur var hún rétt ſnotur ſtúlka, en hérvilluleg og hug-kágud. Aldrei þordi hún ad líta til karlmanns þótt rádvandur væri, því ſídur ræda vid hann, yrdi Klemens þeſs var, lamdi hann á henni, og rak á dyr.

Med ſlíkri adferd þenkti hann ad koma í veg fyrir, ad hún ecki ſkyldi trúlof-aſt nockrum ødrum enn þeim, hann leyſdi. En einmidt þeſſi ſterka þvíngun kom því til leidar, ad hún í mordi leitadiſt vid ad ná fundi karlmanna, ſvo opt hún gat, og ſkeytti jafn-mikid um, hvert heldur þad vóru rádvandir menn, edur flyſjúngar. Ad lokunum komſt hún í heimuglegann kunníngſkap vid laſtafullann úngann þorpara, ſem var ſmala-ſtrákur á næſta bæ, er ſtutt ad ſegja, lagdiſt med henni.

Þegar stundir lidu, vard þad þeckjanlegt á henni, ad hún mundi ecki einsömul. Aldrei grunadi Klemens slíkt, heldur trúdi hann sinni egin varateckt svo vel, ad hann var med ollu ugglaus. Módirin merkti á móti eitthvad mundi bogid, kalladi dótturina á eintal, og þvíngadi hana eptir lánga mædu til ad játa þad. Hvad skyldi nú hér gjora? módurinn var allt of sorgbitin til ad skútyrda dótturina. Marín harmadi, og bad hana fyrir alla muni ad segja þad ecki fødur sínum, því hann mundi vissulega berja sig til óbóta, ef þess vís yrdi. Módirin aumkadi sig þá yfir hana, og hét henni ad leyna því svo lengi mogulegt væri.

Nú tóku nágrannarnir ad hafa þetta á spodunum, og nockrir af þeim gáfu enda Klemensi í skyn grun þeirra um þetta efni, en hann trúdi engu þar af, og ansadi einúngis, ad hann hefdi betur gætt dóttur sinnar enn svo, ad slíkt gæti skéd, ad sonnu tjádi hann konu sinni hvad nábúar hans hofdu hann frædt-ann, en hún bardi þad nidur og sagdi, ad dóttur þeirra hefdi nockra hríd verid

lasin. Því trúdi hann strax, og gjördi sér hér um enga Þánka framar.

Loks kom sá tími, á hvorjum hún skyldi barnid fæda. Hún kénndi þess qvöld eitt sidla, og sagdi módur sinni heimuglega. Nú hófst fyrst fyrir allri alvöru þeirra ángist fyrir Klemensi. Módirin lét þá dótturina fara út í hús eitt, og birladi manni sínum inn, ad henni væri illt og hefdi ordid ad hátta. Med Þad lét hann sér nægja, og lagdi sig ugglaus til svefns. Ad því búnu hljóp módirin strax út til Marínar sinnar, og hjálpadi henni Þad besta hún gat; en hvornig Þad géck til, þá dó barnid í höndum Þeim. Hvad var nú hér ad gjöra? segdi Þær Klemensi Þad, svo vóru Þær bádar ógæfulegar. Þarámóti virdtist Þeim nú, ad Þad væri hægt ad leyna því, Þar barnid væri daudt. Módirin tók þá barnid og gróf Þad strax ena sömu nótt, Þar í aldingardi, svo enginn vissi. Dóttirin kom á fætur aptur innan fárra daga; fadirinn efadi um ekkért, og allt Þetta var nú ad nockru leiti hjálidid.

En þó Þessar ógæfulegu manneskjur væru ad sönnu óhræddar um ad áklag-

ast

ast af sôrum, þar allt þetta hafdi svo dult farid, svo hofdu þær þó enn nú þann versta áklagara í þeirra eginn barmi. Þeirra vonda samvitska lét þær enga ró hafa, hvorki nótt né dag; Módirin mælti tídum vid Dótturina: æ! Marín hvad er þad, vid hofum gjört? hve vel hefdum vid farid ad rádi ockar, ef vid hefdum í tíma auglýst fodur þínum allt saman! dótturin svaradi henni: Æ! já, módir gód! eg er svo hjarta-klemmd, ad eg nú kysi mér heldur daudann, enn ad lifa alla-jafna í ángist þessari. Þad var opt ad því komid, ad hún mundi gánga til Yfirvaldsins og lýsa þessu, en módirin hughreýsti hana, sem hún gat, svo ad hún ad sonnu ecki gjordi þad, en þó hitadi þad henni æ meir og meir um hjarta-ræturnar.

Samvitska! samvitska! mínir vinir! á engum hlut rídur oss meira í heiminum, enn ad hafa góda samvitsku. Þótt vér egum í honum aldrei svo mikid upp á móti, erum vér þó eigi óyærulegir, svo lengi vér ad eins vitum med sjálfum oss, ad vér lifum sem kristnir, sem réttsickadir menn, og erum ei sjálfir

sök í því vonda, sem oss mætir, en hös-
um. vér þarámóti þýngt samvitsku vora
með vondum verkum, svo að hún nagar
oss og qvelur, svo eruin vér allri gæsu
sneyddir, þó vér jafnvel ættum allt ver-
aldarinnar ríkidæmi, og oss gengi allt að
óskum; hefum vér þá ecki stærstu orsök
að keppast eptir, og ydka oss í, að hafa
óskerta samvitsku bædi við Gud og menn.

Þá Marin hafdi nockra hríd geng-
id í þessari hugar-ángist, bar svo undir,
að hún einn dag gëck í kirkju; Prest-
urinn prédikadi yfir þessa grein: 1 Kor.
4, 5. Drottinn kémur, sá er auglýsa
mun einnig það, sem í myrkrunum
er hulid, og opinber gjøra rádin hjartn-
anna. Ut af grein þessari taladi hann
med morgum ordum um það, hve mik-
id heimuglegt vondt og huldar syndir
drýgdar væru í heiminum, og að synd-
ararnir þenktu að eins um, að fá at-
hæfnir sínar huldar fyrir manna augum,
en til hins alvitra Guds og þeirra egin
samvitsku þenktu þeir alls eckert. Hann
syndi, hve ógnarlega þvílíkir syndarar
dragi sig á tálar. G.id, sagdi hann,
lætur ecki að sér hæda, þó þeir hugsi
að

ad enginn vitl þeirra vondu verk, mun þó Gud auglýsa þau. Vond samvitska nockurra skal qvelja þá, svo hardlega, ad þeir siálfir munu þau vidurkénna, og géti þeir forherdt hjarta sitt á móti samvitskunnar áminníngum, og hulid syndir þeirra, svo lengi þeir lifa; svo kémur þó sá efsti dagur, á hvorjum Drottinn mun auglýsa þad, sem í myrkrunum er hulid. Hann advaradi þess vegna, þvílíka heimuglega syndara ad játa í tíma þeirra syndir, og med sannri umvendun leitast vid ad komast hjá fordæmíngunni.

Þá Marín heyrdi þetta, sló samvitskan hana; hún vard mjög skélfd og féll loks í ómeginn. Var hún borin út úr kirkjunni og færd inn í þad næsta hús; þá hún raknadi aptur úr aungvitinu, tók hún sár-grætilega ad barma sér og sagdi rétt og satt frá, ad hún nýlega hefdi barn alid, og hvornig þad fór. Fadir hennar var heima, en þegar hlupu nockrir til hans, sem sögdu, ad dóttur hans hefdi ordid illt í kirkjunni, og verid borin inn í þad næsta hús, hvar grúi manna væri samankominn, og ad hún hefdi sagt þeim frá ógnarlegum hlutum.

Klemens skundadi strax þángad og trad sér igégnum mann-þraungina, þar til hann komst til dóttur sinnar. Hún sat þá, sem onnur saka-sképna, er leidast skal til aftoku-stadarins; nú óttadist hún ei framar fodur sinn, heldur skýrdi honum frá ein-ardlega hvornig allt hefdi tilgengid. Klemens vard þá svo skélfdur, ad ei mátti ordi uppkoma, edur sig úr stad hræra. Nú þenkti hann ei ad lemja á henni en tók ad æpa og gráta, sem barn. Dótturin sagdi þá til hans: o! Fadir! látum oss nú deyja hvort med odru. Hefdud þér ei barid ockur vesl-ings born svo ofbodslega, þá væri bródir minn ei strokinn, og þessi ógæfa ei heldur skén, því bædi módir mín og eg leyndum því einúngis af ótta vid ydur. Klemens ansadi engu, en var allt jafnt ad gráta og belja.

Oll sokin var nú Yfirvaldinu tilkynnt; þau vóru oll sett í fángelsi, og þá málid var ransakad, var Marín og módur hennar dæmd í Tukthúsid þeirra lífstíd; en fadirinn var laus látinn, þar hann eckért hafdi af þessu vitad; en svo stóra skapraun og vanvirdu jók honum

allt

allt þetta, ad hann ei gat litid lengur þann stad, þar fyrir seldi hann allt hvad hann átti, og fór utan-lands.

Sjáid hér, þér gott fólk! hve stórum óheillum valdid sær allt of-strángur Barna-agi; en vér megum ei heldur þar fyrir kébla born vor í of-miklu dáleti, og láta þau ad öllu leiti fara ad eginn vild; eg skal strax segja ydur frá einu dœmi uppá, ad þad fer ecki betur. Á medan bornin eru úng og hafa enganna skilning, verda menn ad neydast til á stundum ad brúka vondinn, ef þau eck'i egu ad verda sérlundud, en menn egu svo snemma, sem mogulegt er, ad tal'a til ad setja þeim fyrir sjónir med skynsamlegum hætti, þeirra ávirdíngar, eptir því, sem þau fá þad gripid, og þad enda med kjærleika, fyrir utan þjóst, án vagns og súk-yrda; med slíkum kjærlegum hugvekjum, ávinnst tídum miklu meira, enn med barsmíd, en vilji þad ei hjálpa, hljóta menn ad taka til vandarins. Þad eru sérílagi brestir nockrir vissir, sem menn aldrei megu láta óhegnda, þegar bornin í eitt skipti edur tvo, eru þar um advorud, og þau þó

ecki

ecki lagfæra sig; þad er: Lygi og Einþyckni. Foreldrarnir eru tídum sjálfir sök í, ad bornin venjast á ad ljúga; þeir nenna ecki ad grenslast eptir, hvort þad, sem bornin segja, eru sannindi, heldur taka ad eins á móti hvorjum þeim afsökunum, sem þau framfæra, án þess ad spyrja frekar eptir þeim, og þegar bornin þá einusinni edur tvisvar merkja, ad þeim tekst ad segja foreldrunum nockud ósatt, án þess ad verda fundin ad því, vita þau vel ad brúka sídan sama lag. Adrir foreldrar eru jafnvel svo dárlegir, ad þeir álíta þad rok uppá barnanna skírleika, ad þau géta upphugsad afbatanir og vöflur, þeir hæla því skjótar lygi barnanna, enn hegna henni. Þó er nálega enginn brestur, sem framar á ad adgætast og skarpara ad hegnast enn þessi, því hann er adal-rót allra annara lasta. Þegar nú eitt barn fyrst sjer, ad þad í smávegis atvikum gétur med lyginni hverst frá sér hyrting þeirri, þad hafdi tilunnid, svo vogar þad sídan hid sama í odru, sem meira er ispunnid, og ad lokunum lætur þad sér ecki bilt vid verda, ad fremja þá stærstu lesti,

Þar Þad ad eins ríður á ad neita med frekju hvorju Því, sem uppá Þad er borið. Allt eins refsingar-verd er og einÞyckin. Venjist bornin ad eins á barndóms-árunum, til ad hafa fram Þeirra eginn vilja, svo vita Þau sídan ecki ad laga sig eptir vilja annara; foreldrarnir munu naumlega sídan fá Þau til audsveipni, ad minnsta kosti ecki án horku, Þau verda Þverúdar-full vid adra menn og jafnvel Guds bodordum hlýdnast Þau ecki, Því Þau eru aldrei von til ad gjora annad, enn Þad Þau siálf fýsir, og aldrei til ad hafna sér nockurrar skémtunar. Hvorsu vel gjora Þá foreldrar vid born sín, sem enda í Þeirra hrá-blautu barnæsku, venja Þau til ad vera í ollum hlutum áſátt med foreldranna vilja, og ecki einusinni líða, ad Þau sýni á sér hinn minnsta ólundar-svip. En ad hirta med hard-sinni fyrir adra barna-bresti, gjorir meiri skada enn gagn, og enn nú verra er Þad, ad hirta born, sem á legg eru komin, med barsmíd, Því á Þeim aldri mun ástúdleg vidbúd, gudrækilegar áminníngar, skynsamlegar fortolur og góð dæmi af foreldrunum, gjora hid besta og mesta ad verkum.

Um

## Um Hans Dorsk og børn hans.

Hans Dorsk var madur sá, sem aldrei hugsadi hvorki um Gud, né nockurn annann hlut, enn einmidt ad fá nockud ad eta einn dag eptir annann; en þessvegna fór og þannig fyrir honum, sem vér skulum fá ad heyra. Eg get ecki nóglega furdad mig á ad menn, sem Gud hefir gefid vit og skyn, geta lifad, sem menn segja, eptir munni og maga, allt eins og qvikfénadurinn sá mállausi og óskynsam[illegible]. Ætti þó ecki madur hvorr undir eins og hann ad morgni dags rís af reckju, strax ad hugsa til Guds, og þenkja med siálfum sér: nú er eg aptur uppvaknadur heill og ósiúkur; Gud er kringum mig, hann sier ecki einúngis athafnir mínar, heldur veit hann hvort eitt ord eg tala, og sier hvorn þánka í mínu hjarta. Eg er vanburda mannskepna, sem hvort augnablik drýgi marga bresti, og þad er þó oldúngis ótilbærilegt vid einn svo gódann Gud, sem tjáir mér svo marga velgjorníngа. O! Drottinn Gud! hjálpa þú mér siálfur, ad eg ecki gjori annad, enn þad, sem þér er þócknanlegt!

legt! lát mig þannig þenkja allann daginn út, ad mér ecki beri naudsyn til ad blygdast í þínu augliti fyrir nockurn af mínum þaunkum! lát mig ei tala eitt ord, nema eg fyrst hafi íhugad, hvort þad ei er syndugt edur hneixlanlegt.

Þegar vér þá med sögdum hætti höfum fyrst haldid oss til Guds, svo eigum vér og ad gaumgæfa allt hvad oss ber ad gjöra í kalli voru og húss-stjórn, því til þess hefir Gud gèfid oss vit og skyn, ad vér uppá þann hagqvæmasta, skynsamasta og gagnlegasta máta ...pum öllu því vér höfum umvèlis. Þó eigum vér ei heldur ad gleyma vorum náunga og medborgurum. Eckért er Gudi gèdfeldara, enn þegar vèr erum vingjarnlegir og þènustusamir vid adra. Ætíd, þegar oss gèfst færi, og vèr sjálfir ei lídum stórann halla þar vid, eigum vèr ad þenkja um, hvornig vèr gètum þjónad ödrum, og einkum mègum vèr ávallt vera reidubúnir til ad veita þeim lid, sem sjálfir ecki megna ad hjálpa sèr, fátækum, sjúklingum, eckjum og födurlausum; þad álitur Lausnari vor, sem vèr hefdum gjört honum þad sjálfum.

Þegar þér viljid þannig hegda ydur dag hvorn, og ávallt gefa gætur ad þaunkum ydar, ordum og øllum verkum, svo gánga vel og gæfulega allar ydar athafnir. Víst ad sonnu heyrir hér ærinn tími til, ádur menn verda því rétt tamir; menn gleyma því, en menn megu einnig jafnódt endurminnast þess, og í ondverdu þvínga sig, þar til menn eru ordnir því alvanir, svo verdur þad á eptir léttara og léttara. Vér megum líka alla-jafna bidja Gud, ad hann vilji veita oss krapta þar til, svo mun þad takast oss. Og ad lesa á stundum nockud í einhverri gódri bók, þad eblir oss í vorum gódu áformum. Brúkid kostgæfilega heilaga Ritníngu, svo opt þér hafid tækifæri, og lesid helst þad nýja Testament; þótt hér og hvar kunni eitthvad ad koma fyrir ydur, sem þér ecki skiljid, svo kastid þar fyrir ecki bókinni frá ydur, þad er þó nóg í henni, sem ydur er all-ljóst. Sjáid, mínir vinir! þad er þad, sem kristinndómi vorum mest á rídur.

Um þvílíkt hugsadi ecki sá umræddi Hans Dorsk, eg vil útmála ydur hann, allt eins og hann var. Foreldrar hans

vóru fátæklíngar, fadirinn var húsmad-ur, er vann, sem daglaunari, en módir-in þénti, sem yfirsetu-kona. Ná var bædi fadir og módir sjaldan heima, og því var drengurinn ad ollu leiti van-ræktur. Þegar fadir hans fór á morgn-ana snemma út til vinnu-sinnar, mælti hann ad sønnu til sonarins: Hans! flyttú þér á fætur, og fardú í skólann. En um þad kjærdi Hans sig lítt; hann ad vísu ansadi: já, en jafnskjótt og fadir hans var útgenginn, rjátladi Hans út úr á gøtunni til annara barna, er þar vóru ad leika sér; sjaldan lék hann sjálf-ur med þeim, því til þess var hann allt of klaufalegur, en þegar þau léku sem allra verst og frømdu svæsin stráka-por, svo hló hann, ad berg-mál qvad vid í fjøllunum, þá líka fullkíngdi hann þeim, og lá ofur vel á honum. Þannig gékk þad ár eptir ár, og hann uppólst í hinni stærstu vankunnáttu og sjálfrædi til hans 14da árs, þá fadir hans deydi. Herra Gud! hve ógnarlegt mátti þad vera fyrir slíkann fødur, ad sjá son sinn edur hugsa til hans á sinni dauda-stundu! hvørju vildi hann nú svara Gudi, sem bodid

hefir foreldrunum ad uppala sín børn í ega og umvøndun til Drottins? þá hefdi hann æskt ad hann mætti enn nú lifa í nockur ár, þá hefdi hann heitid, ad vilja bæta þad, hann ádur hafdi forsómad. En allt um seint.

Nú var allt úti fyrir Hans. Módirin hafdi ei efni til ad halda honum heima, medan hann gengi í skóla og lærdi nockud; hann hafdi ei heldur lyst þar til, og þvínga hann gat hún ecki, mátti hann því þjóna, sem smala-drengur hjá einum bónda eptir annann, þar til hann var kominn um tvítugt, og þá átti hann loks ad firmast. Nú var hann allt of daufur til ad nema nockud til hlýtar, þótt hann enda vildi, því þad er aldrei beinari braut búin, til ad gjøra, jafnvel þau skorpustu børn gáfu-laus, enn ad vanhyrda þau í úngdóminum. Lærdi hann því í 2 ár varla rétt ad lesa á bók. Allt þad, hann lærdi, var, ad trodid vard í hann dálítlu af frædunum, og þó skildi hann eckert í því.

Þá nú búid var ad koma náfninu á ad kristna hann, rédist hann til vistar í kaupstad hjá vagn-manni nockrum, því

fyrst

fyrst kunni hann ei ad gagni nockra bónda-vinnu, sídan var hann allt of þúng-lífur til ad vera vid verk allann dag frá morgni til qvølds. Á móti því var þetta her'egt líf fyrir hann, ad sitja í makindum á vagninum, og skála sig í hvorju kró-húsi, er hann fór fram hjá; en ósnotur, aulalegur og óhæfur bósi var hann, sem hvorki skeytti um, hvort hann fèck vagn-hlass, edur ecki, né heldur kunni ad umgángast med sidsemi vid þá, sem hann keyrdi fyrir. Engu ad sídur var hann þó í gódu gengi bædi hjá húsbónda sínum og þeim ødrum vagnmanns-þjónum, því svo aulalegur hann var, þar eckért lært hafdi, svo hafdi hann þó einskonar náttúru-vit, og gat opt komid þeim til ad hlæja med sínum þurru og kátlegu innfollum, og þad var allt jáfnt fólgid í annadhvort skammar-legum, ókirlisum tvírædum, edur ógudlegum og umsnúnum vindlngum af Guds ordi, og því hann heyrt hafdi í einni prédikun. Þad er sá syrna jóti óvani, svo margir vankunnandi og óupplýstir búka, ad þeir aldrei geta gjort sèr ad gamni, utan þeir blandi med einhvorju

konar. Vildu ad eins þvilikir einir láta sér koma í hug þessi ord vors Frelsara: menniernir skulu gjöra reikníngskap á dómsins degi fyrir hvørt þad ónytju ord þeir hafa talad.

Nú átti Dorsks húsbóndi og dóttir eina, sem var Hans Dorsk nærsta lyndislik, stóra, brydjulega og nautheimska mær, sem hjartans gjarnan hlyddi á þvílíkt tal, og sjálf tók undir í sama tóni. Hans átti því ofur vel vid ged hennar, og, sem þad plagar ad gánga, ad saurydi upp-qveikja lystina og leggja grundvöllinn til saurlífis verka, svo skédi þad og hér. Hans gjordi hana ólétta. Fadir hennar ragnadi og saungladi daga nockra út af þessu; á eptir urdu endalokin, ad Hans skyldi ega hana og svo var allt gott; þegar þau vóru komin saman átti hún barn á hvørju ári, en hún kunni eins lítid ad uppala þau, sem hann, og hafdi eckert vit á ad skipa ordulega búsljórn. Þegar hún hafdi eitthvad fyrir framan hendurnar, geck hún í því, sem mús í skolum, og trad í krackana, svo vid sjálft lá, ad springa mundu af of-sylli, endrar nær svalt hyskid allt heilu

húngri,

húngri, og mátti dögum saman nægjast med Þurrt braud og blá-vatnid.

Dorst kunni eckért, útan ad keyra vagnmanns-ferdir sínar, er skamt nádi til vidurværis fyrir konu hans og börn. Fyrir Þá sök greip hann til ad stela, og Þegar hann á ferdalagi sínu var hjá hinum ödrum vagnmanns-Þjónum, stal hann ýmist af ásödri hesta Þeirra, ým-ist hinu og Þessu frá Þeim og ödrum ferda-mönnum. Loksins gjördi hann eitt skipti svo mikid far af Þessu, ad hinir adrir ferda-félagar hans gripu hann í Þessum Þjófnadi, og lömdu hann svo mjög, ad hann kom veikur heim, lá nockra hríd, spýtti blódi og deydi sídan. A sjálfri bana-sænginni ragnadi hann enn nú ýduglega, var svo skapstyggur og gust-mikill, ad eckért vard gjört honum til hæfis, og Þannig dó hann út af. Hvört gétur endirinn annar ordid enn Þessi? ef vér ecki í neyd og deyd höfum Guds ord og eilífs lífs von ad hugga oss vid.

Nú var kona hans eptir med 6 ó-uppalin börn; enginn gat lidid hana, edur skipti sér af henni, og sjálf ga:-hún ecki hjálpad sér. Hefdi hún nú Þeckt

nockud til Guds, og reidt sig uppá hann, hefdi hún gétad unnid, edur þad viljad, svo hefdi hún undir Guds leidsögu, rat- ad á bjargar-vega, til ad sá sorgad fyr- ir sér og bornunum, en hvorr, sem eck- ert skeytir um Gud, af þeim slær hann og optlega hendinni. Þá, í stadinn fyrir ad bidja og erfida, greip hún til ad betla, þótt hún hefdi heilbrygda og full- hrausta limu, og nockur af bornunum vóru svo á legg komin, ad gjarnan gátu fengid dvol, og þessi lifernis-háttur lik- adi henni um sídir all vel, því hún odl- adist þar med fædu án ómaks og erfidis. Á vergángi þessum vandi hún og smám- saman born sín til ad stela, því þar med fengu þau meira enn á eintómu betlinu. Þordi hún því þá ei heldur lengi ad dvelja í nockrum stad, heldur lagdi allt land undir fót í snjóum og regnum, og bædi hún og bornin vóru qvik-nakin.

Tvö eldstu bornin, piltur 16 vetra, sem hét Andrés og stúlka Agnes á 15da árinu, hofdu enn ná svo mikla skynsemi, ad þau blygdudust sín fyrir lifterni þetta; og þá þau eitt sinn vóru á leid til þorps nock-

nockurs, lítinn spöl á undan móðurinni, höfu þau rædu þannig hvort við annað:

Andrés. Eg ber þó ljóta blygðun fyrir beininga-qvabbið. Hvar við kom-um, knúrrar fólk ávallt við ockur, og engin föt hofum við eins og annað fólk.

Agnes. Já! eg er og fyrir laungu orðin þreytt af því, og skammast mín þegar eg sje, að annað qvennfólk hefir sæmileg klæði, og þarf hvorki að svelta eður betla. En seig mér þó: hvað veld-ur að við erum svo vesöl og egum ecki eins gott og annað fólk?

Andrés. Það vil eg þér greina: heyrði eg það í gjær-qvöldi af bónda þeim, við vórum hjá í nótt, og varð eg svo reiður foreldrum ockar, að varla gét litið móður mína réttu auga. Gjæt þú að: faðir ockar kunni eckért; hann stal og var laminn til óbóta, móðir ockar gétur heldur eckért unnið, en hefir jafn-vel beðið ockur að stela, svo við kunn-um ecki annars að vænta, enn að verða öll saman sett í Tukthúsið.

Agnes Æ! Andrés! hvað skal til ráða fyrir ockur?

Andrés. Segja skal eg þér hvad eg í hyggju hefi; í þorpi því vid nú gaungum til býr ríkur bóndi, gódmenni mikid, hann hefir iafnan géfid mér nockud, og aldrei skútyrdt mig; hann skulum vid finna, og tjá honum út í hörgul frá gjörvöllu voru ásigkomulagi, og hvad hann þá rádleggur ockur, þad skulum vid gjöra.

Med þetta var systirin vel ánægd, og flýttu þau bædi ferd sinni, fundu bónda, og qvörtudu um þeirra bágindi fyrir honum, eins og med þeim var aftalad á veginum. Kénndi hann nú í brjósti um börn þessi tvö, og med því hann sá af þessu þeirra sinnis-lagi, ad þeim enn nú kynni ad verda menningar nockurrar audid, hélt hann þeim hjá sér, tók þau í dvöl, klæddi þau upp, og lét þau gánga í skóla, svo þau urdu bædi, hvort í sinni rod, réttgjörvir menn. Piltur-inn vard dugandis bóndi, og Agnes væn stúlka, vel lidin í þjónustu, ástsæl, og fécki góda giftingu. Módirin féck þaramóti skjótt enda á umferd sinni, því hún stal svo miklu, ad hún var sett í Tukthúsid; en hin börnin tvístrudust, svo enginn vissi hvad af þeim vard.

Sjáid

Sjáid hér! minir vinir! hvílík laung rød synda, ógæfu og volædis! og af hvorju kom nú allt þetta? einúngis af íllu uppeldi Hans Dorsks foreldra á honum. Er þad þá ecki ógnarlegt, ad einn ógódur fadir gétur ordid ógæfu efni svo margra manna. Hvad er nátt-úrlegra, enn þegar hann uppelur ílla børn sin, ad þau þá aptur uppali þeirra børn eins, og þessi enn ad nýju med sama hætti ønnur, og þad marga ætt-lidu igégnum. Hve þúngann reikníng hefir þá þvílíkur stofn-fadir ad standa Gudi alls-herjar á efsta degi fyrir alla nidja sína, í hvorra tímanlegri og má vera eilífri óhamíngju, hann einúngis hefir sok verid. Svo fordjarfanlegt er þad, ad stunda ecki børn sín og láta þau án typtunar uppvaxa, en eins stór yfir-sjón er þad og, ad reida þeim ofhátt hægindi og kébla þau í eptirlæti, uppá hvad eg nú vil skíra ydur frá einu dæmi.

## Um Jens Skraddara og børn hans.

Þá vér litum annara manna háttalag kríngum oss í heiminum, svo hyrdum ei ad leida oss í þánka, þad sé oss ovid-

komandi, heldur eigum vèr þad med at-hygli ad yfirvega. Adhafist þeir þad rètt er og gott, skulum vèr taka ofs dæmi þar af ad breyta eptir þeim, en drýgi þeir nockud vondt og órètt, skal þad kénna ofs ad varast þeirra ávirdingar, og sneida hjá straffi því og óhægindum, þeir med brestum þeirra yfir sig leida. Guds tilgángur, med því ad lída svo mikid vondt í heiminum, er, ad þad skuli þjóna ofs til vidursýnar. Viljum vèr ad eins gefa náqvæmar gætur ad því, sem í heiminum skèdur, svo gètum vèr numid þar af yfirmáta mikid. Gætid t. d.: ad, þegar þèr sjáid mann einn, sem med svikum og rángsleitni hefir audi safnad, ad sjaldan mun þá hjá því fara, ad vèr ei líka sjá megum, ad hans born og barna-born hafa eckért þar af; þad gengur eptir máltækinu: íllur fengur, ílla forgengur. Ellegar þegar þèr sjáid born, sem sèr ílla hegda vid foreldra sína gamla, svo verdur þad þeim aptur, á þeirra sjálfra elli-árum, af bornum þeirra all-optast endurgoldid, og þannig gengur þad í morgu odru. Þess ber ofs einúngis ad gæta, þá vèr hugleid-um

um kjör annara manna, ad vèr ecki undir eins og þeim gengur illa, þegar qvedum svo ad ordi: Þad var makleg hegníng fyrir syndir hans; þad hefir hann verdskuldad med því og því verki. Nei! Þad er ad dæma óvinsamlega, og hæfir þad engum kristnum manni. Gud leggur opt einum kross og mótlæti á herdar, til ad gjöra hann dygdugann og gudhræddann; breytir hann vid oss, sem skynsamur fadir, sem á stundum hlytur ad brúka vönd inn, þegar áminníngar og advaranir eckért fá gagnad. En í stad inn fyrir ad fella dóm yfir adra, skulum vèr, med því ad líta á kjör þeirra, athuga ockar egid framferdi, spyrja oss sjálfa: mundú ecki hafa verdskuldad hid sama, sem nú hendir þennann? ert þú ei sekur í sömu brotum? og finnum vèr oss þá sakbitna, eigum vèr ad leggja alla stund á ad leidrètta ávirdíngar vorar, og bidja þann þreina Gud um fulltíngi þar til. Med svofeldu móti vill Gud ad vèr skulum nytja oss annara dæmi, fyrir þá sök hefir hann og sjálfur í ordi sínu géfid oss svo mörg dæmi uppá gudhrædda og góda menn, hvorjum vel hefir

R vegn-

vegnad, og uppá vonda menn, er sér hafa steypt í ógæfu med syndum þeirra, til þess ad vér skulum kappkosta ad stæla eptir þeim fyrri, en varast ad líkjast enum sídari. Virdid þá nú þannig fyrir ydur dæmi þad, er eg vil tjá ydur uppá eitt of-dátt barna-uppeldi.

Þessi Jens Skraddari var madur rádsettur mjög, sem vel kunni handverk sitt; hann setti sig nidur í kaupstad einum, og géck ad ega stúlku nockra, sem ei var bersnaud; hét hún María; unnust þau vel; María hjálpadi manni sínum, til ad sauma, og bædi vóru þau ydjusöm, svo þau ödludu ríkuglega atvinnu sinnar, og lidu engann skort; þeirra einasta ógledi var, ad þeim ei vard barna audid, hvors þau þó bædi sér hjartanlega æsktu. Loks eptir 4 ár lagdist María á gólf, og ól son, sem þau nefndu Jóhannes.

Nú var gledi þeirra fullkomin, og sveinninn var þeim kjærari, enn öll heimsins audlegd. Á hvorju augnabliki stock fadirinn upp frá verki sínu, tók barnid í fáng sér, kyssti þad, og bar nockrum sinnum um kríng í stofunni.

Jafn-

Jafnskjótt og einhvørr géck inn til hans, skyldu þeir sjá barnid, máttu þeir og hrósa sveininum ef líka átti. Þegar dreng-urinn grét, enn þótt hann væri ósjúkur og bristi eckért, þá kostudu bædi Jens og kona hans ollu því þau hofdu handa á milli, hlupu ad voggunni, og þreyttu hvørt vid annad, ad hlaupa aptur á bak og áfram med barnid, þar til þad þagnadi. Væri hann nú lengi nockud ad hrína, svo meintu þau strax ad hann væri veikur, og hljóp fadirinn þá, sem-fætur togudu, á sama augnabragdi til Líknar-búdarinnar eptir medolum. Vardi þetta þannig vid, til þess sveinninn var missiris gamall, og var hann nú þegar mjøg skémmdur. María vildi fegin full-trúngja manni sínum í handydn hans, en þar til gafst henni allsjaldan, fyrir syninum, tími nockurr. Medan hann vákti, vildi hann allt jafnt láta bera sig, og þegar hann jafnvel var syfjadur, hlaut annadhvørt þeirra hlaupa med hann í fánginu, þar til sofnadur var. Þegar qvøld var komid, og foreldrar hans vildu gánga til hvílu, hafdi hann sofid út, og var ǫldúngis glad-vaknadur; vildu þau

þá hafa húss-frid, máttu þau á ný hlaupa um gólf med hann hálfa nóttina, ella nam hann ecki af hljódum, allt eins og ætti hann von á ad verda barinn. Var þad nú nærsta þúngbært fyrir Þjónustufólk, sem á daginn mátti vera vid vinnu, ad þad um nætur hafdi enga ró; en gledi þeirra yfir sveininum gjordi, ad þau lidu allt þetta med þolgædi.

Þá hann tók betur ad stálpast, vondu þau hann einnig á, ad gefa honum nockud af sykri, edur odrum sætindum, til ad kjassa hann, þegar hann hrein, og á þetta vandist hann svo mjøg, ad jafnskjótt og hann hafdi opid annad augad, vildi hann annadhvort láta bera sig edur fá eitthvad af sætindum, ella var ei lon á hrinum hans.

Þad er hin stærsta ógæfa, foreldrar géta gjort bædi sér sjálfum og børnum sínum, þegar þeir koma þeim á þenna óvana; verda børnin sérlynd, og hafa ecki hálfa værd vid þad þau hafi gæti, þar þó værd og svefn er þad, sem í þeirri blautu barn-æsku hvad mest stydur til heilbryngdi og þrosca líkamans. Sjálfir foreldrarnir hafa meiri ordugleika

leika med barn eitt þvilíkt, enn adrir hafa med 3 edur 4 spok og vel uppfóstrud. Venjid þar fyrir aldrei born ydar á ad vagga þeim í svefn, því sídur ad lulla þeim, edur bera þau, til þess þau sofna. Haldid þeim ad eins þurrum og hreinum, og gefid þeim mjólk þeirra og mat í tækann tíma, og skulu þau þá vissulega, þegar þau eru ósjúk, án frekari umsvifa, sofa bædi lángtum værara og lengur, enn þá þeim er leyst ad koma fram vilja sínum í hvorju einu.

Nú óx Jóhannes vor, og eins og hann vard eldri, eins vard hann líka sérlyndari. Yfir þessu furdudu sig foreldrar hans ærid mjøg, og gátu aldrei skilid hvornig þad fengi sked, ad sveinninn; er var heill og hraustur, var þó sí og æ ángurvær, bágur og óánægdur, virdtist þeim þau hefdi varid hinni mestu umhyggju til uppfósturs hans, og ekki látid sitt til vanta; já, víst hefdu þau gjørt honum heldur hátt undir høfdi, og þad var ógæfan.

Enn nú fengu þau dóttur einnar, er þau nefndu Kristínu, og allt eins velgjulegt dálæti hafdi hún í uppfóstr-

inu; þá born þessi dróguſt betur á legg, dafnaði og með þeim þeckjanlega sjálfræðis-þóttinn og ſérlyndið. Þá er þau litu eitthvað, sem þau girntuſt, máttu þau fá það, hvað sem gylda átti. Kjæmi einhverr ókénndur inn í húſið, sem fallegar Tóbaks-dósir hafði, eður ſnotra Urfeſti, vildu börnin ſtrax hafa það, og hljóðuðu, eins og ſkyldi þau líſi týna. Foreldrarnir tóku þau þá ſér í fáng, kyſſtu þau og mæltu: þégi þú, litli Hansminn! litla Kriſtín! ókunnugi maðurinn á það, þú gétur það ei ſengið; nei, nei! orguðu krackarnir, eg vil ſá það, ljá mér það! foreldrarnir létu ſér þá aldrei verða að mótſegja þeſſu keipakalli, en ſármændu til hinna framandi, ſvo þeir optaſtnær máttu láta bornunum af hendi það, þau ſá vildu. Fengi nú Hans það, ſvo varð Kriſtín ofſtæk og ætlaði af goſlum að gánga, þar til þeir urðu einnig að géfa henni það.

Þannig ſkémma ſvo margir foreldrar born ſín, og með því að ſlaka til við þau í ollum hlutum, ebla þau einmidt í loſtum þeim, er þeir ættu venja þau af, og hirta fyrir. Hve margir gjöra

gjöra og ecki svoleidis börn þeirra befudsargtrug med þeim fyrna ljóta sid, ad undir eins og eitt barn rekur sig á vegg, edur dettur á gólf, þá heitir þad, til ad spʒkja þau: lemdú þann slæma vegg, trampadú þad ljóta gólf. Víst ad sonnu lína þeir börnin med þessu, og sá þau til ad þagna, en venja þau þó jafnframt med því, til ad hefna sín; og skér þad fyrst á daudum hlutum, munu þau sídan aldrei þola afgjörd af nockrum manni, án þess ad endurgjalda íllt med íllu.

Nú vóru börn þessi svo gomul ad byrja skyldu ad gánga í skóla. Fadirinn bad þá Skólameistarann innilega ad ljósta ecki blessada barna-úngana edur vera þeim of-hardur; lögdu foreldrar þeirra einnig óspjaldan í lófa Skólameistarans, svo ad hann fann sér engann óhag vid ad sjá ígégnum fíngur vid þau. En eins úngis þad, ad þau máttu sitja kyrr í skólanum, var þeim allt of þúngt, þar þau aldrei vóru von til annars heima, enn ad leika sér og ráda med ollu. Vildu þau því naudug í skólann gánga, og ecki höfdu foreldrarnir onnur rád, enn kaupa þad af þeim, med sykri, rósínum

og þeſskonar ſætindum; af þeſſu máttu þau ávallt hafa fulla vaſana, ella vildu þau ecki í ſkólann; og, ſem þángad kom, var ydjan, ad eyda úr þeim. Lærdóms urinn var því eins lítill þar og heima, og eins fákunnandi og þau vóru, eins urdu þau lika laſta-full, þar þau í ollum hlutum ſkyldu danſa eptir ſinu hofdi.

Jóhannes hljóp allt um kríng í bÿnum og á gotunum, hvar hann lyſti; ſlô hann ſtundum gluggana inn, ſtundum lánadi einhvorjum ſtein í hofudid. Kjæmi þar þá nockurr er qvartadi um óſkunda þenna fyrir fodurnum, vildi hann ecki trúa, og hirti því aldrei ſon ſinn þar fyrir. Atti hann ad læra handverk fodur ſins, hvar til hann enga lyſt hafdi, en med makt gat fadirinn nú ei þvíngad hann. Lærdi því ad eins litid, og erfidadi einúngis þegar hann þeſs einhvorju ſinni í millum ſvo fyſti. Meſtum tíma vardi hann til ydjuleyſis og dryckjuſkápar, ſvo hann um ſidir gjordiſt þad laſta-dÿr, ad hann ſpiladi og drack út klædin af kroppi ſér, og ad lokunum, þegar hvorki dugdi blídt né ſtrídt, hlaut fadir hans ad koma honum á ſkip og

ſenda

fenda til Vestindía, sem soldáta, til þess hann ei hefdi daglega skömm og hjartans ángur af honum.

Fyrir dótturinni fór ecki betur: hún stock einnig, hvört henni var hugqvæmt, og ætíd var hún stödd, hvar handverkssveinarnir höfdu lystisemdir sínar og samkomur. Endalokin af því urdu, ad hún vard þúngud af úrþvættis-strák nockrum, þá hún ei hafdi nema 18 ár á baki. Strákurinn strauk og sat hún þá ein eptir hjá foreldrum sínum, sem vanvirdt, smánud, kreinkt qvenns-nist med bögg-ulinu. Enginn rádvandur madur skeytti nú um hana, þess vegna lagdist hún í skammarlegann lifnad, og var enn nú tvisvar börnud, ad hvörju búnu Yfirvaldid setti hana ad lokunum í Tukthúsid, og þar qvaddi hún heiminn.

Svo stóra hjarta-sorg hafdi nú þessi madur af börnum sínum, og þad einúngis fyrir þá sök, ad hann hafdi látid of-dátt ad þeim. Höfum vér nú sjed, ad vér getum gjört stórann skada med of-hardri umgengni vid börnin, líka og hefi eg sýnt ydur dæmi uppá, ad eins fer þad illa, þá menn annadtveggja alls

eckert

eckért hugsa um þau, edur og í uppfóstrinu kébla í allt of-miklu eptirlæti. Vil eg nú vona, ad sérhvorr kristilegur og skynsamur fadir og módir þenki, þegar þetta lesa: Gud vardveiti mig frá ad drýgja nockra af þessum ávirdingum, og þar med gjora bædi mig og born min ógæfuleg! hann veiti mér skilníng og nád til ad uppala þau, eins og mér ber. Viljid þér þannig þenkja, mínir vinir! og svo fylgja einfoldum reglum þeim, eg nú skal géfa ydur, svo munud þér sjá, ad ydur skal þad audnast.

Þad, þér erud bornum ydar um skyldugir, er ad sorga fyrir þeirra tímanlegri og eilífri velferd, bædi fyrir líkama þeirra og sálu.

*Berid þá tilhlýdilega umsorgun fyrir þeirra líkama*, allt frá fædíngunni, ad þau nái upp ad vaxa med heilbrygdum líkomum og vel-skoptum limum. Reirid þar fyrir aldrei fastann born ydar; margir meina, ad limirnir muni med því réttir haldast; en þeir fá þar med skjótar skéckt þá hrá-blautu limi, og hamlad vexti þeirra. Búid þeim ei heldur sídan í barn-æskuni adskorin fot edur allt

of-

ofrilsom. Adskorin sot þreyngja ad lík=amanum og tálma liduga hræringu lim=anna. Allt of=mikill ilur gjörir börnin ad hér=kælum orqvisum; þau megu lángt=um heldur frjósa enn sveita. Sú nátt=úrlega fæda fyrir hrá=blaut börn, og þeim hin hollasta næring, er mjólk mædra þeirra, en hæglega gétur hin sama ord=id ólifjan fyrir þau, ef módirin ecki lifir, sem henni ber. Drecki hún brennu=vín edur annann áfengann dryck; sé hún reidi=gjörn, skapbrád og géfin fyrir spélni, er allt tilsamans espar blód hennar, gét=ur hún med því tídum orsakad börnum nidurfalls=sótt og adra sárlega veikleika. Þótt barnid fái næga mjólk, er þó vel gjört, svo fljótt þad er nockra vikna, ad venja þad til matar. Rifid braud, med oli, sem ecki er súrt, er holl fæda börnum, og gjörir þau hvorvetna spak=ari og heilsubetri, enn þá þeim er géfin mjólk ad eingaungu. Vilji þad óhapp til, ad módirinn ei géti haft barn sitt á brjóstunum, og megi því fæda þad á kúa=mjólk, svo á mjólkin ætíd ad bland=ast med vatni til helsinga; margir meina, þeir gjöri vel vid börn sin med því, ad

géfa

géfa þeim hina kostuguftu mjólk, og þykir allvænt um, ad þau þrifast vel þar af, edur, sem menn plaga ad segja, renna upp, sem fífill í túni, en hún er þeim allt of megn fæda, og lyktar al-þýdlegast med því, ad bornin fá nidurfalls-sótt og deyja. Verdi eitt barn ángur-vært edur gángi eitthvad ad því, þá brúkid fyrir alla muni aldrei þá al-gengu læknfngu ad géfa því brennu-vín; sólk birlar sér inn þad gagni, af því barnid þess vegna verdur dodalegt og fellur í svefn; en þad eyfar blódid, og undir eins og þessi skammvinni þyngsla-dodi er hjá-lidinn, verdur því verra enn ádur, heldur, gángi eitthvad toluverdt ad barninu, svo leitid lids í tíma, hjá skynsomum monnum, en ecki hjá Skottu-læknurum edur kerlínga-hrotum. Hafid og ávallt vakandi auga á bornum ydar í þeirra barn-æsku, ad þau ecki án tilsjónar hlaupi í kríng, og meidi sig. Hve stór er á-byrgd þeirra fyrir Gudi, sem fyrir hyrdu-leysi láta born sín verda krýplínga, og lída tjón lífs og lima.

Beygid barnanna vilja í þeirri audmótudu barn-æsku. Margir álíta

þad

þad fráleitt; segja: þad er víst synd, ad þvínga eitt barn, ad neita því um nockud! hvada vit hefir þad á, hvad þad má giora og ecki giora? en jafnskjótt og eitt barn veit ad auglýsa sérlyndi, svo er tími til ad taka ad svegja þess vilja; ecki er sagt þad skuli ské med höggum og slögum, nei! skynsöm umgengni giörir þad allra best og er þad í því fólgid: þad, sem eitt barn á ad hafa, nefnil.: mat, dryck, þiónustu, eptir því megu menn aldrei láta þad lengi bída, til þess þad ei hríni og hljódi; því þegar barnid fær þad, þá innbirlar þad sér, ad þegar þad ad eins hljódi, muni þad fá allt hvad þad heimtar. En þarámóti jafnskjótt og þad hrín, edur sýnir á sér laungun eptir ödrum hlutum, barna-glíngri edur þesskonar, egu menn aldrei ad veita því slíkt, fyrr enn þad lætur af skiælunum, edur hafa hid minnsta ómak fyrir ad þagga þad. Sé þessa ad eins nákvæmlega gætt af öllum þeim, er búa vid barnid, mun því brádt hverfa lystin til ad sýna sérsinni og verda med öllu eptirlátt.

Byrjid snemma ad uppfræda børn ydar. Undir eins og þau eru 4 edur 5 ára eiga þau ad læra ad þeckja bókstafina og qveda ad. Þad er þad, sérhvorjum þeim foreldrum er lafhægt, sem í úngdóminum sjálfir hafa lært nockud. Vildu menn ad eins gjora þad, dag hvorn, og þó ei væri þad svo utan hálfa klucku-stund á dag, gæta þau numid þad ádur menn varir; og þegar bornin þannig hafa lært ad lesa, ádur enn þau koma í skóla, er miklu lokid.

Kénnid børnunum í tíma ad þeckja Gud, og hlýdnast honum. Þenkid ecki, þad sé nockud, sem Presturinn og Skólameistarinn einúngis ega ad annast; nei! þad eru foreldrarnir sjálfir, sem med daglegri sambúd vid bornin, egu ad leggja hinn fyrsta og besta grundvoll. Þarf til þess vissulega engann vídt gripandi vísdóm edur mikla þeckingu; hafid þér ad eins følskvalausa lyst til ad uppala ydar born í Guds-ótta, gætur þá ei einn og' sérhvorr af ydur, sagt þeim marga góda hluti: ad Gud sé almáttugur, og gæti því bædi hjálpad oss og hegnt; ad hann sé alvitur, og því grand-

kunnugt allt hvad vér gjörum, hvört heldur illt er edur gott; ad þeim vegni ávallt vel, er hlýda honum, og þeir ó-gæfulegir, sem fremja þad vonda, hann bannad hefir; hvé hægt er ei ad kénna þeim ad greina hid vonda frá því góda, og sýna þeim þau séu lángt betur farin med ad lifa kristilega og sidsamlega, enn andvaralaust og ógudlega. T. d.: ad sá, sem er kostgæfinn og sidprúdur, sé virdtur og tignadur í heiminum, sé heill og ósjúkur og fái ríflega þad, hann med-þarf til síns vidurværis; en á móti því sé sá lati og lasta fulli fyrilitinn af ráð-svinnu fólki, hann týni heilsu sinni, verdi fátækur og vesæll; er nú þetta án efa þad, eitt barn 7 edur 8 vetra audveld-lega skilid getur. O! hvörsu vel væri ei þeim laungu vetrar-qvöldum varid til þvílíkrar kristilegrar og nytsamrar sam-rædu vid born ydar! kénnid þeim: ad Gud sé sá, er vidheldur þeim og vernd-ar þau, og látid þau þess vegna aldrei gánga svo til hvílu, edur rísa þadan, ad ei lesi þau morgun- og qvöld-bænir sínar. Tjáid þeim, ad Gud veiti oss alla hluti, og ad þau sokum þess, hvört

sinn þau matar neyta, aldrei gleymi að biðja hann og þacka honum fyrir gæðsku hans. Látið þau síðan, að þessu þannig undirbúnu, gánga í skólann, og það kostgæfilega, svo munuð þér bráðlega með gleði sjá! að þeirra þecking mun þróast og þau sndverdlega venjast til sannarlegs Guðs ótta.

Rappkostið jafnaðarlega að lagfæra barnanna bresti. Ecki á það að ské með jafnlegri útheglun og nöldri, því síður með höggum og slögum, svo lengi þau vilja láta lagfæra sig með góðu, að áminna þau með kjærleika og leiða þeim fyrir sjónir, hvorjum skaða þeirra yfirsjónir séu ollandi, það er það, sem mest um varðar, og þegar þau ei fyrir það bæta vilja ráð sitt, megu réttgjörvir foreldrar grípa til vandarins, en þó jafnframt fyrir alla muni gæta sín að hirta aldrei í reiði, heldur með skynsamlegri íhugun og eptir ásigkomulagi brotsins, svo að börnin skilið fái, að þau ecki eru straffuð í öðru tilliti, enn að bæta þau. Brestir þeir, sem venjulega eru barn-æskunni samfara, hyrðuleysi, bráðgætni, laus-sinni, og þesskonar aðrir,

ir, egu ei ad hegnast of-hardt, þegar þeir ecki eru heldur frekir. En sérsinni, lýgi, blóti, skarn-ordum, sem og sérhvörju því verki, er illsku vottar, á aldrei ad sýnast hegníngar vægd.

Haldid børnunum snemma til náms-ydni og starfsemi. Tilefni ómennsku þeirrar, er mörgum fylgir gjørvalla æfi þeirra, er ósjaldan þad, ad þeir í úngdæminu vanir eru til ydjuleysis; sá þeir þá strax óbifur á vinnu allri, og allt veitir þeim sídan ordugra. Audvitad er, ad menn vel megu gæta, ad segja ecki bornum verk þad, er krapta þeirra yfirgnæfir, edur heimta somu stadfesti af þeim, sem fullordnum. En þarámóti eiga menn ávallt sá þeim eitthvad þad ad ydja, sem óordugt er, og þeim yndælt þykir, svo finna þau med tímanum ánægju í vinnunni, og aldrei liggur þá midur á þeim, enn þegar þau ydjulaus eru. Sæmilegra fríheita og skémtana megu menn bornum unna og únglíngum, leyfa þeim umgengni med jafníngjum sínum, einúngis ad foreldrarnir sjái um, ad skémtanir þeirra séu algengar, og þau ei hafi sidblendi med

edr-

ødrum enn rádſvinnum mønnum, þvíſe þeim hafnad ſæmilegra frelheita, medan þau eru undir foreldra høndum, rekur þar ad, ad þau géfa ſig til óſæmilegra ſkémtana og í lítt-vandadann ſoll, þegar ſídan egu ſér ſjálf ad ráda. Med ár-anna fjølgun er þad réttgjørvra foreldra ſkylda, ad láta børn ſín læra þad, hvar med þau géti unnid ſér braud med ær-legu móti, og í því megu foreldrarnir aldrei fara ad eginn hugþótta, heldur náqvæmlega gæta ad hæfilegleika barna-anna, og velja þad fyrir þau, ſem þau eru duganleg til. Ad ſetja heilſu- og burda-gódann pilt, ſem er tornæmur, til bókarinnar, er ei annad, enn gjøra hann ógæfulegann, Fái hann hroſlaſt af ſkóla-tíd ſina verdur úr honum Stúdents-nefna, ſem eigi gétur ablad atvinnu ſinnar, í ſtad þeſs hann ad ødrum koſti ordid hefdi dugandis bóndi edur handverks-madur. Ad halda ødrum heilſu-linum og grannvøxnum til ſtrángrar bónda-vinnu, edur ſmída og þeſskonar neckurs, ſem útheimtir atorku og burdi góda, er viſſulega allt eins óviturlegt. Á æſku-ſkeidi ſínu hefir hann ſpilad med krapt-

ana, og gétur sér einkis ablad; en lát hvíllkann verda annadhvórt Bókbindara, Vefara, Skraddara eda Skómakara, svo má honum vel vegna, og sked gét-ur líka ad nád fái háum aldri. Hér hafid þér, mínir vinir! í stuttu máli hid hellsta, sem naudsynlega útheimtist, þeg-ar þér viljid uppala born ydar til gud-hræddra og gagnlegra manna; en ein er enn nú hofud-regla eptir, og sé hún undir hofud lögd, munu allar þær und-anfornu eckért nota. Þad er:

Gángid jafnan undan bornum ydar med gódum eptirdæmum. Skip-id ydar breytni í ollum hlutum þannig, ad bornin allt eins vel géti hagad sér eptir athofnum ydar, sem ordum. Ung-dómurinn er gjarn á ad breyta eptir þeim eldri, og hvorjum skyldu bornin framar kappkosta ad líkjast, enn foreldr-um þeirra, sem þau unna og hafa ætíd fyrir augum? látid því born ydar aldrei heyra edur sjá annad til ydar, enn þad, sem er gudlegt og sómasamlegt, ella verda allar áminníngar ydar og kénníngar árdlausar. Meini þér þad noti nockud, hvort heldur sjálfir þér, et. Prestur-

inn og Skólameistarinn áminnir børn ydar til lotníngar fyrir Gudi, ordi hans og húsi, þegar þau þarámóti sjá, ad sjálfir þér án naudsynja sitjid heima og vitjid ei kirkju, skégg-rædid saman úti í kirkju-gardi undir Guds þjónustu-gjørd, rædid aldrei heima hjá ydur um þad, sem þér heyrid í Guds húsi, og brúkid nafn Guds til blóts og svardaga? skyldu børnin vera kostgæfin og rádsvinn, af því foreldrarnir prédika fyrir þeim um mannkosti þessa, þegar þeir þarámóti eru hisknir og ruddalegir? nei, mínir vinir! heldur hegdid ydur sjálfir þannig í øllum hlutum, ad þér getid vísad ydar børnum til ad haga sér jafnt eptir verkum ydar, sem ordum, svo munu hinir úngu allt eins skjótt taka sér snid eptir ydur í því góda, og þeir annars vissulega líkjast ydur í því vonda, ef þér sjálfir vondir erud.

---

